# Handbók Presta,

innihaldandi

# Gudspjøll og Pistla,

med til andi

# Collektum Bænum,

sem í Islands K um lesast árid
um kríng á Sunnu Helgi-døgum.

Svo fylg nig

## Regle sla

um Barna-skírn, óna-vígslu,
Vitjun Sjúkr og Greftr-
un Framlidi , m. fl.

---

Videyar Klau 1826.
Prentud á kostnad Isl s konúnglegu
Vísinda Sti nar,
af Fakt. og Bókþryckjar Schagfjord.

# Handbók Presta,

innihaldandi

# Guðspjøll og Pistla,

með tilheyrandi

# Collektum og Bænum,

sem í Íslands Kirkjum lesast árið um kríng á Sunnu- og Helgi-døgum.

Svo fylgir einnig

## Vegleiðsla

um Barna-skírn, Hjóna-vígslu, Vitjun Sjúkra og Greftr-un Framliðinna, m. fl.

---

Viðeyar Klaustri, 1826.

Prentuð á kostnað Íslands konúnglegu Vísinda Stiptunar,

af Fakt. og Bókþryckjara Schagfjorð.

# Á Fyrsta Sunnudag í Adventu.

## Collectan.

Látum oss alla bidja!

Heyr, Herra Gud! vér bidjum þig audmjúklega: uppvek þina makt og kom til vor, svo vér mættum frelsast af þeim háskasemdum, sem yfir oss hánga vegna vorra synda, og ad vér mættum fyrir þina hlífd verda frelsadir og sáluhólpnir; þú, sem lifir og ríkir med Syni og heilögum Anda sannur Gud um aldir alda.

## Pistillinn.

(Róm. XIII, 11 — 14.)

Kjærir Brædur! Og med því ad vér vitum einkum þá stund, þad tími er upp ad rísa af svefninum, af því ad vor heilsa er nær, heldur enn þá vér trúdum.

Nóttin er umlidin, en dagurinn tekur ad nálgast. Leggjum því af verkin myrkranna og íklæðumst herklæðum ljóssins, svo ad vér gaungum sidsamlega, svo sem á degi; ecki í ofáti edur ofdryckju; ecki í legukofum og munadarlísi; ecki í þráttun og øfundsýki; heldur íklædist þér Drottni Jesú Kristi, og látid ecki eptir holdinu þess girndir ad rækja.

## Gudspjallid.

(Matth. XXI, 1 — 9.)

Í þañ tíma. Og þá er þeir tóku ad nálgast Jerúsalem og komu til Betphage vid fjallid Olíveti, útsendi Jesús tvo sína Lærisveina og sagdi til þeirra: farid þid í þad kauptún, sem gagnvart ydur er, og strax munud þid finna øsnu bundna og folann hjá heñi, leysid hana og leidid til mín. Og ef einhverr segir nockud til yckar, þá segid: ad Herrañ hafi þeirra þørf, og jafnsnart mun hann láta þau

laus. En þad skédi, svo ad uppfylltist hvad sagt er fyrir Spámañinn, er svo segir: segid dotturiñi Zion: sjá! þinn Konúngur kémur til þín hógvær, sitjandi á ösnu og á fola klif-bærrar ösnu. En Lærisveinarnir gengu á burt og gjordu svo sem Jesús baud þeim, og leiddu med sér ösnuna og folann, lögdu sín klædi yfir þau og settu hann þar uppá. En margt fólk breiddi sín klædi á veginn, og adrir hjuggu qvistu af trjánum og dreifdu þeim á vegiñ; en þad fólkid, sem fyrir þeim géck og eptirfylgdi, kalladi og sagdi: Hósíanna Syni Davíds! blessadur sé sá, sem kémur í nafni Drottins! Hósíanna í hæstum hædum!



# Á Annann Sunnudag í Adventu.

## Collectan.

Heyr, Herra Gud, almáttugur Fadir! vyrdstú ad uppvekja vor hjörtu, ad tilbúa þínum eingétnum Syni veginn, svo ad vér fyrir hans til-komu, mættum þjóna þér med hreinu hjarta. Fyrir hann sama þinn eingétin Son, Jesúm Krist, þú, sem lifir og ríkir, etc.

## Pistillinn.

(Róm. XV, 4—13.)

Kjærir Brædur! En hvad, sem skrifad er, þá er þad skrifad oss til lærdóms, svo ad vér, fyrir þolinmædi og huggun Ritníngaunna, hefdum vonina. En Gud þolinmædinnar og huggunarinnar géfi ydur þad, ad þér séud samlyndir ydar á milli, eptir Jesú Kristi, svo ad þér mættud sam-huga med einum munni dýrka Gud og

Födur vors Drottins Jesú Krists. Þar fyrir annist hverr annann innbyrdis, líka svo sem Kristur annadist ydur Gudi til heidurs. En eg segi Krist hafa verid þjónustumann umskurnarinnar, fyrir Guds sannleika sakir, til stadfestu fyrirheitanna, sem til Fedranna hafa skéd. En þad, ad heidinn lýdur heidrar Gud, þad er fyrir miskunsemina ordid, eptir því, sem skrifad er: fyrir þad vil eg, Drottinn! vegsama þig á medal heidinna þjóda, og þínu nafni sýngja lof. Og í annad sinn segir hann: fagnid þér, heidíngjar! med hans fólki. Og enn aptur: lofid þér Drottinn allir þjódir og prísi hann allur lýdur. Og enn aptur segir Esajas: þad mun ské, ad rót Jesse og hann, sem upprís til ad stjórna heidnum þjódum, þad á hann munu heidníir menn vona. En Gud vonarinnar uppfylli ydur med öllum fagnadi og fridi, svo ad þér yfirgnæfid í voninni, fyrir kraft heilags Anda.

## Gudspjallid.

(Lúk. XXI, 25—33.)

Í þann tíma. Jesús sagdi til sinna Lærisveina: þar munu

ſké teikn á sólu, túngli og stjørnum, og á jørdu qvalníng þjóda og ørvǿlnun; sjór og bylgjur munu hljóda, og menn munu af hrædslu uppþorna, og af eptirbid þeirra hluta, sem ad koma skulu yfir allann heiminn; því kraptar himnanna munu hrærast, og þá munu þeir sjá Mannsins Son komanda í skýunum med makt og miklu veldi. En nær þetta tekur ad ské, þá lítid upp og upphefjid ydar høfud, af því ydar endurlausn tekur ad nálægjast. Og hann sagdi þeim þessa eptirlíkíngu: skodid þér fíkjutréd og øll ønnur tré, nær þeirra aldin tekur út ad sprýnga, þá vitid þér ad sumarid er nálægt; svo líka nær þér sjáid þetta ské, þá vitid ad Guds ríki er nálægt. Sannlega segi eg ydur: ad þessi kynslód mun ekki forgánga þángad til allt þetta skér; himin og jørd munu forgánga, en mín ord forgánga eigi.

# Þridja Sunnudag i Adventu.

## Collectan.

Herr, Herra Gud! vér bidjum: hneig þú eyra þitt til vorra bæna og upplýs myrkur vorra hugskota med vitjun þinnar nádar. Þú sem lifir og ríkir, etc.

## Pistillinn.

1. Cor. IV, 1—5)

Þar haldi oss hverr madur fyrir, einkanu fyrir Guds þénara og verkstjórnara yfir Guds leyndardóma. En nú heimtist ecki meira af verkstjórnurunum enn þad, þeir finnist trúir. Því er mér þad fyrir minnsta kosti, ad eg skuli af ydur dæmast, eda af mannlegum degi; en þó dæmi eg ecki sjálfur mig. Því eg er mér einkis hlutar medvitandi, en af því em eg þó ecki réttlátur; Drottinn er sá, sem dæmir mig.

Fyrir því dæmid ecki fyrir tímann þángad til ad Drottinn kémur, sá er auglýsa mun þad í myrkrunum er hulid, og opinber gjøra ráð hjartnanna, og þá mun hverjum sem einum lofstýr ské af Gudi.

## Gudspjallid.

(Matth. XI, 2—10.)

Í þann tíma. En þá ed Jóhannes heyrdi í bøndunum verkin Krists, sendi hann út tvo af sinum Lærisveinum og lét segja honum: ertú sá, sem koma skal, eda egum vér ad vænta eins annars? Jesús svaradi og sagdi til þeirra: farid aptur og kunngjørid Jóhannesi hvad þér sjáid og heyrid: blindir fá sýn, halltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir heyra, daudir uppríса og fátækum verda Gudspjøllin bodud, en sæll er sá, sem ecki hneyxlar sig á mér. En ad þeim í burtu gengnum, hóf Jesús ad segja til fólksins af Jóhannesi:

hvad fórud þér út á eydimörku ad siá? reyr þann, sem af vindi er skékinn? eda hvad fórud þér ad siá? mann mjúk-klæddann? siáid! þeir, sem mjúkann klædnad bera, eru í Konúnganna húsum; eda hvad fórud þér ad siá? einn Spámann? Eg segi ydur fyri sann: þann meiri er enn nockurr Spámann; þvi þessi er sá, um hvern skrifad er: siá þú! ad eg sendi minn Engil fyri þinni augsýn, sá er þinn veg skal tilreida fyrir þér.

---

## A Fiórda Sunnudag i Adventu.

### Collectan.

Almáttugi, eilífi Gud! vér bidjum þig: ad þú komir og látir þitt almætti skína yfir oss, aumar manneskjur, ad hvad helst, sem vorar

syndir ydugléga forðiudra og hamla, það sama mætti þá oss veitast, fyrir hjálp þinnar náðar og miskunar. Fyrir þinn Son Jesúm Krist, sem með þér lifir og ríkir, etc.

## Pistillinn.

(Philipp. IV, 4—7.)

Elskulegir Brædur! Glediid ydur í Drottni alla tíma, og enn aptur segi eg: glediid ydur! Ydar hógværd sé kunnug ellum mønnum; þvíad Drottinn er nálægur. Verid ecki hugsjúkir, heldur látid ydar bænir í ellum hlutum, í bænahaldi og ákalli med þackargjerd fyrir Gudi kunnar verda. Og fridur Guds, sá hærri er ellum skilníngi, vardveiti ydar hjertu og skilníngar-vit í Kristi Jesú!

## Gudspjallid.

(Jóh. I, 19—28)

Þessi er vitnisburdur Jóhannesar, þegar Gydíngar sendu af Jerúsalem Presta og Levíta, ad þeir skyldu spyrja hann ad: hverr ert

þú? Og hann medkéñdist og neitadi því ecki. Og hann medkénndist, segjandi: ecki em eg Kristur. Peir spurdu hann eñ þá ad: hvad þá? ertú Elías? hann sagdi: ecki em eg. Ert þú þá Spámadur? Og hann svaradi: nej, ecki! Þá sögdu þeir vid hann: hverr ert þú þá? svo ad vér megum andsvar géfa þeim, er oss útsendu; hvad segir þú af sjálfum þér? Hann sagdi: eg em hrópanda rødd í eydimørku, greidi þér getu Drottins, eins og sagdi Esajas Spámadur. En þeir sem út vóru sendir, vóru af Pharíseis. Peir spurdu hann ad og sögdu til hans: því skírir þú þá, fyrst þú ert ecki Kristur, ecki Elías og ecki Spámadur? Jóhannes svaradi þeim og sagdi: eg skíri í vatni, en sá stód í midid hjá ydur, hvern þér þecktud ecki; hañ er sá, sem eptir mig mun koma, hverr ed var fyrir mig, hvers skó-

þvengi eg er ecki verdugur upp ad leysa. Þetta skédi i Bethabarg, hinumegin Jórdanar, þar sem Jóhannes skírdi.

# A Jóladaginn.

## Collectan.

Heyr, almáttugi, eilífi Gud! vér bidjum: veit þú oss, ad þins einka Sonar nýa fædíng mætti frelsa oss, hverjum sá gamli þrældómur heldur undir syndarinnar oki. Fyrir þann, etc.

## Pistillinn.

(Hebr. I, 1—5.)

Elskulegir Brædur! Med því ad Gud hefir fordum margfaldlega og med morgum háttum taláð til Fedranna fyrir Spámennina; en nú hefir hann allra sídast á þessum dogum til vor talad fyrir Son-

inn, hvern hann setti Erfíngja yfir alla hluti, fyrir hvern hann hefir einnig veröldina skapað, hverr helzt — með því hann er ljómi hans dýrðar og ímind hans Veru — berandi er alla hluti með orði síns kraptar, gjörandi hreinsun vorra synda fyrir sig sjálfann, setti sig til hægri handar Tigninni á hæðum, svo miklu æðri orðinn Englunum, sem hann hefir miklu framar þeim erft hærra nafn; því til hvers af Englunum hefir hann nockurntíma svo sagt: Þú ert minn Sonur, í dag ól eg þig?

## Guðspjallið.

(Lúk. II, 1—14.)

Það bar til á þeim dögum, að það boð géck út frá Keisaranum Agústó: að allur heimurinn skyldi skattskrifast. Þessi skattskrift hófst fyrst upp, þegar Cýrenius var Landstjórnari í Syria. Og þeir fóru allir að láta skattskrifa sig, hverr til sinnar borgar. Þá fór

og Jóseph frá Galílæu úr borginî Nazareth upp í Júdæu, til Davíds Borgar Bethlehem, af því hann var af húsi og kyni Davíds, svo hann léti skattskrifa sig þar, með Maríu sinni festar-konu óléttri. En það skédi svo, þá er þau vóru þar, ad þeir dagar fullnudust ad hún skyldi fæda, og hún fæddi sinn frumgétinn Son, vafdi hann í reyfum og lagdi hañ nidur í jötuna; því hún fékk ecki añad rúm í gésta herberginu. Og fjárhyrdarar vóru þar í sama bygdarlagi um grandana vid fjárhúsin, sem geymdu og voktu yfir hjørd siñi um nóttina. Og sjá! ad Engill Drottins stód hjá þeim og Guds byrta ljómadi umkríng þá, en þeir urdu mjøg óttaslegnir. Engillinn sagdi til þeirra: hirdid þér ecki ad hrædast, sjáid! eg boda ydur mikiñ fögnud, þañ er skér øllu fólki; því í dag er ydur Frelsariñ fæddur, sá ad er

Kristur Drottiñ í borgiñi Davíds, og hafið það til merkis: að þér munnuð fiña barnið í reyfum vafið og lagt vera í jötuna. Og jafnsnart var þar hjá Englinum mikill fjöldi himneskra hersveita, sem lofuðu Guð og sögðu: dýrð sé Guði í upphæðum, friður á jörðu og mönnum góður vilji!

## Á annann Jóladag.

### Collectan.

Heyr, Herra Guð! gef oss að eptirfylgja hans dæmum, hvers Hátíð vér í dag höldum, svo vér mættum læra að elska vora óvini, líka sem hann bað fyrir sínum ofsóknar-mönnum. Fyrir þinn Son Jesúm Krist, sem með þér lifir og ríkir, etc.

Pist.

# Pistillinn.

(Post Gb. VI. 8—15. VII, 54—60.)

Að þeim dögum. Og Stephanus fullur af trú og styrkleika, tók að gjöra stórmerki og tákn mikil á meðal fólksins. Þá stóðu upp nockrir af þeirri samkundu, sem kallast: Líbertínórum, Cyrenórum og Alexandrínórum, og þeirra sem vóru af Ciliciu og Asíu, þreytandi spurníngar við Stephanum; en þeir gátu ecki mótstaðið þeirri speki né þeim anda, af hverjum hann talaði. Þá sendu þeir út menn, sem segja skyldu sig heyrt hafa hann mæla háðúngar orð á móti Guði og Móse, og æstu svo upp lýðinn og Öldúngana og ena Skriftlærðu; hlupu að og gripu hann, burtleiddu fyrir Ráðið og settu til ljúgvotta, sem segja skyldu: þessi maður lætur ecki af að tala háðyrði gégn þessum heilaga Stað og Lögmálinu; því vér heyrðum hann segja: að Jesús af Nazareth mundi þenna Stað niðurbrjóta og umhverfa þeim setníngum, er Móses hefir oss géfið. En allir þeir í Ráðinu sátu, horfðu á hann og sáu, að hans ásjána var eins og Engils ásjána; en þá þeir

heyrdu þetta, skáruſt þeir í ſínum hjörtum og gnýſtu tönnum yfir honum. En med því, ad hann var fullur af heilegum Anda, hóf hann upp augu ſín til himins og ſá Guds dýrd, en Jeſúm ſtanda til hægri handar Gudi og ſagdi: ſjáid! eg ſje himnana opna og Mannſins Son ſtanda til Guds hægri handar. Þeir kölludu þá upp hárri röddu og ſamanbyrgdu ſín eyru, gjerdu honum árás med einum ſamdrætti, hnepptu hann út af Borginni og grýttu hann. En vottarnir lögdu ſín klædi til fóta úngmennis nockurs er Saul hét, og lömdu Stephanum med grjóti. Hann kalladi og ſagdi: Herra Jeſú! medtak þú minn Anda! Þá kraup hann nidur og kalladi hárri röddu: Drottinn! legg þeim ecki til þeſſa ſynd! En er hann hafdi þetta ſagt, ſofnadi hann.

## Gudſpjallid.

(Matth. XXIII, 34 — 39.)

Í þann tíma. Jeſús ſagdi til Gydínga fólkſins og Kénnimanna

Höfdingjanna: sjáid! eg sendi til ydar Spámenn, spekinga og skriftlærda, nockra af þeim munud þér aflífa og krossfesta, en suma munud þér húdstrýkja í samkunduhúsum ydar, og af einni borg í adra munud þér þá ofsækja, svo ad yfir ydur komi allt réttlátt blód, sem á jördina úthellt er í frá blódi Abels réttláta, allt til blóds Zachariæ sonar Barachiæ, hvern þér drápud á millum musteris og altaris. Sannlega segi eg ydur: ad allt þetta mun koma yfir þessa kynslód. Jerúsalem! Jerúsalem! þú, sem aflífar Spámennina og grýtir þá, er til þín eru sendir! hversu opt hefi eg viljad samansafna sonum þínum, líka sem hænan samansafnar úngum sínum undir vængi sér, en þér hafid ecki viljad? Sjáid! ydar hús skal ydur í eydi látid verda; því eg segi ydur: ad þér munud ecki sjá mig upp

frá þessu, þángad til þér segid: Blessadur sé sá, sem kémur í nafni Drottins!

## Á Sunnudaginn milli Jóla og Nýárs.

### Collectan.

Heyr, almáttugi, eilífi Gud! stjórna oss og öllu voru framferdi eptir þínum vilja, svo vér mættum, í nafni þíns elskulega Sonar, verda audugir í gódum verkum. Fyrir hann sama Drottinn vorn, etc.

### Pistillinn.

(Gal. IV. 1—7.)

Elskulegir Brædur! En eg segi: á medan erfínginn er barn, þá er á milli hans og þjónsins enginn greinar-munur, þótt ad hann sé Herra alls góþins; heldur er hann undir Forsvars- og Fjárhalds-menn-

um til áſetts tíma af feðurnum. Líka vér einnig, þegar vér vórum born, vórum vér þrælkaðir undir þeſſa heims ſetníngum. En þegar uppfylling tímans var kominn, ſendi Guð Son ſinn, fæddann af Qvinnu og Logmálinu undirvorpinn, til þeſs hann frelſaði þá, ſem undir Logmálinu vóru, ſvo að vér meðtækjum ſonarleifðina. En af því, þér eruð bornin, heſir Guð ſendt Anda Sonar ſíns í yðar hjertu, kallandi: Abba! kjæri Faðir! Svo er hér nú enginn þræll meir, heldur born ein; en ef þér eruð born, þá eruð þér og einnig arfar Guðs fyrir Kriſt.

## Guðſpjallið.

(Lúk. II, 33—40.)

Og hans Faðir og Móðir undruðuſt það, hvað af honum ſagðiſt. Og Símeon bleſſaði þau og ſagði til Maríu móður hans: ſjá þú! þeſsi er ſettur til falls og upprísu margra í Iſrael og til merkis, hverju í mótt mun mælaſt; ſjálfrar þinnar ond mun og ſverð ígégn-

um sinjúga, svo ad augljós verdi hugskots hjörtu margra. Þar var þá Anna Spákona dóttir Phanúels af kyni Asser; hún var komin til ára sinna og hafdi lifad sjø ár med sínum eignar-manni frá meydómi sínum. Þessi eckja hafdi nær fjóra vetur um áttrædt, hver ed ecki géck úr musterinu, þjónandi Gudi nótt og dag med føstum og bænahaldi. Þessi géck samstundis þángad ad og prísadi Drottinn og sagdi af honum til allra þeirra, sem endurlausnarinar bidu til Jerúsalem. Og er þau høfdu allt fullgjørt eptir løgmáli Drottins, snéru þau aptur í Galílæu til borgar sinnar Nazareth. En Sveinninn vóx upp og styrktist í anda, fullur vísdóms og Guds nád var med honum.



# A Nýársdag.

## Collectan.

Herr, Herra, himneski Fadir! sem lést þinn eingétinn Son verda Løgmálinu undirgéfinn og umskérast á áttunda degi, Løgmálid upp ad fylla, vegna þeirra, sem Løgmálsins bølvun véru undirgéfnir. Vér bidjum þína miskunsemi: ad þú viljir andlega umskéra vor hjørtu, frá øllum vondum girndum. Fyrir þann sama, etc.

## Pistillinn.

(Gal. III, 23—29.)

En ádur enn trúin kom, vórum vér vardveittir undir Løgmálinu, innilukttir uppá þá trú, sem opinber skyldi verda. Þar fyrir var Løgmálid vor tiptunarmeistari til Krists, svo ad vér réttlættumst fyrir trúna. En nú, sem trúin er komin, þá erum vér ecki lengur undir tiptunar-manninum; því allir erud þér

nú Guds børn fyrir trúna á Krist; því svo margir af ydur, sem erud skírdir, þér hafid íklædst Kristi. Hér er ecki Gydíngur né Grískur, ecki þræll né frelsíngi, ecki karl né qvinna, því allir erud þér eitt í Jesú Kristi. En fyrst þér erud Krists, þá erud þér sædi Abrahams, og, eptir fyrirheitinu, erfíngjar.

## Gudspjallid.

(Lúk. II, 21.)

Eptir ad átta dagar vóru lidnir og barnid skyldi umskérast, var hans nafn kallad Jesús, hvad er kallad var af Englinum ádur enn þad hañ var gétiñ í módur-qvidi.

---

# A Sunnudaginn milli Nýárs og Þrettánda.

## Collectan.

O Herra Gud, himneski Fadir! Þú, sem létst þinn kjæra Son Jesúm Krist, verda

framandi og útlendann í Egyptalandi fyrir vora skuld, og serdir hann heilann heim aptur til síns fødurlands. Vér bidjum þig: gef oss þína náð, ad vér aumar manneskjur, sem erum framandi og útlendir í þessum háskasama heimi, mættum snarlega komast til himnaríkis og heim í vort rétta fødurland, þar ad lifa í dýrd og gledi eilíflega. Fyrir þann sama, etc.

## Pistillinn.

(Róm. III, 19 — 22.)

En vér vitum: ad hvad helzt sem Løgmálid segir, þad segir þad þeim, sem eru undir Løgmálinu, ad sérhverr munnur tilbyrgist og allur heimurinn verdi vid Gud sakadur. Fyrir því gétur af verkum Løgmálsins ekkert hold réttlátt vordid fyrir hans augsýn; því fyrir Løgmálid kémur þekking syndarinnar. En nú er, án Løgmálsins, réttlæti Guds opinberad, um hvert vitnad er af Løgmálinu og Spámennunum. Já! réttlæti Guds fyrir trúna á Jesúm Krist, til allra og yfir øllum, sem trúa.

Gud-

## Gudspjallid.

(Matth. II, 16—18.)

Þegar Herodes sá, ad hann var gabbadur af Vitríngunum, vard hann reidur, sendi því út og lét drepa öll sveinbörn til Bethlehem og í öllum hennar endimörkum, tvævetur og þadan af ýngri, eptir þeim tíma, sem hañ hafdi útspurt af Vitríngunum. Þá uppfylltist hvad sagt er fyrir Jeremías Spámann, sem segir: á hædum hefir heyrst kall mikillar qveinunar, óps og ýlfrunar; Rachel syrgdi sonu sína og vildi ecki huggast láta, því þad var med þeim úti.

---

## Á Fyrsta Sunnudag eptir Þrettánda.

## Collectan.

Hevr, Herra himneskur Fadir! vér bidjum þig: veit þú girnd þíns bidjanda lýds, ad hann mætti sjá og skilja hvad rétt er, og ad géta þad sama gjört og framqvæmt med verki. Fyrir þinn Son Jesúm Krist, sem med þér, etc.

## Pistillinn.

(Róm. XII. 1—5.)

Kjærir Brædur! Fyrir því beidi eg ydur, fyrir miskunsemi Guds, ad þér géfid ydar líkhami til þess offurs, sem lifandi er og heilagt og Gudi þacknæmt, hvert ad er ydar skynsamleg þjónusta. Hegdid ydur ecki eptir þessum heimi, heldur umbreytid ydur í endurnýúngu ydvars hugskots, svo ad þér megid reyna, hverr ad sé gódur, þægur og algjördur Guds vilji. Því ad eg segi fyrir þá nád, sem mér er géfin, hverjum sem einum ydar á milli: ad enginn haldi meira af sér, enn honum byrjar af sér ad halda, heldur haldi hann af sér hóflega eptir því, sem Gud hefir útskipt hverjum og einum mælir trúarinnar. Því líka sem vér hef-

um marga limu á einum líkhama, en allir limienir hafa þó ecki líka hegdun, líka svo erum vér margir einn líkhami í Kristi, en vor á milli erum vér hverr annars limur.

## Gudspiallid.

(Lúk. II, 42 — 52.)

Þegar Jesús var tólf ára gamall, fóru Foreldrar hans upp til Jerúsalem, eptir sidvenju hátídardagsins. En er þeir dagar vóru lidnir og þau fóru heimleidis, varð barnid Jesús eptir í Jerúsalem, en hans Foreldrar vissu þad ecki, og meintu ad hann væri hjá selskapnum, vóru svo komin eina dagferd og leitudu hans medal frændar og kunníngja; en þá er þau fundu hann ecki, snéru þau aptur til Jerúsalem og leitudu ad honum. En þad skédi svo eptir þrjá daga, ad þau fundu hann í musterinu, sit-

jandi midt á millum Lærifedrañá, heyrandi þeim og adspyrjandi þá; en allir þeir, sem hann heyrdu, undrudust yfir hans skilníngi og andsvørum. Og er þau sáu hañ, hnickti þeim vid; en Módir hans sagdi til hans: Sonur minn! því breyttir þú svo vid ockur? sjá þú! Fadir þinn og eg leitudum harmþrúngin ad þér. En hann sagdi til þeirra: Hvad er þad, ad þid leitid ad mér? vissud þid ecki, ad mér byrjar ad vera í þeim hlutum, sem míns Fødurs eru? En þau undirstódu ecki þetta ord, sem hann mælti til þeirra. Og hann fór med þeim ofan og kom til Nazareth, var þeim og hlýdinn. En Módir hans geymdi øll þessi ord í hjarta sínu. Og Jesú jókst aldur og vitska og nád hjá Gudi og mønnum.



# A Annann Sunnudag eptir Þrettánda.

## Collectan.

O þú almáttugi, eilífi Gud! sem stjórnar öllum hlutum á himni og á jördu, heyr þá mildilega bænir þíns lýds og géf frid um vora daga. Fyrir vorn Herra Jesúm Krist, sem med þér, etc.

## Pistillinn.

Róm. XII, 6—16)

Elskulegir Brædur! En vér hofum marghättadar gjafir, hverr eptir þeirri nád, sem oss er géfin. Hafi nockurr spádóm, þá sé hann eptir réttri trúarinnar reglu. Hafi nockurr embætti, þá gæti hann þess embættis. Kénnir nockurr, þá vakti hann þá kénníngu. Aminnir nockurr, þá hyggi hann ad þeirri áminníngu. Hverr, sem géfur, þá géfi hann í einfaldleika. Hverr,

sem stjórnar, þá stjórni hann með áhyggju. Fremur nockurr mißkunsemi, þá gjöri hann hana með góðfýsi. Elskan sé flærðarlaus. Hatið hið vonda, en loðið á enu góða. Bróðurlegur kjærleiki sé ástúðlegur ydar á milli. Hafi hverr annann sér í virðíngum ædra. Verið ecki latir í því, sem þér egið að vinna. Verið glóandi í andanum, Drottni þjónandi. Hegðið ydur eptir tíð-inni. Verið glaðir í voninni, en þolinmóðir í qvölinni. Staðfastir í bæninni og anníst nauðþurftir heilagra. Kostgæfið að vera géstrisnir. Blessið þá, sem ydur ofsækja. Blessið en bölvið eigi. Fagnið með fagnendum, en grátið með grátendum. Verið samhuga innbyrðis. Stundið ecki á það, sem hátt er, heldur lútið að því sem lagt er.

## Guðspjallið.

(Jóh. II, 1—11.)

Í þann tíma. Þar gjörðist brúðkaup í Cana í Galíleu, og móðir Jesú var þar; en Jesús og hans Lærisveinar vóru og boðnir til

brúdkaupsins. Og er þá praut vín, sagdi Módir Jesú til hans: þeir hafa ecki vín. Jesús svaradi og sagdi til hennar: þú, qvinna! hvad hefi eg med þig? mín stund er enn þá ecki komin. Módir hans sagdi til þjónustumannanna: hvad helzt hann segir ydur, þá gjørid pad. En þar vóru sex stein-kér sett, eptir venju hebreskra manna, til hreinsunar þeim, og tók hvert þeirra tvo edur þrjá mælira. Jesús sagdi til þjónanna: fyllid upp kérin af vatni. Og þeir fylltu þau allt á barma. Jesús sagdi: hellid nú af og færid Kjæmeistaranum. Þeir færdu honum; en þegar Kjæ-meistarinn smackadi vatnid — sem þá var ordid ad víni og vissi ecki hvadan þad kom, en þjónustu-menninnir, sem vatnid sóktu, vissu þad — kalladi hann á Brúdgumann og sagdi: allir meñ géfa í fyrstu hid góda vínid, en

þegar géstirnir taka ölvadir ad gjörast, þá hid léttara; en þú hefir geymt hid góda allt til þessa. Þetta er hid fyrsta kraptaverk, sem Jesús gjördi til Cana í Galílœu; hann opinberadi sína dýrd, og hans Lærisveinar trúdu á hañ.

---

## Á Þridja Sunnudag eptir Þrettánda.

### Collectan.

Heyr, almáttugi Gud! vér bidjum þig: líttú á vorar audmjúkar bænir, og útrétt hægri hönd þinnar maktar oss til hlífdar. Fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist, sem med þér, etc.

### Pistillinn.

(Róm. XII, 17—21.)

Elskulegir Brædur! Verid ecki sérklókir, gjaldid engum íllt fyrir íllt. Leggid

kapp á, ad vera sidsamir vid alla menn. Ef mögulegt er og þad þér megnid, þá hafid frid vid alla menn. Hefnid ydar ecki siálfir, mínir elskanlegir! heldur gésid rúm reidi; því skrifad er: mín er hefndin, eg mun endurgjalda, segir Drottinn. Þar fyrir, ef óvin þinn húngrar, þá géf honum fædu; ef hann þyrstir, þá géf honum ad drecka; því þegar þú gjörir þetta, muntú safna glódum elds yfir hefud honum. Lát ecki þid vonda yfirstíga þig, heldur yfirvinn þad vonda med gódu.

## Gudspjallid.

(Matth. VIII, 1—13.)

Í þañ tíma. Þegar Jesús géck ofan af fjallinu, fylgdi honum margt fólk eptir. Og siá þú! ad líkþrár madur kom, tilbad hañ og sagdi: Herra! ef þú vilt, þá gétur þú hreinsad mig. Jesús rétti út hondina, áhrærdi hann og sagdi: eg vil, vertú hreinn! og jafnsnart vard hans líkþrá hrein. Jesús

sagdi til hans: sjádú til ad þú seg-
ir þad ecki neinum, heldur far þú
og sýn þig Kénnimanninum og
offra þeirri gáfu, sem Móses baud
til vitnisburdar yfir þeim. En er
Jesús géck inn í Capernaum, kom
til hans Hundradshofdíngi nock-
urr, bidjandi hann og sagdi: þjón
minn liggur limafallssjúkur heima
og qvelst púnglega. Jesús sagdi
til hans: Eg vil koma og lækna
hann. Hundradshofdínginn svar-
adi og sagdi: Herra! eg er þess
ecki verdugur, ad þú gángir inn
undir mitt þak, heldur segdú eitt
ord og mun minn þjón heilbrygd-
ur verda: því eg er madur Yfir-
valdinu undirgéfinn, hafandi und-
ir mér strídsfólk, og þegar eg segi
þessum: far! þá fer hann; og odr-
um: kom þú! og hann kémur, og
þræli mínum: gjør þetta! og hañ
gjørir þad. En þegar Jesús heyrdi
þetta, undradist hann og sagdi til

þeirra, er honum eptirfylgdu: sann-
lega segi eg ydur: hvílíka trú hefi
eg ecki fundid í Israel; en eg segi
ydur: ad margir munu koma af
austri og vestri og sitja til bords
med Abraham, Isaak og Jakob í
ríki himnanna, en ríkisins synir
munu verda útreknir í hin ytstu
myrkur, þar sem vera mun óp og
gnýstran tannanna. Og Jesús sagdi
til Hundradshöfdingjans: gack þú
hédan, verdi þér eptir því, sem þú
trúdir! og þjóninn vard heill á
þeirri sömu stundu.

---

## A Fjórda Sunnudag eptir Þrettánda.

### Collectan.

Heyr, Herra Gud! sem allra best veitst í
hvílíkum háska og voda vér erum staddir, Þad

ad vér, fyrir holdsins breiskleika, kunnum ecki ad vera stadfastir án þinnar sérlegrar nádar og hjálpar; því bidjum vér þig um nád og lucku til lífs og sálar, ad hvad helst vér lídum vegna vorra synda, mættum vér þad med þolinmædi lída, og med hjálp þinnar nádar yfirvinna. Fyrir Jesúm Krist, sem med þér, etc.

## Pistillinn.

(Róm. XIII. 8—10).

Elskulegir Brædur! Verid engum skyldugir nema þad, ad þér elskid hverr annañ; því hverr hann elskar annann, sá hefir Logmálid uppfyllt; því þar sem segist: þú skalt ecki hór drýgja; ecki mann vega; ecki stela; ecki ljúgvitni mæla; ecki girnast, og ef þar er nockud annad bodord, þá felst þad í þessum ordum: elska skaltú náúnga þinn eins og sjálfann þig. Elskan gjørir ecki náúnganum íllt; þar fyrir er nú elskan Logmálsins uppfylling.

## Gudspjallid.

(Matth. VIII, 23—27.)

Jesús sté á skip og hans Lærisveinar med honum. Og sjá

þú! ad mikill ókyrrleiki gjordist í sjónum, svo skipid lá undir áföllum, en hañ svaf. Lærisveinarnir voktu hañ og sögdu: Herra! hjálpa þú oss! vér forgaungum. Jesús sagdi til þeirra: hvad hrædist þér, lítiltrúadir! þá reis hañ upp, hastadi á vindiñ og sjóiñ og þar vard logn mikid; en meñirnir undrudust og sögdu: hvílíkur er þessi? því vindur og sjór hlýda honum.

---

## A Fimta Sunnudag eptir Þrettánda.

### Collectan.

Herr, Herra Gud! vér bidjum: vardveit þú þína kristni med þinni nád og miskun, ad líka sem hún ecki hefir nockurn annann uppá ad vona og treysta nema þig, svo lát hana ætíd

fá og ødlast þína hjálp og verndun. Fyrir Þinn eingetinn og elskulegann Son, etc.

## Pistillinn.
(Col. III, 12—17.)

Elskulegir Bræður! Svo íklædist þér nú, eins og Guds útvaldir, heilagir og elskanlegir hjartfólginni miskunsemi, góð-vilja, audmykt, hógværd, þolinmædi. Um-lídid hverr annann, og ef nockurr hefir kløgumál móti ødrum, þá fyrirgéfid það hverr ødrum innbyrdis; eins og Kristur fyrirgaf ydur, svo skulud þér og einnig. En fram yfir allt þetta, þá íklædist kjær-leikanum, hverr ad er band algjørlegleik-ans. Fridur Guds ríki í ydrum hjørt-um, til hvers þér erud kalladir í einum líkhama, og verid þackláttir. Látid Krists ord nóglega byggja medal ydar í allri vitsku. Lærid og áminnid ydur sjálfa med sálmum, lofsaungum og andlegum ljúfleg-um qvædum, og syngid Drotti í ydrum hjørtum. Allt hvad þér gjørid med ord og verk, það gjørid allt í nafni Drottins Jesú, og þackid Gudi og Fødur fyrir hann.

## Gudspjallid.

(Matth. XIII, 24—30.)

Adra eptirlíkíngu lagdi Jesús
fram fyrir þá og sagdi: Himna-
ríki er líkt þeim manni, er sádt
gódu sædi í akur sinn. En þegar
menn sváfu, kom óvinur hans og
sádt íllgresi á medal hveitisins og
géck á burt. En þegar grasid vór
upp og bar ávext, þá auglýstist og
íll-gresid. Þjónustu menninnir
gengu til Húsfedursins og sögdu:
Herra! sádir þú ecki gódu sædi í
akur þinn? hvadan kémur honum
þá íllgresid? Hann svaradi: það
hefir fjandmadurinn gjort. Þjón-
ustumenninnir sögdu þá: vilt þú
ad vér förum og útlesum það?
Hann svaradi: nej! svo þér upp-
rætid ecki hveitid undir eins, þeg-
ar þér útlesid íllgresid. Látid hvert-
tveggja vaxa allt til kornskurdar-
ins, og á kornskérn-tímanum skal

eg segja til kornskurdar mannana: lesid fyrst saman íllgresid og bindid bad saman í bindini, til ad brenna því, en samansafnid hveitinu í mína kornhlodu.

---

## A Sjötta Sunnudag eptir Þrettánda.

### Collectan.

O! miskunsami og eilífi Gud, himneski Fadir! vér bidjum þig: ad þú viljir uppvekja oss, ad vér med allri kostgæfni mættum gánga kristilega í gódum verkum, og ætíd styrkjast fyrir þig og fundnir verda í allri gudrækni. Fyrir þinn etc.

### Pistillinn.

(2 Pet. I, 12—18)

Elskulegir Brædur! Fyrir því vil eg ecki undanfella ad áminna ydur jafnlega

um þetta, þó ad þér vitid það og erud styrkvir í nálægum sannleika. Því eg hygg það réttilegast, svo lengi sem eg er í þessari tjaldbúd, ad uppvekja ydur med áminníngum; því eg veit það, ad eg hlýt snarlega þessa mína tjaldbúd af ad leggja, svo sem vor Drottinn Jesús Kristur hefir mér opinberad. En eg vil kapps um kosta, ad þér — eptir mína útfer — jafnan hefdud slíkt til minnis ad halda; því ecki hofum vér dæmafrédum fráségum eptirfylgt, þá vér gjördum ydur kunnann krapt og híngadkomu vors Drottins Jesú Krists, heldur hofum vér sjálfir séd hans vegsemd, þann tíma hann af Gudi Fødur medtók dýrd og heidur, þar ed þesshàttar raust til hans skédi af mikilli dýrd: þessi er minn elskulegur Sonur, ad hverjum mér vel þócknast. Þessa raust heyrdum vér af himnum koma, þegar vér vórum med honum uppá fjallinu helga.

## Gudspjallid.

(Matth. XVII, 1—9)

Og sex døgum þar eptir tók Jesús med sér Pétur, Jakob

og Jóhannes bródur hans, og hafdi þá uppá hátt fjall, og ummimadadist fyrir þeim. Hans ásjána skein sem sól og klædi hans urdu svo bjort sem ljós. Og sjá! ad þeim birtust þeir Móses og Elías sem toludu vid Jesum. Pétur sagdi til Jesú: Herra! hér er oss gott ad vera! ef þú vilt, þá viljum vér gjora hér þrjár tjaldbúdir, þér eina, Mósi eina og Elíasi eina. En í því hann taladi þetta, umskyggdi þá bjart ský, og rødd úr skýinu sagdi: **Þessi er minn elskulegur Sonur, ad hverjum mér velþócknast; hlýdid þér honum!** En — þegar Lærisveinarnir heyrdu þad, féllu þeir fram á sínar ásjánir og urdu mjeg hræddir. Jesús géck þá til þeirra, tók á þeim og sagdi: standid upp og verid ecki hræddir; en þegar þeir litu upp, sáu þeir engann nema Jesús einann. En þá

er þeir gengu ofan af fjallinu, sagdi Jesús til þeirra: þér skulud engum segja frá þessari sjón, þar til ad Mannsins Sonur er upp aptur risinn frá daudum.

---

## A Fyrsta Sunnudag í Níuviknafóstu.

### Collectan.

Almáttugur, eilífur Gud! vér bidjum: heyr mildilega bænir þíns fólks, ad vér, sem maklega erum, sökum vorra synda, hyrtir, mættum, sakir þíns dýrdarfulla nafns, miskunsamlega frelsast. Fyrir Drottinn vorn, etc.

### Pistillinn.

(1 Cor. IX, 24—27. X, 1—4.)

Kjærir Brædur! Vitid þér ecki ad þeir sem skeidid hlaupa, ad þeir allir hlaupa, en einn er sá sem hnossid tekur?

Hlaupid nú og, svo ad þér høndlid þad; en hverr, sem slæst, hann heldur sig frá øllu. Þeir ad sønnu, uppá þad þeir edlist forgengiléga kórónu, en vér óforgengilega. En eg hleyp ecki svo sem uppá hid óvísa; eg slæ ecki eins og sá, er í vindinn slær, heldur þjái eg líkhama minn og læt hann þræl vera, svo eg prediki þad ecki ødrum, og verdi sjálfur rækur. En eg vil ecki dylja fyrir ydur, gódir Brædur! ad vorir forfedur vóru allir undir skýinu, allir gengu þeir yfir hafid og allir vóru þeir skírdir af Móse í skýinu og í sjónum. Allir hafa þeir neytt hinnar sømu andlegrar fædu, og allir hafa þeir hinn sama andlega dryck druckid; þeir drucku og af þeirri andlegu hellu, sem þeim medfylgdi, hver hella ad var Kristur. En Gud hafdi ecki á flestum af þeim velþóknun; því eru þeir nidursl egnir í eydimørkinni.

## Gudspjallid.

(Matth. XX, 1—16.)

Jesús sagdi til sinna Lærisveina þessa eptirlíkingu: Himmaríki er

líkt þeim Húsfödur, sem útgéck snemma morguns ad leigja verkamenn í víngard sinn. Ad gjördum samníngi vid verkamennina, ad daglegu penings gjaldi, sendi hann þá í víngardinn. Nærri þridju stundu géck hann út, og leit adra standa ydjulausa á torginu; hann sagdi til þeirra: farid þér einnig í víngardinn, og hvad réttvíst er, mun eg géfa ydur. En þeir gengu á burt þángad. Hañ géck aptur út um sjöttu og níundu stundu og gjördi slíkt hid sama. Nærri elleftu stundu géck hann út, og fann enn adra standa ydjulausa. Hann sagdi til þeirra: hvers vegna standid þér hér allañ daginn ydjulausir? Þeir svörudu: af því enginn hefir leigt oss. Hann sagdi til þeirra: farid þér í víngard minn og hvad réttvíst er, skulud þér fá. Þegar qvöld var komid, sagdi víngards Herr-

ann vid rádsmann sinn: kalla þú verkmennina og gjaldtú þeim verkkaupid, tak til frá þeim seinustu til enna fyrstu. Þá komu þeir, sem nærri elleftu stundu leigdir vóru, og hverr þeirra medtók sinn pening. En hinir, sem fyrstir komu, hugsudu ad þeir mundu fá meira; en hverr þeirra medtók sinn pening. Þegar þeir höfdu medtekid hann, mögludu þeir gégn Húsfödurnum og sögdu: þessir enu seinustu hafa eina stund erfidad, og þú gjordir þá jafna vid oss, sem borid höfum hita og þúnga dagsins. Hann svaradi og sagdi til eins þeirra: vinur! eckí gjori eg þér órétt; ertú ecki ásáttur ordinn vid mig um einn pening? taktú hvad þitt er og far á burt; en þessum seinustu vil eg géfa eins og þér; eda, leyfist mér ecki ad gjora af mínu hvad eg vil? ellegar, ertú þar fyrir rángeygdur

ad eg er gódgjarn? svo verda seinastir hinir fyrstu, og fyrstir hinir seinustu; því margir eru kalladir, en fáir útvaldir.

# A Annann Sunnudag í Níuviknafostu.

## Collectan.

Heyr, Herra Gud! þú, sem sier, ad vér ecki höfum traust á nockrum ødrum verkum, mætti edur megni. Veit þú oss miskunsamlega, ad vér mættum verndadir verda frá øllum mótstædilegum hlutum, andlegum og líkhamlegum, fyrir þína nádarsamlega hlífd, eins og þú hlífdir Páli Postula, Kénnifødur heidinna þjóda. Fyrir þinn eingétinn og elskulegann Son, etc.

# Pistillinn.

(2 Cor. XII, 2—9)

Eg þecki mann í Kristi fyrir fjórtán árum— var hann í líkhamanum, það veit eg ecki, eda var hann fyrir utan líkhama, veit eg og ecki, Gud veit það— sá sami var ryecktur allt upp í þridja himin, og eg þecki gleggt þann mann — hvert hann var í líkhama, edur utan líkhama, veit eg ecki, Gud veit það. — Hann vard uppryecktur í Paradís og heyrdi óumrædileg ord þau, sem enginn madur fær talad. Af þessu vil eg mér hrósa, en af sjálfum mér vil eg mér ecki hrósa, nema af mínum breiskleika. En þó eg vildi hrósa mér, gjørda eg það ecki fíblslega, því eg vil segja sannleikann. En eg sporna vid því þar fyrir, svo ad enginn haldi mig ædra enn svo sem hann á mér sjer eda af mér heyrir. Og svo ad eg stæri mig ecki af mikilleika þessara opinberínga, er mér géfinn fleinn í holdid, Andskotans engill, hverr ad mig med knefum slái, uppá það eg stæri mig ecki. Um það hefi eg Drottinn þrísvar bedid, ad hann viki burt frá mér. En hann sagdi til mín: lát þér nægjast

mína náð, því minn kraptur er í breiskum máttugur. Fyrir því vil eg sem fegnastur hrósa mér af mínum breiskleika, svo að kraptur Krists byggi medur mér.

## Gudspjallid.

(Lúk. VIII, 4—15.)

Í þann tíma. Þá er margt fólk var samankomid, og þad flycktist til Jesú úr Stödunum, sagdi hañ í eptirlíkingu: Sá géck út, er sádi, til ad sá sædi sínu; en þegar hann sádi, féll sumt utan hjá veginum, vard fótum trodid og fuglar loptsins átu þad. Sumt féll á hellu, en þegar þad spratt upp, visnadi þad, af því þad hafdi ecki vökvann. Sumt féll á medal þyrna, en þyrnirnñ spratt upp med og kjæfdi þad nidur. Sumt féll í góda jörd, þad vóx upp og bar hundradfaldañ ávöxt. Þegar Jesús hafdi þetta

sagt, kalladi hann: hverr eyru hefir ad heyra, heyri hañ! Hans Lærisveinar spurdu hann ad: hver væri þessi eptirlíking? Jesús svaradi: ydur er unnt ad vita leyndardóma Guds ríkis, en þeim ødrum í eptirlíkingum, svo sjáandi sjái þeir ecki, og áheyrandi skilji þeir þad ecki; en þessi er eptirlíkingin: Sædid er Guds ord; en hinir vid veginn eru þeir, sem heyra þad, en eptir þad kémur hinn vondi og tekur ordid burtu úr þeirra hjörtum, svo þeir skuli ecki trúa og verda hólpnir. Þad, sem á helluna féll, eru þeir, sem medtaka ordid med føgnudi, þegar þeir heyra þad, en hafa enga rót, hverjir um stundarsakir trúa, en falla þar frá á freistíngar tímanum. Þad, sem féll á millum þyrnanna, eru þeir, sem þad heyra og velkjast í sorgum, audæfum og girndum þessara lífdaga, kjefjast og færa engann ávøxt.

Það, sem í góða jörð féll, eru þeir, sem heyra orðið og geyma það í góðu og siðsömu hjarta, og færa ávöxt með þolinmæði.

---

# Á Sunnudaginn í Föstu-inngáng.

## Collectan.

Drottinn Guð! vér biðjum: heyr þú miskunsamlega vorar bænir, og þegar þú hefir leyst oss af vorum synda-böndum, þá varðveittu oss frá öllum mótstæðilegum hlutum. Fyrir vorn Drottinn, etc.

## Pistillinn.

(1 Pét. III, 18—22.)

Því Kristur hefir og einusinni fyrir syndirnar liðið, réttlátur fyrir rángláta, uppá það hann færði oss Guði; hann, sem var að sönnu deyddur eptir holdinu, en lífgað-

ur eptir Andanum; í hverjum hann er og burtfarinn og predikadi fyrir endunum í fángelsinu, sem fordum ecki trúdu, þegar Guds þolgædi eitt sinn eptirbeid á dögum Nóa, þegar örkin var tilbúin, í hverri fáir, þad er: átta sálir frelsudust fyrir vatnid, hverju skírnin svarar, sem gjörir oss nú sáluhólpna, hverr ecki er afleggíng holdsins saurugleika, heldur sáttmáli gódrar samvitsku vid Gud, fyrir upprisu Jesú Krists, hverr ad er til hægri handar Gudi — eptir þad hann er — uppstíginn til himins, svo ad Englarnir og maktarvöldin og kraptarnir eru honum undirgéfnir.

## Gudspjallid.

(Matth. III, 13—17)

Í þann tíma. Jesús kom frá Galíleu ad Jórdan til Jóhannesar, til ad skírast af honum; en Jóhannes varnadi honum þess og sagdi: mér er þorf ad eg skírist af þér, og þú kémur til mín. Jesús svaradi: láttú nú svo vera; því svo ber oss allt réttlæti upp ad.

fylla. Jóhannes lét þad þá eptir honum. En þegar Jesús var skírdur og hann steig upp úr vatninu, þá lukust himnarnir upp yfir honum, en Jóhannes sá Guds Anda ofanstiga í dúfu líkíngu og yfir hañ koma, og rødd af himni sagdi: þessi er Sonur minn elskulegur, á hverjum eg hefi velþóknun!

---

# A Fyrsta Sunnudag í Føstu.

## Collectan.

Heyr, Herra Gud! vér bidjum: líttú miskunsamlega yfir þitt fólk, og snú frá oss mildilega þinni reidi. Fyrir þinn eingétinn og elskulegann Son, etc.

Pist.

# Pistillinn.

(2 Cor. VI, 1—10)

Elskulegir Brædur! en vér áminnum ydur svo sem Medhjálparar, ad þér hafid ecki medtekid Guds nád til ónýtis; því hann segir: í þægann tíma bænheyrda eg þig, og á degi hjálprædisins hjálpadi eg þér. Sjáid! nú er sá þægilegi tími, nú er dagur hjálprædisins. Látum oss engum hneixlun í nockru géfa, uppá þad ad embættid verdi ecki lastad; heldur audsýnum oss sjálfa í öllum hlutum eins og Guds þénara: í mikilli þolinmædi, í harmqvælum, í naudum, í þreyngíngum, í húdstrokum, í myrkvastofum, í upphlaupum, í ervidi, í vøkum, í føstum, í hreinlífi, í vísdómi, í bidlundar-gédi, í gódvild, í helgum Anda, í falslausum kjærleika, í sannleiksins ordi, í Guds krapti, fyrir herklædi réttlætisins til hægri og vinstri handar; fyrir vegsemd og vansemd; fyrir lastog lof-yrdi; svo sem falsarar og þó sannordir; svo sem ókunnugir og þó kunnugir; líka svo sem þeir ed deya, og sjáid þad, vér lifum: svo sem hegndir, en ecki lífslátnir; svo sem syrgendur, en þó jafnan

gladir; svo sem voladir, en þó marga aud-
úga gjörandi; líka sem þeir ed eckert hafa
og hafa þó alla hluti.

## Gudspjallid.

(Matth. IV, 1—11.)

Jesús var leiddur af Anda á eydi-
mörku, svo hann yrdi freistadur
af Djöflinum. Þegar Jesús hafdi
fastad fjörutíu daga og fjörutíu
nátta, húngardi hann. Freistarinn
géck þá til hans og sagdi; ef ad þú
ert Guds Sonur, þá bjód þú ad
steinar þessir verdi ad braudum.
Jesús svaradi: skrifad er: madur-
inn lifir ecki af einusaman braudi,
heldur af sérhverju því ordi, sem
framgengur af Guds muñi. Þá
tók Djöfullinn hann med sér í þá
heilögu borg, setti hañ uppá must-
eris bustina og sagdi til hans: ef
þú ert Guds Sonur, þá fleyg þér
hér ofanaf; því skrifad er: ad Gud

muni bjóða Englum sínum, að þeir beri þig á höndum, svo þú steytir ecki fót þinn við steini. Jesús svaraði: enn aptur er skrifað: ecki skaltú freista Drottins Guðs þíns. Djöfullinn flutti hann þá með sér uppá ofurhátt fjall, og sýndi honum öll ríki veraldar og þeirra dýrð og sagði: allt þetta mun eg gefa þér, ef þú fellur fram og tilbiður mig. Jesús svaraði: far á burt frá mér, Andskoti! því skrifað er: Drottinn Gud þinn skaltú tilbiðja og honum einum þjóna. Þá yfirgaf Djöfullinn hann, en Englar af himnum komu til Jesú og þjónuðu honum.

---

## Á Annan Sunnudag í Föstu.

## Collectan.

Heyr, Herra Gud! sem sier, ad vér erum vanmegna til alls góds; vér bidjum: vardveit þú oss hid ytra í öllum mótgángi, en hreinsa oss hid innra af vorum syndum og vondum hugrenningum. Fyrir Þinn, etc.

## Pistillinn.

(1 Tessal. IV, 1 — 7.)

Elskulegir Brædur! Vér bidjum ydur og áminnum í Drottni Jesú Kristi: þared þér hafid medtekid af oss hvernig þér skulud gánga og Gudi þóknast, svo ad þér æ meir og fullkomnari verdid; því þér vitid hver bodord vér hefum géfid ydur, fyrir Drottinn Jesúm; því vilji Guds er ydar helgan; ad þér haldid ydur frá fridlulífi og hverr og einn ydar viti ad eiga sitt kér í helgun heidri, en ecki í girndarbruna, eins og heidíngjar, sem ecki þeckja Gud. Enginn nidurþrycki eda svíki sinn bródur í nockri höndlun; því Drottinn er sá, sem hefnir alls þessa, eins og vér höfum ádur sagt og ydur vottad; því Gud

hefir

hefir ecki kallad oss til óhreinlifa, heldur til helgunar.

## Gudspiallid.

(Matth. XV, 21—28.)

Jesús géck burt frá Genezareth og fór í landsbygdir Týrusar og Sídónis. En svo bar vid ad kanversk kona géck út af þeim sömu takmörkum, kalladi eptir honum og sagdi: Herra! Sonur Davíds, miskunna þú mér! dóttir mín qvelst illa af Djöflinum. Jesús ansadi henni engu ordi. Lærisveinarnir bádu hann og sögdu: láttú hana fara, fyrst hún kallar eptir oss. Jesús svaradi: eg er ecki sendur nema til fortapadra sauda af húsi Israels. En konan kom, tilbad hann og sagdi: Herra! hjálpa þú mér! Jesús svaradi: þad er eckí gott ad taka braudid barnañna og kasta því fyrir hundana. Konan

sagdi: satt er þad, Herra! en þó eta hundarnir af molum þeim, er detta af bordi drottna þeirra. Þá svaradi Jesús: o kona! mikil er þín trú! verdi þér eins og þú vilt. Á þeirri somu stundu vard dóttir hennar heilbrygd.

---

# Á Þridja Sunnudag í Føstu.

## Collectan.

Herr, almáttugi Gud! vér bidjum: lít þú á vorar audmjúkar bænir, og útrétt hønd þinnar maktar oss til hlífdar. Fyrir Drottin vorn etc.

## Pistillinn.

(Eph. V. 1—9).

Elskulegir Brædur! Svo verid nú Guds eptirfylgjarar, eins og elskuleg børn

og gángid í ástseminni, eins og Kristur hefir oss elskad og sig siálfann útgéfid fyrir oss, fórnfæríng og offur Gudi til sætleiks ilms. En fridlulisi og allur óhreinleiki edur ágirnd nefnist ecki medal ydar, svo sem heilegum hæfir. Ecki heldur ótjerleg ord og fiblslegt hjal eda késkni, hvad ydur heyrir ecki, heldur miklu framar Þackargjørd. Því Þad vitid Þér: ad enginn fridlulísksmadur eda óhreinn eda ágjarn — hverr ad er skurdgoda-dýrkari — hefir arftöku í Guds og Krists ríki. Látid engann villa ydur med ónytsamlegum fortolum; Því fyrir Þad kemur reidi Guds yfir børn vantrúinnar. Af Því verid ecki Þeirra hlut-takendur, Því Þér vorud fordum myrkur, en nú erud Þér ljós í Drottni, gángid Því eins og ljóssins børn — Því ávextur Andans er allshátttud gódgirni, réttlæti og sannleikur. —

## Gudspjallid.

(Lúk. XI, 14—28.)

Jesús rak Djøful út frá Þeim, er mállaus var, og Þá er Djøfullinn

var útfariñ, taladi hinn mállausi, en fólkid furdadi þad. Noekrir sogdu: fyrir Belzebúb Djoflahofdíngja rekur hann Djofla út. Adrir freistudu Jesú og leitudu eptir teikni af himni. Þegar Jesús sá þeirra hugrenníngar, sagdi hann vid þá: hvert þad ríki, sem í sjálfu sér er sundurþyckt, mun eydast og hvert hús yfir annad hrapa; sé Andskotinn í sjálfum sér sundurþyckur, hvernig fær hans ríki þá stadist, fyrst þér segid mig fyrir Belzebúb útreka Djoflana? en ef eg útrek þá fyrir hann, fyri hvern útreka þá ydrir synir? þar fyrir skulu þeir og verda ydar dómendur; en ef eg rek út Djoflana med Guds fíngri, þá er Guds ríki sañarlega til ydar komid. Þegar hinn sterki hervopnadi vardveitir sitt andyri, þá er allt í kyrrdum, sem hann á; en þegar annar yfirsterkari kémur og yfirvinnur, flettir

þessi hinn öllum hertögjum, sem hann treystl á og sundurskiptir svo herfánginu. Hverr, sem ecki er með mér, hann er á móti mér, og hverr, sem ecki samansafnar með mér, sá sundurdreifir. Þegar óhreinn andi fer út af manninum, ráfar hann um þurra stadi, leitar ad hvíld, en finnur ecki; þá segir hann: eg vil hverfa aptur í hús mitt, hvadan eg fór út; en þegar hann kémur, finnur hann þad sópad og prýdt. Þá fer hañ og tekur med sér sjö anda honum verri, og þegar þeir eru innkomnir, byggja þeir þar, verdur svo þess mañs hid sídara verra hinu fyrra. En þegar Jesús hafdi talad þetta, hóf kona nockur af fólkinu upp raustu sína og sagdi: sæll er sá qvidur, sem þig bar og þau brjóst, er þú mylktir! Jesús svaradi: já, ad vísu! en sælir eru og þeir, sem heyra Guds ord og vardveita þad!

# A Fjórda Sunnudag í Føstu.

## Collectan.

Heyr, almáttugi Gud! vér bidjum: veit þú oss ad vér, sem sølum vorra vondra verka maklega erum straffadir, mættum einnig aptur ad nýu, fyrir hjálp og fulltíngi þinnar nádar, verda huggadir. Fyrir þinn eingétinn, etc.

## Pistillinn.

(Gal. IV. 21—31.)

Elskulegir Brædur! Segid mér þér, sem undir Løgmálinu viljid vera: hafid þér ecki heyrt Løgmálid? Því skrifad er: þad Abraham hafdi tvo sonu, einn af Ambáttinni og annann af þeirri, sem var frjáls. En sá, sem af Ambáttinni var, er fæddur eptir holdinu. En hann af þeirri frjálsu, er fyrir fyrirheitid fæddur, hvad ed hefir, annarlega meiníngu; því

þessi eru þau tvø Testamenta, eitt af fiall-
inu Sína, það er til þrælkunar fædir, hvert
að er Agar. Því að Agar er fiallið Sína
í Arabíu, en andsvarar Jerúsalem þeirri,
sem nú er, hver að er í þrælkun með sín-
um børnum. En sú Jerúsalem, sem þar
fyrir ofan er, er sú hin frjálsa, hver að
er móðir vor allra. Því skrifað er: vertú
glöð, þú óbyrja! þú sem ecki fædir, brjótst
fram og kalla þú, sem ecki ert jóðsjúk, því
hin einsamla hefir miklu fleiri børn en sú,
sem manninn hefir. En vér, kjærir Bræð-
ur! erum fyrirheitisins børn, eins og Isaak.
Og líka sem í þann tíma að sá, sem eptir
holdinu var fæddur offsókti þann, sem eptir
Andanum var fæddur, svo skéður það nú
einnig. En — hvað segir Ritníngin? rek
burt Ambáttina og son hennar, því Am-
báttar sonurinn skal ecki erfa með syni hinn-
ar, sem frjáls er Svo erum vér nú, kjær-
ir Bræður! ecki Ambáttarinnar børn, held-
ur frjálsrar qvinnu.

## Guðspjallið.

(Jóh VI, 1—15.)

Jesús fór yfir um sjáfar-hafið í
Galíleu, sem liggur við Stað-

inn Tiberías, fylgdi honum þá mikill mannfjøldi eptir; þvi þeir sáu þau kraptaverk, sem hañ gjørdi á þeim, er sjúkir vóru. Jesús géck uppá fjall nockurt og settist þar nidur med sínum Lærisveinum; en þá var Páska-hátíd Gydínga nálæg. Jesús leit upp og sá, ad mikill mannfjøldi kom til hans. Hann sagdi þá vid Philippus Lærisvein sinn: hvar kaupum vér braud svo þessir neyti? — en þetta sagdi hañ til ad freista Lærisveinsins, þvi Jesús vissi sjálfur hvad hann vildi gjøra — Philippus svaradi honum: braud fyrir tvohundrud penínga nægir þeim eckí, svo hverr einn fái nockud lítid. Einn af Lærisveinunum, sem hét Andrés, bródir Símónar Péturs, sagdi honum: úngmenni eitt er hér, sem hefir fim byggbraud og tvo fiska; en — hvad skal þetta á medal svo margra? Jesús sagdi:

látid menninа setjast nidur ad borda. Í þeim stad var gras mikid; settust þar nidur ad borda karlmenn ad tølu nær fim̄ þúsundir. Jesús tók braudin, þegar han̄ hafdi þackir gjørt, fèck þau sínum Lærisveinum, en þeir fengu þeim, er til bords høfdu settst, líka af fiskunum svo mikid, sem hverr vildi hafa. En þegar þeir vóru mettir, sagdi Jesús til Lærisveina sinna: safnid saman þeim leifum, sem af gengu, svo ad eckert spillist. Þeir gjørdu svo og fylltu upp tolf karfir med þessar leifar, af þeim fim̄ byggbraudum, hverjar vóru auk þess, sem þeir høfdu neytt. En þegar þessir menn sáu þetta teikn, sem Jesús gjørdi, søgdu þeir: þessi er sannarlega sá Spámadur, sem í heiminn skal koma. En þegar Jesús formerkti, ad þeir mundu koma og handtaka hann til ad gjøra hann ad Konúngi,

veik hann einsamall burt upp aptur á fjallid.

## A Maríu Bodunardag.

### Collectan.

O Drottinn! vér bidjum: innhell þú þinni nád í vor hjörtu, svo ad vér, sem medkénnumst gétnad Jesú Krists þíns Sonar, fyrir Engilsins bodun, mættum fyrir hans pínu og krossins qvøl, komast til dýrdarinnar upprisu. Fyrir þinn eingétinn og elskulegann Son, etc.

### Pistillinn.

(Esaj. VII, 10—15.)

Á þeim døgum taladi Drottinn enn framar til Achas og sagdi: bid þér eins teikns af Drottni Gudi þínum, hvert heldur þad er nidri í undirdjúpunum edur á hædum uppi. Achas sagdi: ecki skal eg þess bidja, og ecki skal eg freista Drott-

ins. Þá sagdi hann: heyrid nú þér af húsi Davíds: hvert er ydur þad oflítid, ad þér gjørid mønnunum þvíngun, þad þér viljid og einnig mæda minn Gud? fyrir þá skuld mun Drottinn sjálfur géfa ydur eitt teikn. Sjá þú! Jómfrú mun ólétt verda og Son fæda, hann mun hún kalla Immanuel. Smjørs og hunángs mun hann neyta, svo hann kunni ad hafna því vonda, en útvelja hid góda.

## Gudspjallid.

(Lúk. I, 26—37.)

Á hinum sjøtta mánudi sendi Gud Engilinn Gabriel í borg þá í Galilæu, sem nefndist Nazareth, til þeirrar meyar, sem føstnud var þeim manni, er Jóseph hét, af húsi Davíds, og heiti meyarinnar var María. Engillinn géck inn til hennar og sagdi: heil sértú, nádarfulla! Drottinn er med þér! blessud ertú á medal qvenna! En þegar hún sá Engilinn, vard hún hrædd af

hans ordum, og hugleiddi hvillt værí þesßi qvedja. Engillinn sagdi: óttast þú ecki, María! þvi þú fanst náð hjá Gudi. Sjá! þú munt barn géta í qvidi þínum, og Son fæda, og hans nafn skaltú nefna Jesús; hann mun mikill verda, og kallast Sonurr ens Hærsta. Drottinn Gud mun og géfa honum sæti Davíds Fodurs hans, og hann mun ríkja yfir Jakobs húsi ad eilífu; endir hans ríkis mun heldur enginn verda. María svaradi: hvernig má þetta ské, fyrst eg hefi engann mann kénnt? Engillinn svaradi: heilagur Andi mun koma yfir þig, og kraptur hins Hærsta mun yfirskyggja þig, þvi hid heilaga, sem af þér mun fædast, skal nefnast Sonur Guds. Og sjá þú! ad Elizabeth frændkona þín hefir og son gétid í elli sinni, og þesßi er sjötti mánudur hennar, sem kollud var óbyrja; þvi fyrir Gudi er eckert ord ó-

máttugt. María sagdi: sjá! eg er Drottins þjónustu-qvinna, verdi mér eptir ordi þínu! en Engillinn veik á burt frá henni.

## A Pálma Sunnudag.

### Collectan.

Heyr þú almáttugi, eilífi Gud! þú, sem hefir látid þinn Son taka manndóm og audmýkja sig allt ad krossins dauda, oss til audmýktar dæmis eptir ad fylgja. Vyrdstú ad auka og margfalda þínar gáfur med oss, svo ad vér, sem treystum uppá hans pínu og dauda, mættum einnig hans upprisu hlut-takarar verda. Fyrir þann sama þinn eingetinn og elskulegan Son, etc.

Pist-

## Pistillinn.

(Philipp. II, 5—11.)

Elskulegir Brædur! Hverr og einn sé svo sinnadur, sem Jesús Kristur var, hverr, þó hann væri Guds mind, héldt hann þad þó ecki fyrir rán, Gudi líkur ad vera, heldur mínkadi hann sjálfann sig, tók á sig þjóns mind, vard líkur ødrum mennum og ad hegdun fundinn, sem madur. Lítillækkadi sjálfann sig og vard hlýdinn allt til daudans, já! allt til dauda á krossi. Þess vegna hefir Gud upphafid hann og géfid honum nafn þad, sem yfir øllum nefnum er, svo ad í nafni Jesú skulu øll kné sig beygja, sem á himnum og á jordu og undir jordunni eru, og allar túngur skulu vidurkénna: ad Jesús Kristur sé Drottinn, til dýrdar Guds Fødurs.

## Gudspjallid.

(Matth. XXI, 1—9.)

(stendur á fyrsta Sunnudag í Adventu, sjá bls. 4.)

# A Skírdag.

## Collectan.

Heyr, Herra Jesú Kristi! þú, sem hefir látid eptir hjá oss þitt braud ad eta og þinn kaleik ad drecka í minníngu þinnar pínu. Vér bidjum þig: ad þú vildir afþvo allann óhreinleika af vorn hjarta, en géfa oss þína nád, ad vér mættum medtaka verduglega þetta Sakrament þíns sannarlega líkhama og blóds, þú, sem lifir og ríkir med Gudi Fodur og þeim heilaga Anda, etc.

## Pistillinn.

(1 Cor. XI, 23—29.)

Gódir Brædur! Því eg medtók þad af Drottni, sem eg hefi ydur géfid, af því Drottinn Jesús, á þeirri nátt, er hann var svikinn, tók braudid, gjordi þackir, braut þad og sagdi: takid og etid, þetta er minn Líkhami, sá fyrir ydur verdur brot-

inn; gjörid þad í mína minníngu. Sömuleidis og einnig kaleikinn, eptir þad hann hafdi qvöldmáltídina etid, segjandi: þessi kaleikur er nýtt Testament í mínu blódi; gjörid þetta, svo opt, sem þér drekkid þar af, í mína minníngu; því svo opt sem þér etid af þessu braudi og drekkid af þessum kaleik skulud þér kunngjöra dauda Drottins þángad til hann kémur. Hverr hann etur nú af þessu braudi og drekkur af þessum kaleik Drottins óverdugur, hann er sekur vid hold og blód Drottins. Hverr madur prófi sig því sjálfur og eti svo af þessu braudi og drekki af þessum kaleik; því hverr, sem etur og drekkur óverdugur, hann etur og drekkur sjálfum sér dóm, gjörandi ekki greinarmun á Drottins líkhama.

## Gudspjallid.

(Lúk. XXII, 14—20.)

Þegar stundin kom, settist Jesús til bords og hans tólf Lærisveinar med honum. Hañ sagdi til þeirra: mig hefir af hjarta eptirlángad ad

eta þetta Páskalamb med ydur ádur enn eg líd; því eg segi ydur: ad hér eptir mun eg ecki optar af því neyta, uns þad fullkomnast í Guds ríki. Hann tók kaleikinn, gjordi þackir og sagdi: medtakid hann og skiptid honum á milli ydar; því eg segi ydur: eg mun ecki drecka af vínvidar ávexti, þar til Guds ríki kémur. Hann tók braudid, gjordi þackir, braut þad, gaf þeim og sagdi, þetta er minn líkhami, sem fyrir ydur verdur géfinn; gjörid þetta í mína minníngu. Hann tók einig kaleikinn, eptir qvøldmáltídina og sagdi: þessi kaleikur er nýtt Testament í mínu blódi, hvert fyrir ydur úthellist.

---

## A Lánga Frjádag.

Lesist Píslar-Sagan í stad Gudspjalls, sem sídar sjest í þessari Handbók.

# A Páskadaginn.

## Collectan.

Almáttugi, eilífi Gud! sem oss hefir opnad og upplátid inngáng til ens eilífa lífs, fyrir dýrdarsulla upprisu þíns eingétins Sonar Jesú Krists. Vér bidjum: ad vor vilji og sú girnd til ens góda, sem þú sjálfur miskunsamlega hefir med oss uppbyrjad, mætti fá framgáng og aukast í ollum hlutum, eptir því, sem þér vel þócknast. Fyrir þann sama, etc.

## Pistillinn.

(1 Cor. V. 7—8.)

Kjærir Brædur! Fyrir því hreinsid í burt hid gamla súrdeigid, svo ad þér séud nýtt deig, eins og þér erud ósýrdir; því vort Páskalamb er Kristur fyrir oss offradur. Fyrir því høldum Hátídina, ecki í gomlu súrdeigi, ecki heldur í súrdeigi vondskunnar og illskunnar, heldur í sætu deigi, skírleikfins og sannleiksins.

## Gudspjallid.

(Mark. XVI, 1—7.)

Þegar þvottdagurinn var umlidinn, keyptu þær María Magdalena, María Jakobs og Salóme dýrmæt smyrsli, ad þær kjæmu og smyrdu Jesúm. Snemma morguns einn þvottdaganna komu þær til grafarinnar um sólar uppruna. Þær sögdu sín á milli: hverr mun velta fyrir ockur steininum af grafar-muñanum? en þegar þær litu þángad, sáu þær ad steininn var afveltur, hverr þó var nærsta mikill. Þær gengu ad grofinni og sáu úngmenni sitja til hægri hlidar, skrýddann hvítu, sídu klædi, vid hvad þær urdu óttasleguar. Ungmennid sagdi vid þær: ecki skulud þid hrædast! þid leitid ad hinum krossfesta Jesú af Nazareth; hañ er upprisinn, en er ecki hér; sjáid þann stad, hvar hann var lagdur.

Farid þid á burt, og segid hans Lærisveinum einkum Pétri: ad hañ muni gánga fyrir þeim í Galíleu; þar munu þeir sjá hann eins og hañ fyrri sagdi þeim.

---

## Á annann Páskadag.

### Collectan.

Heyr, Herra Gud! sem á Páska-hátídinni hefir géfid heiminum andlega lækningu. Vér bidjum: lát þína himnesku gáfu fullgjorast med oss, svo vér mættum fá fullkomlegt frelsi og betra oss til eilífs lífs. Fyrir þañ sama, etc.

### Pistillinn.

(Post. Gb. X, 34—48.)

Í þann tíma. Lauk Pétur upp sinn munn og sagdi: nú reyni eg í sannleika, ad ecki er manngreinar munur hjá Gudi, heldur hverr hann óttast á medal alls fólks

og gjörir réttvísina, sá er honum þeckur, hvað hann kunngjört hefir sonum Israels, bedandi þeim frid fyrir Jesúm Krist — hverr að er Drottinn allra. — Þér vitið hvað skéð er í öllu Gydíngalandi og fyrst hófst upp í Galíleu, eptir þá skírn, sem Jóhannes predikadi, þad Gud hefdi smurt Jesús af Nazareth með heilögum Anda og krapti; hverr eð um kríng geck og gjördi gott og grædði alla þá, sem af Djöflinum vóru undirþryckti, því Gud var með honum. Og vér erum vottar alls þess, sem hann gjördi á Gydíngalandi og í Jerúsalem, hvern þeir aflífudu og hengdu uppá tréd. Þann sama uppvakti Gud á þridja degi og lét hann opinberann verda, ecki öllu fólki, heldur oss, sem áður vorum hans útvaldir vottar af Gudi, vér, sem átum og druckum med honum, eptir þad hann var upprisinn frá þeim daudu.

## Gudspjallid.

(Lúk. XXIV, 13—35.)

Tveir af Jesú Lærisveinum gengu á hans upprísu dag til kauptúns

nockurs, sem var frá Jerúsalem sextíu skeida-rúm og hét Emaus. Þeir vóru ad tala um þad sín á milli, sem vid hafdi borid. En þad skédi svo, þegar þeir þañiñ rædduzt vid og spurduzt á, ad Jesús sjálfur nálægdist þá og géck jafnframt þeim; en þeir þecktu hann ecki. Hann sagdi vid þá: hvad er þad fyrir rædu, sem þid reykandi høndlid um yckar á milli og erud hriggvir af? Þá svaradi annar þeirra, ad nafni Kleóphas: ert þú svo ókunnugur í Jerúsalem, ad þú veitst ecki hvad á þessum døgum þar inni gjørst hefir? Jesús spurdi: hvad er þad? Kleóphas svaradi: þad, ad Jesús af Nazareth, hverr ed var Spádóms-madur, máttugur í verkum og ordum fyrir Gudi og ollu fólki, var af vorum Høfud-prestum og Høfdíngjum seldur í fyrirdæmíngu daudans og krossfestur; en vér vonudum ad hann mundi endur-

leysa Israel; er nú sá þridjí dagur í dag sídan þetta skédi. Nockrar qvinnur hafa og skélst ockur, sem árla høfdu hjá grøfinni verid, en fundu ecki hans líkhama, komu og qvádust sjed hafa Engil, sem sagdi hann lifa. Nockrir af ockur gengu til grafariñar, og fundu eins og konurnar høfdu sagt, en Jesúm sáu þeir ecki. Jesús svaradi: o! þér heimskir og tregir í hjarta ad trúa því, sem Spámennirnir hafa talad! hlaut Kristur ecki þetta ad lída og inngánga svo í sína dýrd? Hann tók til frá Mósés og øllum Spámønnum og lagdi út fyrir þeim allar þær Ritníngar, sem af honum vóru. En þegar þeir tóku ad nálægjast kaup-túnid, sem þeir gengu til, ljetst Jesús vilja lengra gánga. Þeir neyddu hann og søgdu: vertu hjá ockur, Herra! þvíad qvølda tekur og á daginn lídur. Hann géck inn, og var hjá

þeim. En svo skédi, þegar hann settist med þeim til bords, ad hann tók braudid, blessadi þad og braut og rétti ad þeim, þá opnudust þeirra augu svo þeir þecktu hann, en hann hvarf frá þeim. Þeir sögdu þá sín á milli: brann ecki ockar hjarta í ockur, þegar hann taladi vid ockur á veginum og útlagdi fyrir ockur Ritníngarnar? Þeir stódu upp á sömu stundu og snéru aptur til Jerúsalem, hvar þeir fundu þá ellefu samansafnada og þá, sem med þeim vóru, hverjir ed sögdu: Jesús er sannarlega upprisinn og hefir byrtst Símóni. En hinir sögdu frá hvad gjörst hefdi á veginum, og ad þeir hefdu þeckt hann, í því hann braut braudid.



A. Fyrsta

# A Fyrsta Sunnudag eptir Páska.

## Collectan.

Almáttugi, eilífi Gud! vér bidjum: veit þú oss, ad vér, sem haldid höfum þessa Páska-hátíd, mættum fyrir þína náð komast frá syndarinnar þrældómi til þess andlega frelsis, og med réttri trú og kristilegum kjærleika þjóna Jesú Kristi þínum elskulega Syni, vorum Herra, sem med þér, etc.

## Pistillinn.

(1 Jóh. V. 4—9.)

Kjærir Brædur! Allt hvad af Gudi er fædt, þad yfirvinnur heiminn, og vor trú er yfirvinníngin, hver veroldina hefir yfirunnid; en hverr er hann, sem veroldina yfirvinnur nema einúngis sá, er trúir ad Jesús sé Guds Sonur? Þessi er hann, sem kémur fyrir vatn og blód, Jesús Kristur; ecki í vatni einúngis, heldur í vatni og blódi,

Andinn er sá, sem vitni ber ad Andinn sé sannleikur; því þrír eru, sem vitnisburdinn géfa á himni: Fadirinn, Ordid og heilagur Andi, og þessir þrír eru eitt. Þrír eru og, sem vitnisburdinn géfa á jördu: Andinn, vatnid og blódid, og þessir þrír eru eitt. Ef vér medtokum mannanna vitnisburd, þá er Guds vitnisburdur meiri; því Guds vitnisburdur er sá, þad hann hefir vitnad af Syni sínum. Hverr hann trúir á Guds Son, sá hefir þenna vitnisburd í sér. Hverr, sem ecki trúir Gudi, hann hefir gjört hann ad lygara, af því hann trúdi ecki á þann vitnisburd, sem Gud vitnadi um Son sinn. Þessi er sá vitnisburdur, ad Gud hefir oss þad eilífa líf géfid, og þetta líf er í hans Syni. Hverr, sem hefir Soninn, sá hefir lífid; hverr, sem ecki hefir Guds Son, sá hefir ecki lífid.

## Gudspjallid.

(Jóh. XX, 19—31.)

Ad qvöldi þess sama þvottdags, þegar Lærisveinarnir vóru saman-

komnir ad luktum dyrum, sökum hrædslu vid Gydínga, kom Jesús þar, stód í midid og sagdi vid þá: fridur sé med ydur! en þegar hañ hafdi þetta sagt, sýndi hann þeim hendurnar og sína sídu. Lærisveinarnir gloddust vid, er þeir sáu Herrann. Jesús sagdi þá enn aptur til þeirra: fridur sé med ydur! Eins og Fadirinn sendi mig, svo sendi eg ydur. En sem hann taladi þetta, blés hann á þá og sagdi: medtakid þér heilagann Anda! hverjum helzt þér fyrirgéfid syndirnar, þeim eru þær fyrirgéfnar, en hverjum, sem þér apturhaldid þær, þá eru þeim þær apturhaldnar. En Thómas, einn af þeim tólf, sem kalladist Tvíburi, var ecki med þeim, þegar Jesús kom. Hinir Lærisveinarnir sögdu honum: vér höfum séd Herrann. Thómas svaradi: nema eg sjái naglaførin í hans höndum, láti

fíngur minn í naglaførin og leggi hønd mína í hans síðu, þá trúi eg því ecki. Eptir átta daga, þegar Lærisveinarnir vóru þar inni og Thómas með þeim, kom Jesús — að luktum dyrum — stóð midt á medal þeirra og sagdi: fridur sé med ydur! sídan sagdi hann til Thómasar: réttú fíngur þinn híngað og skoda hendur mínar! lyptú upp hendi þinni og legg hana á síðu mína! vertú ecki vantrúadur heldur trúadur. Thómas sagdi til hans: Drottinn minn og Gud minn! Jesús svaradi: af því þú sást mig, Thómas! trúdir þú; en sælir eru þeir, sem ecki sjá, en trúa þó! Mørg fleiri teikn gjørdi Jesús í augsýn sinna Lærisveina, hverra hér er ecki getid; en þetta er ritad, svo ad þér trúid: ad Jesús sé Kristur Sonur Guds, og þér svo trúadir hefdud lífid í hans nafni.

# A Annann Sunnudag eptir Páska.

## Collectan.

Heyr, almáttugi, eilífi Gud! sem med þíns Sonar lægíngu hefir uppreist þennann heim, sem fyrir syndina var nidurfleginn og fallinn. Vér bidjum: géf þínum rétt-trúudum eilífa gledi, ad lika sem þú hefir frelst oss frá falli eilífs dauda, ad vér mættum svo njóta eilífi-ar gledi. Fyrir þann sama, þinn eingétinn og elskulegann Son, etc.

## Pistillinn.
(1 Pet. II, 21—25.)

Elskulegir Brædur! Þar til erud þér kalladir, med því Kristur hefir einnig lidid fyrir oss og oss til eptirdæmis látid, ad þér skyldud eptirfylgja hans fótsporum, hverr ed enga synd gjørdi og ecki heldur eru nein svik fundin í hans munni; hverr

ed ecki lastmælti þá honum var lastmælt; ecki ógnadi þá hann leid, en ofurgaf þad honum sem rétt dæmir. Sá er sjálfur hefir vorar syndir borid á sínum líkhama uppá trénu, svo ad vér í frá syndunum daudir lifdum réttlætinu, fyrir hvers benjar þér erud heilbrygdir vordnir; því þér vórud eins og villuráfandi saudir, en nú erud þér umvendtir til hyrdirs og Biskups ydvarra sálna.

## Gudspjallid.

(Jóh X, 11—16.)

Jesús sagdi til Gydínganna: eg er gódur hyrdir! gódur hyrdir géfur sitt líf út fyrir sína saudi; en leigulidinn og hann, sem ecki er hyrdir, hvers saudirnir eru ecki eginlegir, þegar hann sjer úlfinn koma, þá yfirgéfur hann saudina og flýr á burt; en úlfurinn grípur saudina og sundurdreifir þeim, en leigulidinn flýr, af því hann er leigulidi og gætir ecki saudanna.

Eg er gódur hyrdir, eg þecki mína saudi og eg þeckist af mínum, eins og Fadirinn þeckir mig og eg þecki Fódurinn; eg legg og mitt líf út fyrir mína saudi. Eg hefi líka adra saudi, sem ecki eru af þessu saudahúsi, þá byrjar mér og hér til ad leida og þeir munu heyra mína róddu; þar mun þá verda eitt saudahús og einn hyrdir.

---

# A þridja Sunnudag eptir Páska.

---

## Collectan.

Herr, almáttugi, eilífi Gud! þú, sem tier þitt sannleiks ljós fyrir þeim, sem villtir fara; svo þeir mættu komast aptur á sannleiksins veg. Vér bidjum: ad þú viljir géfa óllum, sem reiknast kristnir, ad fyrirlíta alla hluti, sem eru á móti kristiligu nafni, en eptir ad fylgja

þeim hlutum, sem það heilaga nafu prýða í augliti Drottins. Fyrir þinn, etc.

## Pistillinn.

(1 Pet. II. 11—20).

Allra kjærustu! Eg bið ydur líka sem framandi og vegfarendur, að þér haldið ydur frá holdlegum girndum, hverjar ígégn sálunni stríða. Hafið góða umgengni á medal heidinna þjóða, svo að þeir, sem hallmæla ydur eins og íllvirkjum, sjái ydar góðverk og dyrki Guð á vitjunar-degi. Þar fyrir verið undirgéfnir allri mannlegri skickun fyrir Herrans sakir, sé það Konúnginum, svo sem hinum ypparsta, edur Landstjórnurunum, svo sem af honum útsendum til hefudar yfir íllvirkjana, en gódum til lofs; því það er vilji Guðs, að þér med gódum verkum niðurþaggið óviturleik heimskra manna; svo sem frelsíngjar, en ecki svo sem hefdud þér frelsið íllskunni til yfirhylmíngar, heldur eins og Guds þrælar. Veitið vyrdíngu hverjum manni; elskið brædurna; óttist Guð; heidrid Konúnginn. Þér, þjónustufólk! verið Herrunum undirgéfnir med allri

óttasemi, ecki einúngis góðum og spakferð=
ugum, heldur einnig sérlunduðum; því
það er náð, ef nockurr fyrir samvitskunn=
ar sakir til Guðs, þolir hið ílla og um=
líður hið órétta. Því hver hrósan er það,
ef þér fyrir misgjerðanna sakir hnefa=högg
líðið? en þegar þér umlíðið og þolið ráng=
indi fyrir velgjerðanna sakir, það er náð
hjá Guði.

## Guðspjallið.

(Jóh. XVI, 16—23)

Jesús sagði til sinna Lærisveina: innan lítils tíma munuð þér ecki sjá mig, og þá eñ iñan lítils tíma munuð þér sjá mig aptur, því eg fer til Föðursins. Þá sögðu nockrir af Lærisveinunum sín á milli: hvað er það hann segir oss: innan lítils tíma munuð þér ecki sjá mig, og þá enn innan lítils tíma munuð þér sjá mig aptur, því eg fer til Föðursins? Hvað er það hann segir oss: innan lítils tíma? vér

vitum ecki hvad hann segir. En Jesús, sem formerkti ad þeir vildu spyrja hann um þetta, sagdi til þeirra; þér spyrjid ad því ydar á milli, er eg sagdi ydur: innan lítils tíma munud þér ecki sjá mig, og þá enn innan lítils tíma munud þér sjá mig aptur. Sannlega segi eg ydur: þér munud sýta og gráta, en heimurin mun fagna; þér munud hriggvir verda, en ydar hrigd skal snúast í fögnud. Konan, þegar hún skal fæda, hefir hrigd, af því hennar stund er komin; en þegar hún hefir barnid fædt, minnist hún ecki þess harmqvælis fyrir fagnadar sakir af því, ad madur er í heiminn borinn. Þér hafid nú ad sonnu hrigd, en eg vil sjá ydur aptur; þá skal ydar hjarta fagna og þann fögnud skal enginn frá ydur taka: á þeim tíma munud þér mig og einkis spyrja.

# A Bænadaginn.

## Collectan.

O! nádugi Guð! miskunsami kiæri Fadir! hjá hverjum að er mikil fyrirgefníng, og giarnan vilt miskuna þig yfir alla þá, sem giøra sauna ydrun fyrir syndina. Vér bidjum þig hjartanlega allra kiærasti gódi Fadir! forlát, forlát oss allar vorar syndir og géf oss þína náð, að vér allir, sem ákøllum þitt nafn, mættum í dag og alla tíma vikja frá øllu ránglæti og allri synd, og af øllu voru hjarta svo umvendast til þín, að vér daglega fyrir krapt þíns Auda, sinnumst réttskickadir í trúnni til þín og hlydninni við þig, ætíð uppfylltir með réttum ydrunar og umvendunar ávextum, til þess að vér í réttri trú og trausti vitjum þín og ákøllum þig, og vér mættum finna þig, sem miskunsamann Guð og Fødur, og í allri vorri naudsyn vera vissir um þína nádugu hjálp og blessun, bædi fyrir líf og sálu, uns vér um sídir, fyrir þína náð, mættum verda eilíflega sáluhólpnir. Fyrir þinn eingétinn og elskulegann Son, etc.

## Pistillinn.

(Esaj. LV, 6—7)

Leitid Drottins á medan hann er ad finna, kallid á hann, á medan hann er nálægur. Sá hinn ógudlegi láti af sínum vegi og illvirkinn af sinni hugsun og snúi sér til Drottins, þá mun hann miskuna honum, og til Guðs vors, þvíað í hjá honum er mikil fyrirgéfning.

## Gudspjallid.

(Matth. III, 8—10.)

Svo gjörid nú verdugann ávöxt ydraniñi, og þenkid eckí ad þér vildud segja med sjálfum ydur: Abraham höfum vér fyrir Födur. Eg segi ydur: máttugur er Gud ad uppvekja Abraham sonu af steinum þessum. Af því nú er öxinn allareidu sett til rótar trjánna; því mun hvert það tré, sem ecki gjörir gódann ávöxt, upphöggvast og í eld kastast.

# A Fjórda Sunnudag eptir Páska.

## Collectan.

Heyr, almáttugi, eilífi Gud! sem lætur alla þina réttkristna vera samþycka í huga og vilja. Vér bidjum: lát þitt fólk þad eina vilja og þad eina elska, sem þú bjódur, og þad eina girnast, sem þú lofar, svo ad vor hjörtu, sem eru stödd í fallvaltri veru þessa heims, mættu vera stadfest þar, sem er sú sanna gledi og fögnudur. Fyrir þann, etc.

## Pistillinn.

(Jak. I, 16—21.)

Elskulegir Brædur! Øll gód gjöf og øll fullkomin gjöf er ad ofan frá Fødur ljósanna, hjá hverjum ecki er umbreytíng né umbreytíngar skuggi; því hann hefir gétid oss eptir sinni vild fyrir sannleiksins ord, ad vér séum framburdur hans sképnu.

Fyrir því, Bræður mínir elskulegir! sé hverr maður fljótur til að heyra, en tregur til að tála og til reiði tregur; því manns-ins reiði verkar ekki Guðs réttlæti. Þar fyrir afleggið allann óhreinleika og nægð illskunnar, en meðtakið orðið með hógværð það í yður er gróðursett, hvað yðar sálir kann hjálpnar að gjera.

## Guðspjallið.

(Jóh. XVI, 5—15.)

Jesús sagði til sinna Lærisveina: nú fer eg til hans, sem mig sendi, og enginn af yður spyr mig að: hvert fer þú? heldur af því að eg talaði þetta til yðar, þá uppfylltist yðar hjörtu af hrygð; en eg segi yður það satt: að það batar yður, að eg fari héðan; því fari eg ekki á burt, kémur ekki Huggarinn til yðar; en ef eg fer héðan, mun eg senda hann til yðar. Þegar hañ kémur, mun hañ straffa heim-

inn um syndira, um réttlætid og um dóminn; um syndina sókum þess: ad þeir trúa ecki á mig; um réttlætid: af því ad eg fer til Fodursins, og eptir þad sjáid þér mig ecki; en um dóminn: því ad hofdingi þessa heims er dæmdur. Eg hefi enn þá margt ad segja ydur, en þér kunnid ecki ad sinni bera þad. En þegar sá sannleiksins Andi kémur, þá mun hañ leida ydur í allann sañleika; því hañ mun ecki tala af sjálfum sér, heldur hvad hann heyrdi, mun hann tala, og hvad eptirkomandi er, þad mun hann kunngjora ydur; hann samt mun og gjora mig dýrdlegann, því af mínu mun hann þad taka og kunngjora ydur. Allt hvad Fadtriñ hefir, þad er mitt: þess vegna sagdi eg ydur: af mínu mun hann þad taka og kunngjora ydur.



# Á Fimta Sunnudag eptir Páska.

## Collectan.

Herr, almáttugi eilífi Gud! sem ert uppháf til alls góds, og af hverjum allir gódir hlutir koma; veittu þínum audmjúkum kristnum mönnum, ad vér mættum, fyrir þinn innblástur, hugsa þá eina hluti, sem réttir eru, og þad sama ad fylla og framqvæma med verkunum. Fyrir þinn etc.

## Pistillinn.

(Jak. 1; 22—27.)

Kjærir Brædur! Verid gjörendur ordsins, en ecki einúngis tilheyrendur, hvarmed þér sjálfa ydur á tálar dragid. Því, ef hockurr er ordsins tilheyrari en ecki gjörari, så er líkur þeim manni, sem fyrir sér vyrdir medfædda ásjónu sína í spegli;

Því eptir það hann hafdi skodad sig, gèck hann burt og gleymdi jafnsnart hvernig hans ysirlitur vàr. En sá, sem skygnist inn í hid algjörda lögmál frelsisins og stadnæmist þar inní og er ecki forgleymanlegur heyrari, heldur gjörníngsins gjørari, sá sami mun hjálplegur í sínu verki. Ef nockurr á medal ydar lætur sér þykja, ad hann sé gudrækinn, en temur ecki túngu sína, heldur villir sitt hjarta, þess gudrækni er hégómi. En skjær og óflekkud gudrækni fyrir Gudi Fødur er þessi: ad vitja eckna og føðurlausra í þeirra hörmúngum, og sig sjálfann ad geyma flecklausann frá heimi þessum.

## Gudspjallid.

(Jóh. XVI, 23—30.)

Jesús sagdi til sinna Lærisveina: sannlega, sannlega segi eg ydur: hvers þér bidjid Fødurinn í mínu nafni, þad mun hann géfa ydur. Hingad til hafid þér einkis bedid í mínu nafni. Bidjid, þá munud

þér medtaka, svo ydar fagnudur sé fullkomlegur. Þetta hefi eg talad í ordsqvidum til ydar; en sá tími kémur, ad eg tala ecki lengur í ordsqvidum til ydar, heldur mun eg kunngjøra ydur opinberlega af mínum Fødur; á þeim degi munud þér og bidja í mínu nafni. Ecki segi eg ydur, ad eg muni bidja Fødurinn fyrir ydur, því Fadirinn sjálfur elskar ydur, af því þér elskid mig og trúid ad eg sé af Gudi útgenginn. Eg er af Fødurnum útgenginn og kominn í þennann heim; eg yfirgéf og þennann heim, og fer til Fødursins. Þá sögdu Lærisveinarnir: sjá! nú talar þú berlega og mælir enga ordsqvidu; nú vitum vér ad þú veitst alla hluti, og þarft ecki ad nockurr spyrji þig; þess vegna trúum vér, ad þú sért af Gudi útgenginn.



# Á Uppstigningar-dag.

## Collectan.

Heyr, almáttugi, eilífi Gud! vér bidjum: veittu oss ad vér, sem trúum ad þinn eingétinn Sonur Jesús Kristur sé uppstiginn til himins, sitji til þinnar hægri handar og sé vor árnadar-madur og verndari, ad vér einnig mættum hiá honum búa og vera í voru hjarta og hugskoti. Fyrir hann sama, etc.

## Pistillinn.

(Post. Gb. 1, 1—11.)

Hina fyrra bókmála gjørda eg ad sonnu, um allt þad, ó Theophile! sem Jesús hóf upp ad gjera og kénna, allt til þess dags, er hann vard uppnuminn, eptir þad hann hafdi, fyrir heilagann Anda, kunngjørt Postulunum, hverja hann hafdi og útvalid, hverjum hann tjádi sig lifandi eptir píslína, med marghátttudum røksemdum, lét þá sjá sig um fjørutíu daga og taladi vid

þá um Guds ríki. En þegar hann hafdi samansafnad þeim, baud hann þeim: ad þeir skyldu ecki fara út af Jerúsalem, heldur bída þar eptir fyrirheiti Födursins, hvert þér — sagdi hann — hafid af mér heyrt. Því sannlega skírdi Jóhannes med vatni, en þér skulud med heilögum Anda skírdir verda ecki lángt eptir þessa daga. En þeir, sem þar til samans vóru, spurdu hann ad: Herra! viltú nú á þessum tíma uppréttá Israels ríki? Hann sagdi til þeirra: þad er ecki ydvart ad vita stundir eda hentugleika tímanna, hverja Fadirinn setti í sjálfs síns valdi, heldur munud þér edlast krapt heilags Anda, þess er yfir ydur mun koma; þér skulud og mínir vottar vera til Jerúsalem og í ellu Gydíngalandi og Samaríu, og allt til ens ytsta jardar-enda. Þá er hann hafdi þetta sagt, vard hann þeim ásjáendum uppnuminn, og skýid tók hann í burt frá þeirra augum. En þá er þeir horfdu eptir honum uppstíganda til himins, sjá! ad tveir menn stódu hjá þeim í hvítum klædum, sem sögdu: þér menn af Galílæu! til hvers standid þér hér og horfid upp í himininn? þessi Jesús, sem uppnuminn er frá ydur til himins, mun svo koma,

eins og þér nú sáud hann til himins faranda.

## Gudspjallid.

(Mark. XVI, 14—20.)

En seinast, þegar þeir ellefu Lærisveinar sátu til bords, opinberadi Jesús sig, og ávítadi þeirra vantrú og hjartans hardúd, ad þeir hefdu ecki trúad þeim, sem hann höfdu séd upprisinn. Hañ sagdi til þeirra: farid út um allañ heiminn, og predikid Evangelium allri skepnu. Hverr, sem trúir og verdur skírdur, mun hólpiñ verda, en hverr ecki trúir, mun verda fordæmdur. Teiknin, er þeim munu fylgja, sem trúa, eru þessi: í mínu nafni skulu þeir Djöfla útreka, nýar túngur tala, höggorma upptaka, drecki þeir nockud banvænlegt, þá skal þad ecki granda þeim, leggi þeir hendur yfir sjúka, mun

þeim batua. En eptir þad Drottinn Jesús hafdi talad vid þá, vard hann uppnuminn til himins, og settist til hægri handar Gudi. En Lærisveinarnir gengu út og predikudu allstadar, Drottni samverkanda og ordid styrkjanda med eptirfylgjandi teiknum.

## A Sjøtta Sunnudag eptir Páska.

### Collectan.

Heyr þú almáttugi, eilífi Gud! láttú oss jafnan hafa gudrækilegann vilja til þín, og þjóna þinn veldi med hreinu hjarta. Fyrir þinn eingetinn og elskulegann Son, etc.

Pist-

## Pistillinn.

(1. Pet. IV. 7—11.)

Elskulegir Brædur! Fyrir því verid forsjálir og árvakrir í bæna ákállinu, en umfram alla hluti, þá hafid brennandi kjærleika innbyrdis; því kjærleikurinn hylur fjelda syndanna. Verid gestrisnir innbyrdis án moglunar. Hverr eptir þeirri nád, sem hann hefir odlast, þá sé hann ødrum þjónandi, eins og gódir umbodsmenn margvíslegrar Guds nádar. Ef nockurr talar, þá tali hann þad eins og Guds ord. Ef nockurr þjónar, hann þjóni eptir þeim krapti, sem Gud gefur, svo í øllum hlutum verdi Gud dýrkadur fyrir Jesúm Krist, hverjum ad er dýrd og vald um aldir alda, Amen!

## Gudspjallid.

(Jóh. XV, 26—27. XVI, 1—4.)

Jesús sagdi vid sína Lærisveina: Þegar Huggarinn kémur hvern eg mun senda ydur frá mínum Fødur, sem er sannleiksins Andi, hverr af

Fødurnum framgengur, hañ mun bera vitni af mér, og þér munud mér vitni bera, því þér hafid frá upphafi hjá mér verid. En þetta hefi eg því talad til ydar, svo þér hneixlist ecki; því þeir munu forboda ydur, og sá tími kémur, ad hverr, sem líflætur ydur, meinar sig ad gjera Gudi þægt verk. Þetta gjøra þeir ydur af því þeir þeckja hverki Fødurinn né mig; en þetta tala eg því til ydar, ad þegar sú stund kémur, ad þér minnist þess, ad eg sagdi ydur þad; en þetta sagdi eg ydur ecki í upphafi, af því eg var þá hjá ydur.

---

## Á Hvítasunnudag.

### Collectan.

Heyr þú almáttugi, eilífi Gud! sem á þessum degi upplýstir hjørtu þinna heilogu Posta-

ula og annara rétt-trúadra, med kénníngu og upplýsíngu hins heilaga Anda. Vér bidjum: géf þú oss ad skilja í þeim sama Anda þá hluti, sem réttilegir eru, og ætíd ad glediast af hans huggun. Fyrir þinn, etc.

## Pistillinn.

(Post. Gb. II. 1—11).

Þá ed fullkomnadist Hvítasunnu-dagurinn, vóru Postularnir allir med einum huga í þeim sama stad. Þar vard þá skyndilega þytur af himni, eins og mikils tilkomandi vindar, sem fyllti allt húsid, er þeir sátu inni. Þeir sáu sundurskildar túngur, álíka sem eldsloga, sem setti sig yfir sérhvern þeirra, og þeir urdu allir fullir af heilögum Anda, og tóku til ad tala annarlegum túngum, eptir því sem heilagur Andi gaf þeim út ad tala. En þar vóru Gydíngar byggjandi í Jerúsalem, gudhræddir menn, af allrahanda fólki, sem er undir himninum. En er þessi rödd skédi, kom mannfjöldinn til samans og hnickti þeim vid, þegar hverr og einn heyrdi þá tala sitt túngumál; en þá stansadi og fjellu í undrun og segdu: eru þessi

ir ecki allir, sem tala, af Galílæu? hvernig heyrum vèr nú þá talandi vort túngumál, þar vèr erum inni fæddir? Parthí, Medí og Elamítæ og þeir, sem búa í Mesópótamíu, Júdæu, Kappadocíu, Pontó og Asíu, Phrygíu og Pamphilíu, á Egyptalandi og í landsálfum Lybíu, hver að er nærri Cyreníu og útlendir af Róm; Gydíngar og þeir, sem Gydíngar hafa nýgjerst, Cretar og af Arabíu, vèr heyrum þá talandi vorum túngum Guds stórmerki.

## Gudspjallid.

(Jóh. XIV, 23—31.)

Jesús sagdi vid sína Lærisveina: hverr, sem elskar mig, hann mun vardveita mín ord; Fadir minn mun elska hann, til hans munum vid koma og hjá honum vistarveru gjöra. En hverr, sem ecki elskar mig, hann vardveitir ecki mín ord. Þad ord, sem þér af mér heyrdud, er ecki mitt, heldur Fodursins, er mig sendi. Þetta tal-

ádi eg fyrir ydur á medan eg var hjá ydur; en Huggarinn, sem er hinn heilagi Andi, þann er Fadir minn sendir í minu nafni, mun kénna ydur alla hluti, og minna ydur á allt þad, sem eg sagdi ydur. Minn frid læt eg hjá ydur, minn frid géf eg ydur; ecki géf eg eins og heimurinn géfur. Ydar hjörtu hrædist hverki né skélfist; þér heyrdud þad eg sagdi ydur: eg fer á burt, og kém aptur til ydar. Ef þér elskid mig, þá gleddust þér vid þad, ad eg sagdi ydur: eg fer til Fodursins; því Fadirinn er mér meiri. Nú sagdi eg ydur þad ádur fyrri enn þad skér, svo þér trydud því, þegar þad er skéd. Hédan af mun eg ecki tala margt vid ydur, því þessa heims hefdíngi kémur, og med mig hefir hann eckert; heldur svo ad heimurinn þecki þad, ad eg elska Fodurinn, og ad eg gjeri eins og Fadirinn hefir mér bodid.

# Á annan Hvítasunnudag.

## Collectan.

Herra Gud! sem gafst þínum Postulum heilagann Anda. Géf þinni heilagri kristni krapt þíns heilaga Anda, sem hún umbidur og géf þeim frid í hjartad, hverja þú kristna giort hefir med þínum heilaga Ande. Fyrir þinn, etc.

## Pistillinn.

(Post. Gb. X. 42—48.)

Á þeim dögum upplauk Pétur munni sínum og sagdi til Kornelíusar og þeirra, sem vóru hjá honum: Drottinn baud oss ad predika fyrir fólkinu og vitni um bera ad hann væri sá, sem skickadur er af Gudi Dómari lifendra og daudra. Af þessum bera allir Spámenn vitni, ad fyrir hans nafn skulu þeir, sem á hann trúa, medtaka syndanna fyrirgéfníngu. Þegar Pétur

taladi þessum ordum, féll heilagur Andi yfir þá alla, sem ordid heyrdu; og þeir trúadir, sem af umskurniuni vóru og med Pétri hefdu komid, undrudust þad, ad heilags Anda gjöf væri úthellt yfir heidna menn, því þeir heyrdu þá túngur tala og vegsama Gud. Þá svaradi Pétur: hverr má fyrirbjóda þeim vatnid, ad þeir skírist ecki, sem medtekid hafa heilagann Anda eins og vér, og hann baud ad skíra þá í nafni Drottins.

## Gudspjallid.

(Jóh. III, 16—21.)

Jesús sagdi vid Nikódemus: svo elskadi Gud heiminn, ad hann gaf út sinn eingétinn Son til þess: ad allir þeir, sem á hann trúa, fyrirfarist ecki, heldur ad þeir hafi eilíft líf; því ecki sendi Gud sinn Son í heiminn, til ad fyrirdæma hann, heldur ad heimurinn frelsadist fyrir hann. Hverr á Soninn trúir fyrirdæmist ecki, en hverr, sem eckt

trútr, er nú þegar dæmdur, af því hann trúdi ecki á nafn eingétins Guds Sonar, En þessi er Dómurinn: ad ljósid kom í heiminn, en menniruir elskudu meir myrkrid enn ljósid, því þeirra verk vóru vond. Hverr, sem illa gjørir, hann hatar ljósid, hann kémur og ecki til ljóssins, svo ecki straffist hans verk. En hverr, sem sannleikann elskar, hann kémur til ljóssins, svo hans gjørdir verdi kunnar, því þær eru í Gudi gjørdar.

## A Trinitatis Hátíd.

### Collectan.

Almáttugi, eilífi Gud! sem hefir kénnt oss, þjónustu-monnum þínum, í sanri játníngu trúarinnar, ad medkénna eilífa dýrd Þrenníngarinnar, og í makt þíns veldis ad tilbidja

Einínguna. Vér bidjum: ad vér mættum í þeirri sömu stödugu trú, frá ǫllu því oss er á móti vardveitast. Fyrir Jesúm Krist, etc.

## Pistillinn.

(Róm. XI, 33—36.)

Gódir Brædur! O! hvílík dýpt audæfanna, speckinnar og Guds vitsku. Hversu óransakanlegir eru hans dómar og hversu ófinnanlegir eru hans vegir? Því hverr hefir þeckt sinni Drottins? eda hverr hefir hans rádgjafi verid? eda hverr hefir honum fyrri géfid, svo ad honum mætti þad verda endurgoldid? Því ad af honum og fyrir hann og í honum eru allir hlutir. Honum sé dýrd um aldir, Amen!

## Gudspjallid.

(Jóh. III, 1—15.)

Madur nockurr af Pharisæunum, Nikódemus ad nafni, einn af hofdíngjum Gydínga, kom til Jesú á náttar-þeli og sagdi til hans: Rabbí! vér vitum ad þú ert Læri-

meistari kominñ af Gudi, því eng-
inn gétur gjört þau teikn, sem þú
gjörir, nema Gud sé med honum.
Jesús svaradi: sannlega, sannlega
segi eg þér: ad enginn nema hann,
sem fædist ad nýu, fær ad sjá Guds
Ríki. Nikodemus spurdi: hvern-
in fær madurinn endurfædst þeg-
ar hann er gamall? hvert gétur
hañ hvorfid aptur í qvid módur siñ-
ar og fædst svo ad nýu? Jesús
svaradi: sannlega, sannlega segi
eg þér: nema þad nockurr verdi
endurfæddur út af vatni og anda,
þá kann hann ecki inn ad gánga í
Guds Ríki. Hvad af holdi er
er fædt, þad er hold; en hvad af
andanum er fædt, þad er andi.
Undrast þú ecki þad, er eg sagdi þér:
ad ydur byrjar ad fædast ad nýu;
vindurinn blæs hvar sem hann vill,
og þú heyrir hans þyt, en ecki
veitstu hvadan hann kémur eda
hvert hann fer; svo er sérhverr af

Andanum fæddur. Nikódemus sagdi til hans: hvernig má þetta ské? Jesús svaradi: ertú Meistari í Jsrael, og veitst ecki þetta? sannlega, sannlega segi eg þér: ad vér segjum þad vér vitum, og vitnum hvad vér sied höfum, og vorn vitnisburd medtakid þér ecki. Hafi eg sagt ydur jardneska hluti og þér trúid ecki, hvernin munud þér þá trúa ef eg segdi ydur himneska hluti? Enginn uppstigur til himins, nema sá, sem ofan sté af himni, Mannsins Sonur, sá, sem er á himni. En eins og Móses upphóf höggorminn á eydimörkinni, svo byrjar líka Mannsins Syni upp ad hefjast, svo ad allir þeir, sem á hann trúa, fortapist ecki, heldur ad þeir hafi eilíft líf.



# A 1ta Sunnudag eptir Trinitatis.

## Collectan.

O Herra Gud! sem ad ert allra þeirra styrkur, er á þig vona. Vyrdstú mildilega nálægur ad vera vorum bænum; en af því ad vor daudlegur veikleiki má sér eckert án þín, þá veit oss fulltingi nádar þinnar, ad vér mættum eptirfylgja þínum bodordum og bædi med vilja og verki þér þóknast. Fyrir þinn, etc.

## Pistillinn.

(1 Jóh. IV, 5 — 11.)

Elskulegir Brædur! Gud er kjærleikurinn, og hverr hann blífur í kjærleikanum, sá blífur í Gudi og Gud í honum. Í því er kjærleikurinn fullkomlegur hjá oss, ad vér hefum þad traust á degi dómsins, ad líka svo sem hann er, svo erum vér og í þessum heimi. Otti er ecki í kjærleikan-

ym, heldur burtdrífur fullkomlegur kjærleiki óttann, því óttinn hefir qvol; en hverr hann hefir ótta, sá er ecki algjerdur í kjærleikanum. Látum oss hann elska, því hann hefir elskad oss fyrri. Ef nockurr segist elska Gud, en hatar bródur sinn, sá er ljúgari, því hverr hann elskar ecki sinn bródur, hvern hann sjer, hvernig getur hann Gud elskad, þann er hann sjer ecki? Þetta bodord höfum vér af Gudi; ad hverr hann elskar Gud, sá skal og elska bródur sinn.

## Gudspjallid.

(Luk. XVI, 19—31).

Jesús sagdi vid Pharisæana: madur nockurr ríkur var sá, er klæddist perli og purpura, og lifdi hvern dag í vellystingum praktuglega. Þar var og þurfa madur, Lazarus ad nafni, hverr ed úti lá fyrir húss dyrum, fullur kauna. Hann gyrntist ad sedja sig af þeim molum, sem féllu af bordi ens ríka:

þá komu hundar og sleiktu hans sár. En það skéði svo, að hinn voladi andadist og varð borinn af Englum í faðm Abrahams. Hinn ríki andadist líka, og var greftrað. ur. En þegar hann var í helvíti og qvølunum, hóf hann upp sín augu, leit Abraham álengdar og Lazarus í faðmi hans; því kalladi hann og sagði: O! Faðir Abraham! miskunna þú mér! send þú Lazarus hingað, að hann drepi hinu fremsta síns fingurs í vatn, og kjæli túngu mína, því eg qvelst í þessum loga. Abraham svaraði: Sonur! hugleið þú, að þú meðtókst hið góða í lífi þínu, en Lazarus líka hið vonda, því hlýtur hann nú að huggast en þú að qveljast. Framyfir allt þetta, er á millum vor og ydar svo mikið djúp stadfest, að þeir, sem héðan vilja fara til ydar, géta það ecki, og ecki þeir heldur þaðan frá ydur upp til vor

komist. Hinn sagdi þá: eg bid þig, Fadir! ad þú sendir hann í míns födurs hús, því eg hefi fimm brædur, svo ecki komi þeir í þennann qvalastad. Abraham sagdi til hans: þeir hafa Móses og Spámennina, heyri þeir þeim. Hinn sagdi: Nej, Fadir Abraham! heldur ef nockurr framlidinn færi til þeirra, þá mundu þeir ydrun gjøra. Abraham svaradi honum: ef þeir heyra ecki Mósi og Spámönnunum, þá munu þeir ecki heldur trúa, þó einhverr framlidiñ uppristi.

## A 2ann Sunnudag eptir Trinitatis.

### Collectan.

Heyr, Herra Gud! lát oss jafnan þitt heilaga nafn óttast og elska; því aldrej yfirgéfur þú

þá, sem hafa fullkomleaann kjærleika til þín. Fyrir þinn eingétinn Son, etc.

## Pistillinn.

(1 Jóh. III, 13—18.)

Elskulegir Brædur! Undrist ecki, þó ad heimurinn hati ydur. Vér vitum þad, ad vér erum úr daudanum komnir til lífsins, því vér elskum brædurnar. Hverr hann elskar ecki bródur sinn, sá blífur í daudanum. Hverr bródur sinn hatar, sá er manndrápari, en þér vitid, ad manndráparinn hefir ecki eilíft líf í sér blífanda. Af því, þeckjum vér Guds kjærleika, ad hann lét Son sinn géfa sitt líf út fyrir oss, því erum vér líka skyldir ad géfa líf vort út fyrir brædurnar. En þegar einhverr hefir þessarar veraldar audæfi, sjer bródur sinn naud líða og apturlykur hjarta sitt fyrir honum, hvernig má Guds kjærleiki vera med honum? Sonakorn mín! elskid ecki med ordi og túngu, heldur med verki og sannleika.

# Gudspjallid.

(Lúk. XIV, 16—24.)

Jesús sagdi til eins af Pharisæunum þessa Eptirlíkingu: Nockurr madur var sá, sem gjørdi mikla qvøldmáltíd og kalladi marga þar til. Hann sendi út þjón sinn um qvøldmáls-tímann, ad hann segdi þeim, sem bodnir vóru: komid! því ad nú eru allir hlutir til reidu. En þeir tóku allir í einu hljódi ad afsaka sig. Hinn fyrsti sagdi: akur keypta eg, og hlýt eg fara út ad skoda hann; eg bid þig, afsaka mig. Hinn annar sagdi: fimm pør akneyta keypta eg, og fer nú út ad reyna þau: eg bid þig; afsaka mig. Sá þridji sagdi: konu hefi eg mér festa, og fyrir því má eg ecki koma. Þjónustu-madurinn kom og kunngjørdi þetta sínum Herra. Þá vard Húsbóndinn reidur og sagdi til þjónustu-mannsins: far þú

snarlega út á gøtur og stræti borgarinnar, og leid volada, vanada, blinda og hallta hér inn. Þjóninn sagdi: Herra! Þad er gjørt, sem Þú skipadir, og þó er enn meira rúm. Herrann svaradi: Far þú út á Þjód-brautir og túngarda, og naudga þeim hér inn ad gánga, svo mitt hús verdi fullt; Því eg segi ydur Þad: ad enginn þeirra manna, sem kalladir vóru, munu smacka mína qvøldmáltíd.

---

## A 3ja Sunnudag eptir Trinitatis.

---

### Collectan.

O Herra Gud! vér bidjum: ad Þú gódgirndarsamlega heyrir vorar bænir, og þeim, sem þig audmjúklega bidja, géfir Þú hjálp og veitir

fullkngi þinnar hlífdar. Fyrir þinn eingét-inn elskulegann Son, etc.

## Pistillinn.

(1 Pet. V. 6—11).

Elskulegir Brædur! Fyrir því lítillæck-id ydur undir volduga Guds hønd, svo ad hann upphefji ydur á vitjunar-tíma. Allri ydar áhyggju varpid þér uppá hann, því hann ber umhyggju fyrir ydur. Verid sparneytnir og vakid, því ydar mótstand-ari, Djøfullinn, gengur um kríng sem gren-jandi ljón, eptirleitandi þeim, sem hann má uppsvelgja, hverjum þér ørugglega mót-standid í trúnni, og vitid þad, ad ydar brædur þeir, sem í heiminum eru, lída slíkt hid sama. En sá Gud allrar nádar, sem oss hefir kallad til sinnar eilífrar dýrdar í Kristi Jesú, hann sami mun ydur — þér sem um litla stund lídid — fullkomna, stødja, styrkja og stadfesta; þeim hinum sama sé dýrd og vald um aldir alda, Amen!



## Gudspiallid.

(Lúk. XV, 1—10.)

En allir Tollheimtumenn og bersyndugir nálægdu sig til Jesú, svo ad þeir heyrdu honum; en þeir Skriftlærdu og Pharisæarnir mögludu og sögdu: þessi medtekur bersynduga menn og etur med þeim. Jesús sagdi til þeirra þessa eptirlíkingu: Hverr sá madur af ydur, sem hefir hundrad sauði, og ef hann glatar einum af þeim, yfirgéfur hann eckí þá níu og níutín á eydimörku, og fer eptir þeim, sem glatadist, þángad til hann finnur hann? en þegar hañ hefir fundid hann, leggur hann þann sama med fögnudi sér á herdar, kémur heim og kallar saman vini og nábúa, og segir til þeirra: samglediist med mér, því eg hefi miñ saud aptur fundid, þann er glatadur var. Eg segi ydur: ad líka svo mun

fognudur verda á himnum, yfir einum syndugum, sem ydrun gjørir, meir eñ yfir þeim níu og níutíu réttlátum, sem ecki þurfa yfirbótar vid. Eda — hver er sú kona, sem hefir tíu peninga, ef hún týnir einum, er ecki svo, ad hún qveikir ljós, sópar húsid og leitar vandlega, þángad til hún finnur hañ? eñ þegar hún hefir hann fundid, samankallar hún vinkonur sínar og grannkonur, segjandi: samgledjist med mér! því eg hefi minn pening aptur fundid, hverjum eg týnda. Líka svo segi eg ydur, þad fognudur mun vera fyrir Englum Guds yfir einum syndugum þeim, er yfirbót gjørir.

## A 4da Sunnudag eptir Trinitatis.

## Collectan.

Heyr, Herra Gud! vér bidjum: géf oss ad þessa heims tími lídi fridsamlega undir þinni fødurlegri stjórnun, svo ad þín heilög kristni megi því fridsamlegar med ákri gudrækni þig dýrka og þér þjóna. Fyrir þinn, etc.

## Pistillinn.

(Róm. VIII, 18—23)

Gódir Brædur! Eg held ad mótlæting þessara tíma sé ecki verd vid þá dýrd, sem vid oss mun opinber verda; því áhyggjusamleg eptirbid sképnunnar bídur eptir uppbyrtingu Guds barna, med því sképnan er hégómanum undirgéfin án hennar vilja, heldur fyrir hans sakir, sem hana hefir undirlagt, uppá vonina, því sjálf sképnan mun frelsud verda af þrælkun fallvaltrar veru; til dýrdarlegs frelsis Guds barna. Því vér vitum, ad allar sképnur andvarpa og sampínast allt til þess tíma. Ecki einúngis þær, heldur vér sjálfir, sem hefum Andans frumtek, andvarpum med sjálfum oss, væntandi arfleifdarinnar, endurlausnar vors líkhama.

## Gudspjallid.
(Lúk. VI, 36—40.)

Jesús sagdi vid sína Lærisveina: verid miskunsamir, líka sem ydar Fadir er miskunsamur. Engann skulud þér dæma, svo þér dæmist ecki; fordæmid ecki, svo þér verdid ecki fordæmdir; fyrirgéfid, og þá mun ydur fyrirgéfid verda; géfid, og þá skal ydur géfast. Góda, samþryckta, vel skékna og yfirfljót. anlega mælingu munu þeir géfa í ydvart skaut; því med þeirri hiñi sømu mælingu, hverri þér mælid út, mun ydur iñ aptur mælt verda. Hañ sagdi þeim þessa Eptirlíkingu: hvert kann nockurr blindur blindann ad leida? falla þeir ecki bádir í grøfina? Lærisveinninn er ecki yfir sínum meistara; en hverr helzt, sem fullkominn er, hañ mun vera sem hans meistari. Hvad sjer þú agnina í þíns brødurs auga, en ad

þeim bjálkanum, sem í þínu auga er, gætir þú ekki? eda, hvernínn máttu segja bródur þínum; bródir! leyf þú ad eg dragi í burtu ögnina úr þínu auga, þar ed þú sier ecki sjálfur bjálkann í þínu auga? Þú hræsnari! drag fyrst út bjálkañ úr þínu auga, og sjá þú þá svo til, ad þú fáir útdregid ögnina, sem er í þíns bródurs auga.

## A 5ta Sunnudag eptir Trinitatis.

### Collectan.

Herr, Herra Guð! sem ósýnilega hluti hefir tilbúid þeim, sem þig elska, gef þú í vor hjörtu girnd réttilegs kjærleika til þín, ad vér elskum þig í öllum hlutum og yfir alla hluti, og mættum ödlast þad þú hefir lofad, hvad betra

ra og ædra er, enn nockurr kann ad óska og girnast. Fyrir Þinn, etc.

# Pistillinn.

(1 Pet. III, 8—15.)

Kjærir Brædur! En ad alyktun, verid allir einhugadir, samþolugir, brodurlegir, miskunsamir, samlyndir. Endurgjaldid ecki íllt fyrir íllt; engin skammaord fyrir skammaryrdi, heldur helsid þar í gegn, og vitid, ad þér erud þar til kalladir, ad þér blessunina erfa skyldud; því hverr, sem vill lifa og siá góda daga, hann stilli túngu sína, ad hún eckert vondt tali, og varir sínar, ad þær ecki flærd tali. Hann skal hnegja sig frá vondu og gjøra hid góda. Leiti hann fridarins og eptirfylgi honum; því augu Drottins eru yfir réttlátum og hans eyru til bæna þeirra, en augliti Drottins er yfir øllum þeim, sem ílla gjøra. Hverr er sá, ad ydur géti grandad, ef þér fylgid því enu góda? En þótt þér lídid fyrir réttlætisins sakir, þá erud þér sælir. Hrædist ecki þeirra ógnanir og skelfist ecki, heldur helgid Drottinn Gud í ydrum hjørtum.

## Gudspjallid.

(Lúk. V. 1—11.)

Pad skédi, þegar fólkid flycktist ad Jesú til ad heyra Guds ord, ad hann stód siálfur vid fiötnin Genezareth, og leit þar standa tvo skip, en fiskararnir vóru af þeim stignir, og þvodu net sín. Jesús sté uppá annad skipid, sem tilheyrdi Símoni, og bad hann ad draga nockud frá landi; en Jesús sat og kénndi folkinu frá skipinu. En þegar hann hætti ad kéña, sagdi hañ vid Símon: drag þú út á djúpid, og leysid upp net yckar til fiskidráttar. Símon svaradi: Meistari! í alla nótt höfum vér erfidad, og fengum eckert, en eptir þínu ordi vil eg netinu útkasta; en þegar þeir höfdu þetta gjört, innilucktu þeir mikla mergd fiska, svo ad net þeirra rifnudu. En þeir bendtu félögum sínum, sem voru á hinu ödru skipinu, ad þeir

kæmu þar og hjálpudu þeim, og þeir komu og hlódu bædi skipin full, svo þau suckn ad mestu. Þegar Simon Pétur sá þetta, féll hann til knjánna Jesú og sagdi: gack frá mér, Lávardur! því eg er madur syndugur, af því felmtur var yfir hann kominn og alla þá, sem med honum vóru, af þeim fiskidrætti, er þeir fengu til samans, líka og yfir Jakob og Jóhañes syni Zebedeusar, sem vóru lagsmenn Simonar. En Jesús sagdi til Simonar: óttast þú ecki, því hédan í frá skaltú menn veida. Þeir drógu skip sín ad landi, yfirgáfu alltsaman og fylgdu Jesú eptir.

---

## Á 6ta Sunnudag eptir Trinitatis.

## Collectan.

Heyr, almáttugi, eilífi Gud! hvers þad er, sem allra best er. Vér bidjum: innplanta í vor hjörtu elsku þíns nafns! auk þú í oss sanna gudrækni, og hvad gott þú verkar í oss, þad sama vildir þú styrkja og vardveita. Fyrir þinn, etc.

## Pistillinn.

(Róm. VI, 1—12.)

Elskulegir Brædur! Vitid þér ecki, ad allir vér, sem skírdir erum í Jesú Kristi, þad vér erum í hans dauda skírdir? því erum vér einnig med honum greftradir fyrir skírnina í daudann, uppá þad, ad eins og Kristur er uppvakinn frá daudum fyrir dýrd Fodursins, líka svo skulum vér gánga í endurnýúngu lífdaganna; af því vér erum innplantadir í líking hans dauda, svo verdum vér og honum líkir í upprisunni, vitandi þad, ad vor gamli madur er med honum krossfestur, svo ad deyddist líkhami syndarinnar, ad eptir þad þjónudum vér ecki syndinni; því hverr, sem deyddur er, hann er réttlátur ordinn af

syndinni. En fyrst vér erum deyddir með Kristi, þá trúum vér, að vér munum og einnig með honum lifa; en vér vitum það, að Kristur er uppvakinn frá dauðum, og deyr ecki meir, dauðinn mun og ecki meir drottna yfir honum; því það hann dó, það er hann einusinni syndinni dáinn, en það hann lifir, það lifir hann Guði. Svo og líka þér skuluð halda yður sjálfa, að þér séuð deyddir frá syndinni, en lifið Guði í Drottni vorum Jesú Kristi.

## Guðspjallið.

(Matth. V, 20—26.)

Jesús sagði við sína Lærisveina: eg segi yður: nema svo sé, að yðvart réttlæti sé betra enn Skriftlærðra og Pharisæanna, þá munuð þér ecki inngánga í himnaríki. Þér hafið heyrt, hvað sagt er til þeirra gömlu: ecki skaltú mann vega; en hverr, sem vegur mann, hann verður dóms sekur. Eg segi yður: hverr, sem reiðist bróður sínum,

hañ verdur dóms sekur; og hverr, sem segir vid bródur sinn; Racha, hann verdur ráds sekur; en hverr, sem segir: þú, afglapi! hann er sekur helvítis elds. Þar fyrir, þegar þú offrar gáfu þinni til altaris, og þér kémur þar til hugar, ad bródir þinn hafi nockud á móti þér, þá láttú þar þína gáfu fyrir altarinu, og far ádur ad sætta þig vid bródur þinn, og kom þá ad offra gáfu þinni. Vertú snarlega samþyckur þínum mótstodu-manni, á medan þú ert eñ á vegi med honum, svo ecki selji þig þiñ mótstodu-madur Dómaranum, Dómarinn selji þig þénaranum, og verdir svo í dýflissu kastadur: Sannlega segi eg þér: ad ecki muntú þadan útfara, þángad til ad þú hefir borgad hinn sídasta pening.

# A 7da Sunnudag eptir Trinitatis.

## Collectan.

Herra, Herra, Gud! í hvers eilífri fyrirhyggju eckert er, sem bregdast kann. Vér bidjum Þig audmjúklega: tak frá oss allt Það, sem oss er skadlegt og veit oss alla Þá hluti, sem oss eru gagnlegir. Fyrir Þinn, etc.

## Pistillinn.

(Róm. VI, 19—23.)

Elskulegir Brædur! Eg hlýt hér mannlega af ad segja fyrir ydvars holds breiskleika sakir. Því líka sem Þér hafid ydar limu léd til ad Þjóna óhreinleikanum frá ødru ránglæti til annars, líka svo og skulud Þér nú ljá ydar limu til ad Þjóna réttlætinu til helgunar; Því Þá er Þér vorud Þrælar syndarinnar, vórud Þér réttlætislausir. Hvern ávoxt hefdud Þér Þann

tíma, þann þér skammist ydar nú af? því endalok þeirra hluta er daudinn. En nú erud þér frelsadir frá syndinni og vordnir Guds þénarar, og hafid því ydvarn ávöxt til helgunar, en ad endalokunum eilíft líf. Því verdlaun syndarinnar er daudinn, en Guds gáfa er eilíft líf í Drottni vorum Jesú Kristi.

## Gudspjallid.

(Mark. VIII, 1—9.)

Á þeim dögum var enn margt fólk komid saman, og hafdi eckí til matar. Jesús kalladi Lærisveinana til sín og sagdi vid þá: mig aumkar yfir fólkid, því í þrjá daga hafa þeir hjá mér verid og eckert til matar haft, en ef eg læt þá fastandi heim til sín fara, þá vanmegnast þeir á leidinni — því sumir vóru lángt ad komnir — Lærisveinarnir svörudu honum: hvadan fáum vér þau braud hér á eydimörku, ad þeir verdi mettadir? Je-

sús spurdi: hversu mørg braud hafid þér? Þeir svorudu: vér høfum sjø. Jesús baud fólkinu ad setjast nidur á jordina, tók hann sjø braud, þackadi, braut og féck sinum Lærisveinum, ad þeir legdu þau fram fyrir fólkid. Þeir høfdu og fáeina smáfiska, þá hina sømu blessadi hann og baud fram ad leggja; en þeir neyttu og urdu mettir. Þeir toku upp þad, er yfir var, sjø karfir med afgángs leifar; en þeir, sem neytt høfdu, vóru nær fjorar þúsundir, og hañ lét fólkid á burt fara.

---

## Á 8da Sunnudag eptir Trinitatis.

### Collectan.

Heyr, Herra Gud, himneski Fadir! Vér bidjum: géf oss anda og nád þar til ad hugsa

þá hluti, sem réttir eru, og síðan að fullkomna þá með verkunum; en af því vér megnum eckert án þín, þá unn oss að lifa eptir þínum vilja. Fyrir þinn, etc.

## Pistillinn.

(Róm. VIII, 12—17.)

Þar fyrir erum vér nú— kjærir Bræður!— ecki holdsins skuldunautar, að vér lifum eptir holdinu; því ef þér lifið eptir holdinu, munuð þér deya, en ef þér deyðið, fyrir Andann, holdsins gjörndir, þá munuð þér lifa. Því hverjum helzt, sem Guðs Andi stjórnar, þeir eru Guðs börn; því ecki hafið þér meðtekið þrældóms anda, svo þér þurfið nú aptur að ugga um yður, heldur hafið þér meðtekið sonarlegann anda, fyrir hvern vér köllum: Abba! elskulegi Faðir! Þessi sami Andi ber vitnisburð með vorum anda, að vér séum Guðs börn... En fyrst vér erum börn, þá erum vér erfíngjar, sannarlega Guðs erfíngjar og samarfar Krists, ef vér líðum með honum, uppá það, að vér verðum einnig með honum dýrðlegir.

## Gudspjallid.

(Matth. VII, 15—23).

Jesús sagdi vid sína Lærisveina: vaktid ydur fyrir Fals spámönnum, sem koma til ydar í sanda-klædum, en hid innra eru þeir glepsandi vargar; af þeirra ávøxtum megid þér þeckja þá. Verda nockud vínber samanlesin af þyrnum eda fíkjur af þistlum? svo ber og hvert gott tré gódann ávøxt, en hvert rotid tré vondann ávøxt. Gott tré gétur ecki fært vondann ávøxt, og ecki heldur gétur rotid tré fært gódann ávøxt; en hvert þad tré, sem ecki færir gódann ávøxt, skal upphøggvast og í eld kastast; þess vegna megid þér af þeirra ávøxtum þeckja þá. Þeir munu ecki allir, sem til mín segja: Herra! Herra! inngánga í Guds ríki, heldur þeir, sem gjøra vilja míns Fødurs, þess á himnum er. Margir munu til mín

segja á þeim degi: Herra! Herra! høfum vér ecki spád í þínu nafni? høfum vér ecki í þínu nafni Djøfla útrekid og gjørdum í þínu nafni mørg kraptaverk? þá mun eg játa þeim: aldrej þeckta eg ydur; farid frá mér allir illgjørda menn!

## A 9da Sunnudag eptir Trinitatis.

### Collectan.

O þú almáttugi Gud! vér bidjum: lát þín miskunar eyrn ætíd vera opin til vorra audmjúkra bæna. Og svo þú géfir oss þad vér girnumst, þá géf þú oss þína nád ad girnast þad eina, sem þér vel þócknast. Fyrir Jesúm Krist, þinn eingétinn og elskulegann Son, etc.

## Pistillinn.

(1 Cor. X, 6—13.)

Elskulegir Brædur! Þetta er skéd oss til fyrimindar, ad vér skulum ecki girnast þad íllt er, eins og þeir girntust. Gjeriſt og ecki ſkurdgóda þénarar, eins og nockrir af þeim urdu, eptir því, sem ſkrifad ſtendur: fólkid ſettiſt nidur ad eta og drecka og ſtód upp ad leika. Drýgjum og ecki ſaurlífi, eins og nockrir af þeim drýgdu ſaurlífi, og ſiellu á einum degi þriár þúſundir og tuttugu. Freiſtum og ecki Kriſts, eins og nockrir af þeim freiſtudu og fyrifóruſt af høggormum. Moglid og ecki, eins og nockrir af þeim mogludu og fyrifóruſt af eydileggjaranum. Þetta allt er uppáfallid þeim til fyrimindar, en er ſkrifad oss til vidvørunar, yfir hverja þeſſa heims endi er kominn. Fyrir því, hverr hann lætur ſér þykja þad hann ſtandi, gaumgæfi ſá, ad hann falli ecki. Ydur hefir enn þá ecki inntekid nema mannleg freiſtni; en Gud er trúr, ſem ecki lætur ydur freiſtaſt yfir megn fram, heldur gjørir hann þad, ad freiſtíngin fái þann enda, ad þér getid ſtadiſt.

## Gudspjallid.

(Lúk. XVI, 1—9.)

Jesús sagdi vid sína Lærisveina: Madur nockurr audugur var sá, sem héldt Rádsmann; hinn sami var ófrægdur vid hann, eins og hefdi hann eydt hans gótzi. Hañ kalladi því Rádsmanninn til sín og sagdi: hvad heyri eg þetta af þér? gjør þú reikningsskap fyrir rádsmeñsku þína, því þana máttú ecki lengur hafa. Rádsmaduriñ sagdi med sjálfum sér: hvad skal eg til gjøra, þegar minn Herra svíptir mig rádsmennskunni? eg dugi ecki til ad grafa, en eg skam̃ast mín ad bidja. Eg veit hvad eg skal gjøra, þegar eg verd settur frá rádsmennskunni, svo þeir medtaki mig í sín hús. Hañ samankalladi því einn og sérhvern skuldamann síns Herra og sagdi vid þann fyrsta: hversu mikid ert

þú ſkyldugur minum Herra? ſá ſvaradi: hundrad tuñur vidſmjørs. Ráds-madurinn ſagdi til hans: tak bréf þitt, ſetſt nidur og ſkrifa ſnarlega: fimmtíu. Þar næſt ſpurdi hann hinn annann: en— hverſu mikid ert þú ſkyldugur? ſá ſagdi: hundrad mæli-kérhøld hveitis. Hann ſvaradi: tak bréf þitt og ſkrifa: áttatíu. En Herrann lofadi þennann rángláta Rádsmann fyrir þad, hann hafdi breytt ſvo forſjállega; því þeſſa heims børn eru kjænari ſonum ljóſsins í þeirra kynſlód. En eg ſegi ydur: gjørid ydur vini af þeim rángfengna Mammóna, ſvo þegar ydur þrýtur, þá medtaki þeir ydur í eilífar tjaldbúdir.

---

## A 10d'a Sunnudag eptir Trinitatis.

## Collectan.

Heyr, almáttugi Gud! sem audsýnir þinn mátt í því, þú þyrmir og miskunar oss. Vér bidjum: auk og margfalda vid oss þína miskun, svo ad vér, sem stundum eptir því, sem þú hefir oss lofad, mættum verda hluttakarar þinna himneskra gæda. Fyrir þinn elskulegan Son, etc.

## Pistillinn.

(1 Cor. XII. 1—11.)

Elskulegir Brædur! Þér vitid þad, ad þér vórud heidnir og gengud burt til mállausra skurdgoda, svo sem þér vórud tilleiddir. Fyrir því kunngjöri eg ydur, þad enginn sá, sem fyrir Guds Anda talar, formælir Jesú, og enginn fær Drottinn Jesúm kallad, nema fyrir heilagann Anda. Gjafirnar eru margháttadar, en hinn sami er Andinn. Þar eru og marghátttud embætti, en hinn sami er Drottinn. Þar eru og marghattadar verkanir, en hinn sami er Gud, sem verkar alla hluti í öllum. En í sérhverjum einum audsýna sig gjafir Andans til almennilegrar nytsemdar. Ein-

um verdur géfid, fyrir Anda, ad mæla af vitsku, en ødrum verdur géfid ad tala af Kynsemi af hinum sama Anda. Ødrum trúan í semum Anda. Einum gjafir lækníngauna í somum Anda. Ødrum kraptaverk ad gjøra; edrum spádóma, og ødrum ád gjøra adgreiníngu Andanna. Einum ødrum marghättud túngumál. Einum edrum útleggíng túngumálanna; en allt þetta verkar hinn sami Andi, skiptandi sérhverjum eptir því, sem hann vill.

## Gudspjallid.

(Lúk. XIX, 41—48.)

Þegar Jesús kom nær, og hann sá borgina (Jerúsalem), grét hann yfir henni og sagdi: ef þú vissir hvad til þíns fridar heyrdi, þá mundir þú á þessum tíma þar vöktun á hafa, en nú er þad hulid fyrir þínum augum. Þeir dagar munu koma yfir þig, ad óvinir þínir munu byggja hervirki í kríngum þig, umkríngja þig, á alla vegu

ad þér þreyngja og nidur í grunn koll-kasta og þinum børnum med þér; ecki munu þeir í þér láta stein yfir steini vera, af því þú þecktir ecki þinn vitiunar tíma. Jesús géck þá iñ í Musterid, og tók til ad reka þá út, sem seldu og keyptu þar iñi, og sagdi til þeirra: skrifad er: ad mitt hús sé bæna-hús, en þér hafid gjørt þad, sem añad spillvirkja-inni. Hann kéndi hvern dag í Musterinu; en Kénnimanna høfdingjar, Skriftlærdir og þeir yppurstu lýdsins leitudu fast eptir ad fyrirkoma honum, en gátu þad ecki fundid, hvad þeir skyldu gjøra honum; því allt fólkid hné ad honum og hlýddi hans ordum.



# A 11ta Sunnudag eptir Trinitatis.

## Collectan.

Almáttugi, eilífi Gud! hvers miskun ad yfirgengur og gnæfir oss og alla girnd vors hjarta. Vér bidjum: lát þína miskun koma yfir oss og fyrirgéf oss nádarsamlega hvad helzt, sem vor samvitska hrædist og óttast, en gjör betur til vor, enn vér sjálfir vogum ad bidja. Fyrir þinn elskulegann Son, etc.

## Pistillinn.

(1 Cor. XV, 1—10.)

Gódir Brædur! Eg minni ydur á þad Evangelíum, sem eg predikadi ydur, hvert þér medtókud, í hverju þér og hafid stadid, fyrir hvert þér verdid og sáluhólpnir med þeim hætti, sem eg kunngjerdi þad ydur, ef þér hafid því haldid, utan ad svo sé, ad þér hafid til ónýtis trúad; því eg gaf yd-

ur í fyrstu hvad eg medtók, þad, ad Kristur sé líflátinn fyrir vorar syndir, eptir Ritníngunum, og hann sé grafinn og upp aptur risinn á þridja degi, eptir Ritníngunum, og þad hann er sjedur af Cephas og eptir þad af hinum tólf. En þar eptir var hann sjedur meir enn af fimmhundrud brædrum í senn, af hverjum ad margir enn lifa til, en nockrir eru sofnadir. En eptir þad var hann sjedur af Jákobi og þar nærst af ellum Postulunum. En allra sídast er hann sjedur af mér, eins og af ótímabærum burdi; því eg er minnstur Postulanna og ecki verdugur ad eg skuli Postuli heita, fyrir þad, ad eg ofsókn veitti Guds sofnudi; en af Guds nád er eg þad eg er, og hans nád medur mér var ecki til ónýtis.

## Gudspjallid.

(Lúk. XVIII, 9—14.)

Jesús sagdi til nockurra þeirra, sem treystu uppá sjálfa sig, eins og þeir mundu réttlátir vera, en forsmádu adra, þessa eptirlíkíngu:

Tveir menn gengu upp í Musterid ad bidjast fyrir, einn var Pharisæari, en hinn Tollheimtumadur. Phariseærinn stód og badst nú þañig fyrir med sjálfum sér: Gud! eg þacka þér, þad eg er ecki eins og adrir menn, ræningjar, ó réttvíſir, hordóms-menn, eda eins og þeſsi Tollheimtumadur. Eg fasta tvisvar í viku og géf tíundir af öllu því eg á. En Tollheimtumadurinn stód lángt í burtu frá og villdi ecki upplypta augum sínum til himins, heldur bardi hann sér á brjóst og sagdi: Gud! vert þú mér syndugum líknsamur! Sannlega segi eg ydur; þeſsi fór réttlátur framar hinum í sitt hús; því hverr sá, sem sig sjálfann upphefur, hann skal nidurlægjast; en hverr, sem sjálfann sig nidurlægir, hañ mun upphafinn verda.

# Á 12ta Sunnudag eptir Trinitatis.

## Collectan.

Almáttugi, eilífi Gud! af hvers gáfu þad kémur, ad þínir kristnir menn þióna þér réttilega. Vér bidjum: veit þú oss, ad vér án allrar hindrunar, mættum fá og ødlast þad, sem þú hefir lofad. Fyrir þinn eingétinn og elskulegann Son, etc.

## Pistillinn.

(2 Cor. III, 4—9.)

Elskulegir Brædur! Slíkt traust høfum vér til Guds, fyrir Krist, ecki þad vér séum af oss sjálfum til, neytic neckud ad hugleida, svo sem af oss sjálfum til, heldur ef vér erum nockru neytir, þá er þad af Gudi, sá er oss gjerdi hæfilega þénara ens Nýa Testamentis; ecki bókstafsins, heldur Andans; því bókstafurinn deydir, en Andinn

lífgar. — En ef það embætti, sem fyrir bókstafinn deydir og á steinum var grafid, hafdi þann bjartleik, ad Israels synir gátu ecki litid í ásjónu Mósis, fyrir bjartleika sakir hans andlitis, sem þó hefir enda, hverninn skyldi þá ecki miklu meir það embætti, sem Andinn gefur, dýrdlegt vera? Því, ef það embætti, sem fyrirdæminguna predikar, hefir birtu, hve miklu framar mun þá embætti réttlætisins yfirgnæfa í vegsemdinni.

## Gudspjallid.

(Mark. VII, 31—37).

Þegar Jesús fór á burt aptur úr landsálfum Týri og Sidónis, kom hann til sjáfarins í Galílæu, í midjar bygdir þeirra tíu Stada. Þar leiddu þeir til hans mann, sem daufur og málhalltur var og bádu: ad Jesús legdi hendur yfir hann. Jesús vék honum affsidis frá fólkinu; lét fingur sína í eyru hans; hrækti út og áhrærdi hans túngu; leit upp

til himins, andvarpadi og sagdi: Hephata! (þad þydir: opna þig). Jafnsnart upplukust eyru hans, og fjøtur túngunnar upplevstist, svo hann taladi rétt. Jesús baud þeim: ad þeir segdu þad ecki neinum; en því heldur hann bannadi þad, því framar vídfrægdu þeir þad út. Sjálfa þá furdadi þetta mjög og segdu: allt gjerdi hann vel, því daufa lætur hann heyra, og málausa tala.

---

## Á 13da Sunnudag eptir Trinitatis.

### Collectan.

O! þú almáttugi, eilífi Gud! gef oss aukníngu trúarinnar, vonarinnar og kjærleikans, svo vér mættum ödlast þad, sem þú lofar og elska þad, sem þú bjódur. Fyrir þinn, etc.

# Pistillinn.

(Gal. III, 15—22.)

Kjærir Brædur! Eg tala eptir mannlegum plagsid: Enginn ónýtir mannsins Testament, þegar þad er stadfest, né eykur þar vid nockru. Nú eru þó fyrirheitin Abraham tilsegd og hans sædi; ecki segir hann sædunum, eins og séu þau mörg, heldur svo sem um eitt sædi, í þínu sædi, hverr ad er Kristur. En þad segi eg: þad Testament, sem fyrrum er stadfest af Gudi, uppá Krist, verdur ecki ónýtt gjört af Logmálinu, sem géfid var fjórum hundrud og þrjátíu árum þar eptir, svo ad fyrirheitid afmádist. Því, ef arfleifdin yrdi fyrir logmálid áfrekud, þá er hún ecki géfin fyrir fyrirheitid. En Gud hefir fyrir fyrirheitid af nád géfid hana Abraham. Hvar til skal þá logmálid? Þad er tilsett vegna yfirtrodslunnar, þángad til ad kjæmi sædid, hverju fyrirheitid var skéd. Logmálid er skickad af Englunum fyrir hönd Medalgaungu-mannsins; en Medalgaungu-madurinn er ecki eins einasta Medalgaungu-madur, en Gud er einn. Hvad þá? hvert er þá Logmálid í gégn

Guds fyrirheiti? Þad sé fjærri; Því ef Þad legmál være géfid, sem lifgad gæti, sannarlega kiæmi Þá réttlætid út af logmálinu. En Ritníngin hefir alla innilukt undir syndinni, svo ad fyrirheitid af trúnni, á Jesúm Krist gæfist trúudum.

## Gudspjallid.

(Lúk. X. 33 — 37.)

Jesús snéri sér til sinna Lærisveina, og sagdi Þeim einslega: sæl eru Þau augu, sem sjá Þad, er Þér sjáid! Því eg segi ydur: ad margir Spámenn og Konúngar vildu hafa séd Þad, er Þér sjáid, en sáu Þad ecki, og ad heyra Þad, sem Þér heyrid, en Þeir heyrdu Þad ecki. Logvitríngur nockurr stód Þá upp, freistadi Jesú og sagdi: Meistari! hvad skal eg giora svo ad eg eignist eilíft líf? Jesús svaradi: hvad er skrifad í logmálinu? hvernig les Þú? Logvitríngurinn svaradi: elska skaltú Drottinn Gud Þinn af ollu hjarta

þinu, og af allri ondu þiñi, og af ollum mætti þinum, og af ollu hugskoti þinu, og náúnga þiñ eins og sjálfann þig. Jesús sagdi: þú svaradir rétt! gjör þad og muntú lifa. En hiñ vildi réttlæta sjálfañ sig, og spurdi Jesúm: hverr er þá minn náúngi? Jesús svaradi: madur nockurr fór frá Jerúsalem ofan til Jericho, sem hrasadi á medal ræníngja, hverjir ad ræntu hann klædum, lemstrudu sárum og létu hann þar eptir hálf-daudañ liggja. En svo bar til ad Kénnimadur nockurr fór ofan þañ sama veg, og þá er hañ leit hiñ hrasada, géck hañ framhjá honum; þad sama gjördi og Levitinn: því þegar hañ kom nærri þeim stad og sá hann, géck hann þar framhjá. En samverskur madur nockurr fór um farinn veg, kom þar nærri honum, og er hañ leit hann, hrærdist hann af miskun vid hann, géck ad honum,

batt um sár hans, hellti í þau við-
smjøri og víni, lagði hann uppá
sinn eik og flutti til herbergis, gaf
einnig gætur að hönum. En an-
ars dags þar eptir, þá er hañ fór
á burt, tók hann upp tvo peninga,
féck þá húsbúandanum og sagði:
haf þú gát á þeim særða og hvað
þú leggur meira út, það skal eg
borga þegar eg kém aptur. Hverr
þeirra þriggja vyrðist þér vera ná-
úngi þess, sem hrasaður var á meðal
ræníngjaña? Hann svaraði: sá,
sem gjørði miskunarverkið á hönum.
Jesús sagði: far þú og gjør slíkt
hið sama.

# Á 14da Sunnudag eptir Trinitatis.

## Collectan.

Almáttugi, eilífi Gud! sem ad vardveitir Þína heilaga Kristni med Þinni eilífri miskun, af því ad án Þín fellur manulegur veikleiki. Vér bidjum: lát hana fyrir Þína hjálp leidast frá Því, sem henni er skadsamlegt til Þess, sem henni er gágnlegt og heilsusamlegt. Fyrir vorn Drottinn Jesúm Krist, etc.

## Pistillinn.

(Gal V, 16—24)

Elskulegir Brædur! En eg segi ydur, gángid í Andanum, Þá munud Þér ecki fullkomna girndir ydvars holds; Því holdid girnist á móti Andanum og Andinn á móti holdinu, og Þessir eru hverr á móti ødrum, svo ad Þér gjørid ecki hvad Þér viljid. En ef Andinn stjórnar ydur, Þá erud Þér ecki undir løgmálinu. Því holdsins verk eru opinber, sem eru: hórdómur, fridlulifnadur, óhreinleiki, lausúng, skurdgoda-dýrkun, gjølkingi, fjandskapur, hatur, agg, reidi, Þræta, sundurÞyckja, tvídrægni, efundskapur, manndráp, ofdryckja, ofneytsla og Þessum líkt, út af hverjum

eg hefi ádur ſveri ſagt og ſegi enn þá: ad þeir, ſem ſlíkt gjøra, erfa ecki Guds ríki. En ávöxtur Andans er kjærleiki, fögnudur, fridur, þolinmædi, blídleiki, trú, hógværd, bindindi; í gégn ſlíku er ecki lögmálid. En þeir, ſem Kriſti tilheyra, kroſsfeſta ſitt hold med girndum og tilhneigingum.

## Gudſpiallid.

(Lúk. XVII, 11—19.)

Þad ſkédi: þegar Jeſús géck til Jerúſalem, ad hañ ferdadiſt í gégnum midja Samaríu og Galilæu; en þá er haun géck inní kauptún nockurt, mættu honum tíu líkþrá-ir menn, ſem ſtódu lángt frá, hófu upp raddir ſínar og ſøgdu: Jeſú! gódi Meiſtari! miſkunna þú oſs! Þegar Jeſús leit þá, ſagdi hañ til þeirra: farid þér og ſýnid ydur Kéñimoñunum. En þad ſkédi ſvo, þá er þeir gengu þadan, ad þeir urdu hreinir. Eiñ af þeſſum, þegar hañ

fañ sig ordinn heilbrygdann, snéri
aptur, lofandi Gud med hárri rausi,
féll fram á ásjónu sína fyrir fœtur
Jesú, gjörandi honum þackir; en
þessi var samverskur. Jesús sagdi:
hvert vóru ecki tíu hreinsadir? en
hvar-ern þá hinir níu? Enginn
fañst sá, er aptur snéri til ad géfa
Gudi dýrdina, nema þessi útlend-
íngur. Jesús sagdi vid hañ: stattú
upp og far þú hédan, því trú þín
gjördi þig hjálplegann.

## Á 15da Sunnudag eptir Trinitatis.

### Collectan.

Herra, Herra Gud! vér bidjum: lát þína
ydugléga miskunsemi hreinsa og vernda þína al-
mennilega kristni; en af því hún án þín ecki
kann ad verda hólpinn, þá láttú hana med

Þinni náð og gáfu jafnan stiórnast. Fyrir Þinn eingétinn og elskulegann Son, etc.

## Pistillinn.

(Gal. VI, 1—10.)

Elskulegir Bræður! Ef vér lifum í Andanum, þá gaungum einnig í Andanum. Verum ecki ágjarnir hégóma dýrðar, hverr annann innbyrdis að áreita og øfunda. Kiærir Bræður! ef nockurr verður af einhverjum bresti yfirfallinn, þá leiðréttið hann með hógværum anda, þér, sem eruð andlegir, og hafið gát á siálfum yður, að þér verðið ecki freistaðir. Eins beri annars byrði, þá innuð þér uppfylla Krists lögmál. En ef einhverr lætur sér þyckja það hann sé nockuð, þar hann er þó eckert, sá tælir siálfann sig. Hverr og einn reyni sín egin verk, þá mun hann á siálfum sér einúngis hrósun hafa, en ecki á øðrum; því hverr einn mun sína byrði bera; en sá, sem fræddur verður með orðinu, býti hinum allshláttuðum gæðum, sem hann uppfræðir. Farið ecki villir vega, Guð lætur ecki að sér hæða; því hvað maðurinn sáir niður, það mun hann upp-

skéra. Hverr, sem í holdinu niðursáir, sá mun af holdinu skaðsemi uppskéra; en hverr, sem í Andanum niðursáir, sá mun af Andanum uppskéra eilíft líf. Þreytumst ecki gott að gjöra, því á sínum tíma munum vér uppskéra óþreyttir. Þar fyrir, á meðan vér höfum tímann, þá gjörum gott hverjum manni, einna mest þeim, sem eru trúarinnar heimkynnis.

## Guðspjallið.

(Matth. VI, 24—32)

Jesús sagði við sína Lærisveina: Enginn kann tveimur Herrum að þjóna, því annaðhvert afrækir hann þann eina og elskar hinn annann, eða aðhyllist þann eina og fyrirlítur hinn annann; þér getið ecki undir eins þjónað Guði og Mammónt. Þar fyrir segi eg yður: verið ecki hugsjúkir fyrir yðru lífi, hvað þér skuluð eta og drecka, ecki heldur fyrir yðar líkama, hverju þér skuluð klæðast; eða, er ecki lífið meira

enn fædslan og líkhaminn meiri eñ klædnadurinn? Litid á himinsins fugla, sem hverki sá né uppskéra, ecki heldur safna þeir í kornhlødur, þó fædir ydar himneski Fadir þá; eda, erud þér ecki miklu ypparlegri enn þeir? en hverr ydar gétur, med áhyggju sinni, aukid einni alin vid léngd sína? Én vegna hvers erud þér hugsjúkir fyrir klædnadinum? Hyggid ad akursins lilju-grøsum hvernig þau vaxa, hverki vinña þau né spiña; en þad segi eg ydur: ad Salómon í allri siñi dýrd, var ecki svo skrýddur, sem eitt af þeim; en ef Gud klædir svo grasid, sem í dag er á akrinum, en á morgun verdur kastad í ofn, skyldi hann ecki miklu heldur þad sama vid ydur gjøra? ó! þér litiltrúadir! Þér skulud því ecki hugsjúkir vera svo segjandi: hvad egum ver ad eta? hvad egum vér ad drecka? med hverju egum vér ad klædast? — því eptir øllu

þessu leita heidnar þjódir — en ydar himneski Fadir veit, ad þér þurfid alls þessa vid. Þess vegna leitid fyrst Guds ríkis og svo hans réttlætis, þá mun ydur allt þetta tilleggjast. Þér skulud því ecki bera áhyggju fyrir morgundeginum, því hann mun sjálfur bera umhyggju fyrir sér; hverjum degi nægir sín þjáning.

---

# Á 16da Sunnudag eptir Trinitatis.

## Collectan.

Heyr, almáttugi, eilífi Gud! vér bidjum: lát þína nád ætíd vera yfir oss á bak og brjóst, svo vér séum þér réttilega undirgefnir, og uppvek vor hjörtu ad girnast þá nád, ad vér séum reidubúnir til allra gódra verka. Fyrir þinn, etc.

# Pistillinn.

(Eph. III. 13—21).

Elskulegir Brædur! Eg bid ydur ad þér tregist ecki sakir minna hormúnga, sem eg líd fyrir ydur, sem ydar dýrd er. Þess vegna beygi eg mín kné fyrir Fødur vors Drottins Jesú Krists, af hverjum er allt þad, sem børn kallast á himni og á jørdu, ad' haim géfi ydur, eptir ríkdómi sinnar dýrdar, ad styrkjast í krapti, fyrir hans Anda, í hinum innra manni, svo Kristur, fyrir trúna, byggi í ydrum hjørtum. Ad þér séud rótfestir og grundvalladir í kjærleikanum, svo þér mættud høndla, med øllum heilegum, hver ad sé vídd og lengd, dýpt og hæd, líka ad vita kjærleika Krists, sem alla þeckíngu yfirgengur, svo þér uppfylltust med allshåttadri Guds fyllíngu. En honum, sem máttugur er alla hluti yfirgnæfanlegar ad gjøra, heldur enn vér bidjum eda skiljum, eptir þeim krapti, sem í oss verkar, þeim sama sé dýrd í søfnudinum, fá í Jesú Kristi er, um aldir alda, Amen!

## Gudspjallid.
(Lúk. VII, 11—17.)

Þad skédi, ad Jesús géck til þeirrar borgar, sem kalladist Nain; hans Lærisveinar gengu margir med honum og mikill fjøldi añars fólks. Þegar hañ nálægdist borgarhlidid, þá var framlidinn madur borinn út, einka sonur módur sinnar, sem var eckja, og mikill fjøldi borgarmanna géck út med henni. En þegar Jesús leit hana, hrærdist hann miskunar yfir henni og sagdi vid hana: grát þú ecki! Hañ géck þar ad, áhrærdi kistuna — en þeir, sem báru, stódu vid — og sagdi: þú, úngmenni! eg segi þér: rís þú upp! Sá settist upp, sem framlidinn var og tók til ad mæla, en Jesús gaf hañ aptur módiriñi. Allir urdu óttaslegnir, lofudu Gud og søgdu: Spámadur mikill er á medal vor upprisinn og Gud hefir vit-

þad síns fólks! En þessi saga barst út af honum um allt Gydíngaland og um øll kríngumliggjandi héred.

## Á 17da Sunnudag eptir Trinitatis.

### Collectan.

Heyr, Herra Gud! vér bidjum þig: veit þínu fólki ad flýa Djøfulsins áeggjunn, og þér einungis samann af hreinu hjarta eptir ad fylgja. Fyrir þinn, etc.

### Pistillinn.

(Eph. IV, 1—6.)

Elskulegir Brædur! Svo áminni eg ydur nú, eg, bandíngi í Drottni: ad þér gángid eins og verdugt er ydvarri køllun, þar þér erud inni kalladir, med øllu lítillæti og hógværd og þolinmædi og umlídid hverr

annann í kjærleika. Verid kostgæfnir ad halda eindrægni í Andanum fyrir band fridarins. Einn líkhami og einn Andi, eins og þér erud kalladir í einni von ydrar køllunar. Einn Drottinn, ein trú, ein skírn, einn Gud og Fadir allra, sem er yfir ydur øllum, medal ydar allra og í ydur øllum.

## Gudspjallid.

(Lúk. XIV, 1—11.)

Pad skédi: ad Jesús kom í hús nockurs Phariseara Hofdingja á þvottdegi, brauds ad neyta, og peir hofdu vardhald á honum. En svo bar til, ad vatnssjúkur madur nockurr var þar framnni fyrir honum. Jesús spurdi Løgvitringana og Phariseana: er þad leyfilegt ad lækna á þvottdogum? Peir þøgdu. Jesús tok á hinum vatnssjúka, læknadi hann og lét hann svo ó burtu fara; en sagdi vid þá: hvers ydar asni edur naut, sem fellur í pytt,

er þad ecki jafnsnart uppdregid á þvottdegi? en — til þess gátu þeir engu svarad. Jesús sagdi þá þessa eptirlíkíngu til þeirra, sem bodnir vóru — þegar hann merkti hvernig þeir møttust eptir ennm ædstu sætum — Þegar þú verdur bodiñ af einhverjum til brúdkaups, þá set þig ecki í hid ædsta sæti; máské annar heidurlegri enn þú, sé bodiñ af honum, og sá komi, sem þér band og honum og segi vid þig: géf þessum rúm! og hljótir þú svo med kinnroda, ad hafa hid ytsta sæti. Heldur svo: þegar þú verdur bodinn, þá set þig í hinn ytsta sess, svo þegar sá kémur, sem þér band, segi vid þig: vinur! þoka þér upp betur! þá mun þér vyrdíng veitast af þínum sessunautum; því — hverr sig sjálfur upphefur, hann mun nidurlægjast, og hverr, sem sig lítillætir, hañ skal upphafiñ verda.

H

# Á 18da Sunnudag eptir Trinitatis.

## Collectan.

Herr, Herra Gud! vér bidjum: lát þitt miskunarverk stjóra vorum hjørtum; því án þín megnum vér ecki ad þóknast þér. Fyrir þiñ, etc.

## Pistillinn.

(1 Cor. 1; 4—9)

Elskulégir Brædur! Packir gjøri eg Gudi mínum jáfuan ydar vegna, fyrir þá Guds nád, sem ydur er géfin í Jesú Kristi, ad þér erud í øllum hlutum audugir vordnir í honum, í ellu ordi og í allri þeckíngu, eptir því, sem sá vitnisburdur Jesú Krists er stadfastur ordinn í ydur, svo þér hafid engann brest á nockri gjøf, eptirbídandi auglýsíngu vors Drottins Jesú Krists, hverr einnig mun til enda stadfesta ydur

óstraffanlega til dagsins Drottins vors Jesú Krists.

## Gudspiallid.

(Matth. XXII, 34—49.)

Þegar Pharisæarnir heyrdu þad, ad Jesús hafdi nidur-þaggad Saducæana, samansofnudust þeir í eitt. Løgvitringur nockurr af þeim spurdi Jesum ad, freistandi hans og sagdi: Meistari! hvert er hid ædsta bodord í løgmálinu? Jesús svaradi: þad, ad þú skalt elska Drottinn Gud þinn af øllu hjarta þínu, og af allri øndu þinni, og af øllu hugskoti þinu. Þetta er hid fyrsta og stærsta bodord; en hid annad er þessu líkt, þad: ad elska skalt þú náunga þinn eins og sjálfan þig; í þessum tveimur bodordum er innibundid allt Løgmálid og Spámennirnir. En þá Pharisæarnir vóru

til samans komnir, spurdi Jesús þá ad og sagdi: hvad vyrdist ydur um Krist, hvers Son hañ sé? þeir svørudu honum: Davids. Jesús spurdi þá aptur: hvernig kallar David hañ þá, í anda, Herra, þegar hañ segir: Drottiñ sagdi mínum Drottni: sit þú mér til hægri handar, þángad til eg legg óvini þína skør fóta þiña? Nú, ef David kallar hañ Herra, hverniñ er hañ þá hans Sonur? En engiñ gat svarad honum einu ordi, ecki heldur dirfdist nockurr upp frá þeim degi hañ framar ad spyrja.

---

## A 19da Sunnudag eptir Trinitatis.

### Collectan.

Heyr, almáttugi og miskunsamt Gud! útibyrg þú miskunsamlega alla þá hluti, sem oss



eru mótstædilegir, svo ad vér lídugir á sálu og lífi mættum í þeim hlutum, sem þér tilheyra, med lostngum hug og hjarta þér eptirfylgja og þócknast. Fyrir þinn eingetinn og elskulegann Son, etc.

## Pistillinn.

(Eph. IV. 22—28).

Kjærir Brædur! Afleggid frá ydur, eptir fornri breytni hinn gamla manninn, fordjarfadann í girndum villudómsins, en endurnýist í anda ydvars hugskots og íklædist þeim nýa manni, sem eptir Gudi er skapadur í réttlæti og heilagleika sannleiksins. Þess vegna afleggid lygar og talid sannleika hverr og einn vid náúnga sinn, þar vér erum hverr annars limur innbyrdis. Reidist, en syndgid ecki; látid ecki sólina undirgánga yfir ydvarri reidi; géfid ecki rúm Djöflinum; hverr stolid hefir, steli hann ecki meir, heldur ervidi og afli med höndunum þad gott er, svo hann hafi ad géfa þeim, sem þurftugir eru.

## Gudspjallid.

(Matth. IX, 1—8)

Jesús sté á skip, fór yfirum aptur og kom í sína borg. Þeir færdu þar til hans limafallssjúkañ mañ, sem lá í reckju sinni. En þegar Jesús leit þeirra trú, sagdi hann vid þañ limafallssjúka: Vertú hug-hraustur, Sonur! þér eru þínar syndir fyrirgéfnar! Nockrir af Skriftlærdum segdu med sjálfum sér: þessi gudlastar; en er Jesús sá þeirra hugrenníngar, sagdi hann: því hugsid þér svo vondt í ydar hjörtum? hvert er audveldara ad segja: þér eru þínar syndir fyrir-géfnar? ellegar ad segja: statt upp og gack? En svo ad þér vitid, ad Mañsins Sonur hefir makt á jördu til ad fyrigéfa syndirnar, þá — sagdi hann vid þañ limafalls-sjúka — statt upp, tak í burt sæng þína og gack í þitt hús. Hann stód upp

og fór í sitt hús. En þegar fólkid sá þetta, undradist þad, prísandi Gud, sem þvílíka makt hefdi monnunum gésid.

## A 20ta Sunnudag eptir Trinitatis.

### Collectan.

Heyr, Herra Gud! vér bidjum: veit þú mildilega þínum trúlyndum líkn og nád, svo bædi hreinsist þeir af sínum syndum og med hreinu hjarta þér þjóni. Fyrir þinn, etc.

### Pistillinn.

(Eph. V, 15—21.)

Gódir Brædur! Sjáid svo til ad þér gángid forsjállega, ecki eins og fávísir, heldur eins og vísir. Takid vara á tímanum, því þad er vond tíd. Verid því ecki óforsjálir,

heldur ſkiljid hverr ad ſé vilji Drottins. Dreckid ydur ecki víndrucknu, því þar af kémur ſaurugt líferni, heldur uppfylliſt med anda og talid hverr vid annann af ſálmum og loſſaungum og andlegum qvædum, ſýngjandi og ſpilandi Drottni í ydrum hjørtum, og gjørid þackir alla tíma Gudi Fødur fyrir alla hluti, í nafni Drottins vors Jeſú Kriſts, og verid hverr ødrum undirgéfnir í Guds ótta.

## Gudſpjallid.
(Matth. XXII, 1—14)

Jeſús taladi í annad ſinn í eptirlíkíngum til Pharíſæanna og ſagdi: Himnaríki er líkt þeim Konúngi, ſem brúdkaup gjørdi ſyni ſínum, og ſendi út þjóna ſína ad kalla bodsmennina til brúdkaupſins, en þeir vildu ecki koma. Í annad ſinn ſendi hann út adra þjóna og ſagdi: ſegid þér bodsmønnunum: ſjáid! mína máltíd hefi eg tilbúid, uxar mínir og alid fé er ſlátrad og allt

er reidubúid, komid til brúdkaups-
ins! En þeir forsmádu þad og
gengu á burt, einn á sinn búgard,
en annar til verdslunar sinnar; en
hinir adrir gripu þjónana, logdu
þeim hádúngar til og drápu þá.
Þegar Konúngurinn heyrdi þetta,
vard hann reidur, sendi út herlid
sitt, fyrifór þessum mordíngjum og
brenndi upp borg þeirra. Þar
eptir sagdi hann til þjóna sinna:
brúdkaupid er ad sonnu reidubúid,
en þeir, sem vóru bodnir, vóru þess
ecki verdugir; farid því út á gatna-
mótin og bjódid til brúdkaupsins
hverjum, sem þér finnid. Þjón-
arnir gengu út á strætin, saman-
sofnudu ollum, sem þeir fundu,
vondum og gódum, svo brúdkaupid
vard fullt med bordsett fólk. En
þá er Konúngurinn gécк inn ad sjá
þá, sem til bordsins sátu, leit hañ
þar einn mann, ecki skrýddañ brúd-
kaups klædi og sagdi til hans: vin-

ur! hvernig geckst þú inn hingad, hafandi ecki brúdkaups klædi? En, hann þagdi. Þá sagdi Konúngurinn til þjóna sinna: bindid hans hendur og fætur og kastid honum út í hin ytstu myrkur, þar sem vera mun óp og tannagnýstran; þvíad margir eru kalladir, en fáir útvaldir.

## A 21ta Sunnudag eptir Trinitatis.

### Collectan.

Herr, Herra Gud! vér bidjum: vardveit þitt lýd med jafnlegri miskun þinni, og ad hann mætti, fyrir þína hlísd, verda frjáls frá öllum mótstædilegum hlutum, og med gódu framferdi þínu nafni ydugslega þjóna. Fyrir þinn elskulegann Son, etc.

# Pistillinn.

(Eph. VI. 10—17.)

Elskulegir Brædur! Styrkist í Drottni og í mætti hans kraptar. Iklædid ydur Guds alvepni, svo þér fáid mótstadid Djøfulsins umsátrum; því vér høfum ecki vid hold og blód ad berjast, heldur vid høfdíngjadæmi og maktarveldi, vid Drottna veraldarinnar, vid myrkranna stjórnendur þessa heims, vidur íllsku anda í loptinu. Þar fyrir takid alvepni Guds uppá ydur, svo ad þér gétid mótstødu veitt á þeim vonda degi, allt vel feamqvæmid og fáid sigurinn. Svo standid nú umgirdtir ydar lendar med sannleikanum, skrýddir brynju réttlætisins og um fæturnar skófatadir, svo sem reidubúnir fram ad fylgja Evangelió fridarins. En umfram alla hluti, þá medtakid skjold trúarinnar, med hverjum þér kunnid út ad slecky a øll eldleg skeyti hins prettvísa, og grípid hjálm hjálpræðisins og sverd Andans, hvert ad er Guds ord.



## Gudspjallid.

(Jóh. IV, 47—53.)

Þar var Konúngs-madur neckurr, hvers sonur lá sjúkur í Kapernaum. Þegar hann heyrdi ad Jesús var kominn af Gydíngalandi í Galíleu, fór hann til Jesú og bad hann: ad hann færi ofan þángad og læknadi son sinn, því hann væri ad meſtu daudur. Jesús svaradi: nema þér sjáid teikn og stórmerki, trúid þér ecki. Konúngs madurinn sagdi: Herra! far þú ofan ádur sonur minn andast. Jesús sagdi þá vid hann: far þú! sonur þinn lifir. Madurinn trúdi þeim ordum, sem Jesús sagdi honum og géck þadan; en þegar hann fór ofaneptir gengu þjónar hans á móti honum, kunngjördu honum og sögdu: sonur þinn lifir! Hann spurdi þá ad: á hverjum tíma honum hefdi batnad? Þeir svörudu: í gjær um

sjoundu stundu hvarf kaldan frá honum. Þá formerkti Fadirinn, ad þad var um þañ tíma, á hverjum Jesús hafdi sagt: sonur þinn lifir! Og hann trúdi og allt hans heimafólk.

## Á 22añ Sunnudag eptir Trinitatis.

### Collectan.

O! Herra Gud! sem ert vort skjól og styrkur, vertu nálægur gudlegum bænum þinnar almennilegn kristni, og hvad helst, sem vér þig réttilega umbidjum, mættum þad miskunsamlega fá og ödlast. Fyrir þinn, etc.

### Pistillinn.

(Phil. 1, 3—11.)

Elskulegir Brædur! Eg em þess ens sama í gódu trausti, ad sá, sem í ydur

hefir uppbyrjad hid góda verkid, hann mun pad einnig fullkomna allt til dagsins Jesú Krists. Svo sem mér er tilheyrilegt ad eg meini um ydur alla, því eg ber ydur alla í mínu hjarta. Í mínum fjetrum og í forsvari og styrkíngu Evangelii, ydur alla, sem med mér erud nádarinnar hluttakendur. Því Gud er minn vottur, hve mjøg eg elska ydur í ydrum Jesú Kristi. Pess sama bid eg, pad ydar kjærleiki yfirgnæfi meir og meir í allri vitsku og allri reynslu, svo þér megid reyna hvad best er, uppá pad þér séud skírir og án hneixlunar, allt til þess dags Krists, fullir med ávøxtu réttlætisins, hver:jir ad ské fyrir Jesúm Krist, til dýrdar og lofs Gudi.

## Gudspjallid.

(Matth. XVIII, 23—35.)

Jesús sagdi vid sína Lærisveina: Himnaríki er líkt þeim Kongúngi, sem reikna vildi vid þjóna sína, en er hann tók til ad reikna, kom einn fyrir hann, sem honum var skyldugur um tíu þúsundir punda; en

þar hann hafdi þad ecki til, sem skyldi gjalda, baud Konúngurinn ad selja hann, konu hans og börn og allt, sem hañ ætti, til ad borga þar med. Þjóniñ féll fram, bad hann og sagdi: haf þolinmædi vid mig, allt skal eg gjalda þér! Konúngurinn sá aumur á þeim þjóni, lét hañ lausann og gaf honum upp alla skuldina. En er hann géck út, hitti hann einn af samlags þjónum sínum, sem átti ad gjalda honum hundrad peninga; þañ sama handtók hann, greip fyrir qverkar honum og sagdi: gjald þad, þú ert mér skyldugur! Samlags þjóninn féll til fóta hans, bad hañ og sagdi: hafdú þolinmædi vid mig, allt skal eg gjalda þér! En hann vildi ecki, heldur fór á burtu og lét hañ í dýblissu, uns hann hafdi borgad sína skuld. Þegar samþjónar hans sáu hvad skédi, urdu þeir mjög hryggvir, fóru og kunngjördu Konúng-

inum þad, sem gjorst hafdi. Þá kalladi Konúngur hann fyri sig og sagdi: þú, íllur þjón! alla þína skuld gaf eg þér upp, af því þú badst mig; hvert bar þér þá ecki miskunsom-um ad vera vid þiñ samlags þjón, eins og eg var þér miskunsamur? Konúngurinn vard reidur og ofur-seldi þañ þjón qvolurunum, þáng-ad til hañ hafdi borgad allt þad, sem hañ var skyldugur. Svo mun og miñ himneski Fadir gjora vid ydur, ef ad hverr og einn ydar fyrir-géfur ecki af hjarta bródur sínum hans misgjordir.

---

## A allra heilagra Messu.

### Collectan.

Heyr, þú almáttugi, eilífi Gud! sem vildir heilaga gjora alla þína útvalda og elskulega, í

þínum eingetna og elskulega Syni; láttú oss þeirra trú, von og kiærleika eptirfylgja, svo ad vér med þeim mættum verda sáluhólpnir. Fyrir þinn eingétinn og elskulegann Son, etc.

## Pistillinn.

(Jóh. Opinb. VII, 1—12.)

Eptir þad sá eg fióra Engla standa á fiórum hornum jardarinnar, og þeir innihéldu fiórum vindum jardarinnar, svo ad enginn vindur blés á jördina, né á sióinn, né á nockurt tré. Og eg sá annann Engil uppstíga af uppgaungu sólarinnar, sá hafdi innsigli lifanda Guds. Hann kalladi hárri roddu til hinna fiegra Englanna, hverjum géfid var ad granda jördunni og siónum og sagdi: grandid ecki jördunni, ecki siónum né triánum, á medan vér innsiglum þióna vors Guds í þeirra ennum. Eg heyrdi og tölu þeirra, sem innsiglador vóru: hundrad, fiórar og fiörutíu þúsundir vóru innsigladir í allri kynqvísl Israels sona. Af kyni Júda tólf þúsundir innsigladir. Af kyni Rúbens tólf þúsundir innsigladir. Af kyni Gads tólf þúsundir innsigladir. Af kyni Assers tólf

þúsundir innsigladir. Af kyni Nephtalims tólf þúsundir innsigladir. Af kyni Manasse tólf þúsundir innsigladir. Af kyni Símeons tólf þúsundir innsigladir. Af kyni Levi tólf þúsundir innsigladir. Af kyni Isaschars tólf þúsundir innsigladir. Af kyni Zabúlons tólf þúsundir innsigladir. Af kyni Jósephs tólf þúsundir innsigladir. Af kyni Benjamíns tólf þúsundir innsigladir. En eptir þad sá eg, ad skari mikill, hvern enginn gat talid, af öllum kynqvíslum, þjódum og fólki og túngumálum, stód frammi fyrir stólnum og lambinu, umskrýddur hvítum skrúda og pálmavidur var í hendum þeirra. Þeir kölludu hárri röddu og segdu: heilsa sé þeim, sem á stólnum situr, vorum Gudi og lambinu. En allir Englar stódu umhverfis stólinn og kríngum Öldúngana og um kríng þau fjegur dýrin, fjellu nidur fyrir stólnum fram á þeirra ásjánir og tilbádu Gud og segdu: Amen! lof og dýrd og speki og þackir og heidur og kraptur og styrkleiki sé vorum Gudi um aldir og ad eilífu, Amen!



## Gudspjallid.

(Matth. V, 1—12.)

Þegar Jesús leit fólkid, géck hañ uppá fjallid; en þá er hann settt sig nidur, gengu Lærisveinarnir til hans. Jesús taladi til þeirra og sagdi: Sælir eru þeir, sem andlega eru voladir! því þeirra er himnaríki. Sælir eru þeir, sem harma! því þeir munu huggadir verda. Sælir eru hógværir! því þeir munu jardríkid erfa. Sælir eru þeir, sem húngra og þyrsta eptir réttlætinu! því þeir skulu saddir verda. Sælir eru miskunsamir! því þeir munu miskun odlast. Sælir eru hreinhjartadir! því þeir munu Gud sjá. Sælir eru þeir, sem fridinn semja! því þeir munu Guds born kalladir verda. Sælir eru þeir, sem fyrir réttlætisins sakir offsoktir verda! því þeirra er himnaríki. Sælir erud þér, þegar menn hall-

mæla ydur og ofsókn veita og tala í gégn ydur alla vondsku, fyri mínar sakir, þó ljúgandi! fagnid þér og verid gladir, því ydar verdkaup er mikid á himnum Þannig ofsóktu þeir þá Spámenn, sem fyrir ydur vóru.

---

# A 23ja Sunnudag eptir Trinitatis.

## Collectan.

Herr, Herra Gud! vér bidjum: afleys syndir þíns fólks og lát oss af vorum syndabøndum, sem vér, sakir vors breiskleika, erum bundnir, med þinni mildi leysast. Fyrir þinn, etc.

## Pistillinn.

(Phil. III, 17—21)

Kjærir Brædur! Verid mínir eptirbreytendur og gætid ad þeim, sem svo gánga,

líka sem þér hafid oss til fyrimindar; því margir gánga svo, af hverjum eg hefi optsinnis sagt ydur, en nú segi eg ydur grátandi: þeir óvinir krossins Krísts, hverra afdlok er fyrirdæmíngin, hverra Gud maginn er, og þeirra vegsemd, sem jardlega sinnadir eru, verdur til skammar. En vor borgararéttur er á himni, hvadan vér væntum Frelsarans Drottins vors Jesú Krísts, sá ed vorn fáfengann líkhama mun forklára, svo hann líkur verdi hans forklárudum líkhama, eptir þeim krapti, sem hann kann sér alla hluti med undirgéfna ad gjöra.

## Gudspjallid.

(Matth. XXII, 15—22.)

Pharísæarnir gengu á burt og héldu rád, hvernig þeir fengi veidt Jesúm í ordum. Þeir sendu til hans Lærisveina sína med Heródesar þénurum og létu segja honum: Meistari! vér vitum ad þú ert sannsögull, kénnir Guds götu í sannleika og skeytir ecki nockrum, því

þú fer ecki ad mannvyrdíngum. Þar fyrir seig þú ofs hvad þér lítst: Hvert leyfist ad géfa Keisaranum skatt eda ecki? En þegar Jesús merkti vondsku þeirra, sagdi hañ: hvad freistid þér min? hræsnarar! sýnid mér myntina skattsins. Þeir feingu honum eiñ pening. Jesús spurdi þá: hvers mind og yfirskrift er þetta? Þeir svörudu: Keisarans. Jesús sagdi þeim: gefid þá Keisaranum hvad Keisarans er, og þad Gudi hvad Guds er. En þegar þeir heyrdu þetta, undrudust þeir, yfirgáfu hann og gengu á burt.

---

## Á 24da Sunnudag eptir Trinitatis.

## Collectan.

Eilífi, almáttugi Gud! sýndú þínum útvöldum börnum gædsku þinnar eilífrar miskunar, svo ad þau mættu hafa huga og vilja til þín, og ad þeirra hjörtu séu reidubúin til allra gódra verka og þróist í öllu því, sem þér vel þóknast. Fyrir þinn elskulegann Son, etc.

## Pistillinn.

(Coloss. I, 9—14.)

Elskulegir Brædur! Þar fyrir vér einninn, allt frá þeim degi. þá vér höfdum þad heyrt, ljetum vér ecki af fyrir ydur ad bidja og beidast, ad þér uppfyllist med þeckíngu hans vilja og allsháttudum andlegum vísdómi og skilníngi, svo ad þér gángid í þeckíngu Drottni verduglega til allrar þócknunar. Ad þér séud ávaxtarsamir í öllum gódum verkum, farid vaxandi í þeckíngu Guds og styrkist í öllum krapti, eptir mætti hans dýrdar, í allri þolinmædi og lánglundar-gédi med fögnudi, gjerandi þackir Födurnum, sem oss hefir skapfellega gjört til ad ödlast hlutskipti heilagra, í ljósinu. Sá ed oss hefir frelsad af yfir-

valdi myrkranna og hefir sett oss í ríki síns elskulega Sonar, í hverjum vér hefum endurlausnina fyrir hans blód, sem er syndanna fyrirgéfníng.

## Gudspjallid.

(Matth. IX, 18—26.)

Þegar Jesús taladi þetta til þeirra, kom þar ad Hofdíngi nockurr, sem bad hañ og sagdi: Dóttir mín er nýsálud, en kom þú og legg hönd þína yfir hana, og mun hún lifa. Jesús stód upp og fylgdi honum, og líka hans Lærisveinar. En kona nockur, hver ed hafdi blódfall haft í tólf ár, géck á bak til vid Jesúm og snerti fald klædnadar hans; því hún sagdi vid sjálfa sig: mætti eg ad eins snerta klædnad hans, mundi eg verda heilbrygd. Jesus snéri sér vid, leit til hennar og sagdi: vertú hughraust, Dóttir! trú þín gjördi þig heilbrygda, og

á sömu stundu vard konan heilbrygd. En þegar Jesús kom inn í Höfdingjans hús, og sá þar lúdurþeytara og buldrun fólksins, sagdi hann: vikid á burt, því stúlkan er ecki daud heldur sefur hún; en þeir dárudu hann. Þegar fólkid var komid út géck Jesús þar inn, tók um hönd stúlkunnar og hún stód upp. Þetta rycktist barst út um allt þad sama land.

---

## Á 25ta Sunnudag eptir Trinitatis.

---

### Collectan.

Drottinn Gud, himneski Fadir! tjá þú oss auмum og syndugum þína miskunsemi. Og eptir því vér megum ecki reida oss uppá vora verdskuldun, heldur einúngis treysta þinni nád-

svo ad vér ecki skulum falla í þann stránga dóm, ad vér þá mættum leysast þar frá, fyrir þína náð og miskunsemi. Fyrir þinn elskulegann, Son, etc.

## Pistillinn.

(1 Thess. IV, 13—18.)

Elskulegir Brædur! En vér viljum ecki dylja, fyrir ydur, um þá, sem sofa, uppá þad, ad þér séud ecki hriggvir, eins og þeir adrir, sem enga von hafa. Því ef vér trúum, ad Jesús sé dáinn og upp aptur risinn, svo mun og Gud einnig þá, sem sofnadir eru, fyrir Jesúm, med honum framleida; því þad segjum vér ydur, svo sem ord Drottins, ad vér, sem lifum og eptir blífum í tilkomu Drottins, vér munum ecki fyrir þeim koma, sem sofnadir eru; því Drottinn sjálfur mun med hrópi, Hefud-engilsins raustu og lúdri Guds, ofankoma af himnum og hinir daudu í Kristi skulu fyrst uppríssa. Eptirá vér, sem lifum og eptirbídum, verdum undireins upprycktir med þeim sömu í skýin til móts vid Drottinn í loptid, og munum svo hjá Drottni vera alla tíma. Þar fyrir hugg-

ið nú hverr annann innbyrðis með þessum orðum.

## Guðspjallið.

(Matth XXIV, 15—28.)

Jesús sagði við sína Lærisveina: Þegar þér sjáið svívyrðíngu foreyðslunnar standandi í helgum stað, af hverri sagt er fyrir Spámanninum Daniel; hverr, sem það les, hann hyggi þar að! Hverjir þá eru á Gyðingalandi, flýi þeir á fiøll, og hverr, sem er á ríáfri, fari hann ecki ofan, til að taka nockuð úr húsi sínu, og hverr, sem er á akri, snúi hann ecki heim aptur, til að taka klæði sín. En— vej þúngudum og brjóstmylkíngum á þeim døgum! Biðjið: að yðar flótti verði ecki um vetur, og ecki á þvottdegi, því þá mun verða svo mikil hørmúng, að þvílík var ecki frá veraldar upp-

hafi til þessarar stundar, og ecki heldur mun verda, og nema þess-ir dagar verdi styttir, verdur eckert hold hólpid; en fyrir útvaldra sak-ir skulu þeir styttast. Ef nockurr segir þá til ydar: hér er Kristur eda þar, þá skulud þér ecki trúa því, þar upp munu rísa Fals-kristar og Fals-spámenn, sem gjöra munu mikil tákn og undur, svo í villu munu leidast, ef mögulegt væri, jafnvel útvaldir. Sjáid! eg sagdi ydur þad fyrir. Þar fyrir, ef sagt er vid ydur: sjáid! hann er á eydi-mörku! þá gángid ecki út þángad; sjáid! hañ er í laun-kofum! þá trú-id því ecki. Því eins og eldíng út-gengur af uppgaungu og skín allt til nidurgaungu, svo mun og verda tilkoma Mañsins Sonar; því hvar helzt sem hræid er, þángad munu og ernirnir safnast.



# A 26ta Sunnudag eptir Trinitatis.

## Collectan.

Heyr þú, miskunsami, eilífi Gud, himneski Fadir! vér bidjum þig: ad þú viljir uppvekja oss, svo ad vér mættum med allri ástundun framgánga í kristilegum gódum verkum, en jafnan styrkjast í þér og í øllum gudlegum hlutum. Fyrir þinn elskulegann Son, etc.

## Pistillinn.

(1 Thess. V. 12—23.)

En vér bidjum ydur, Brædur! ad þekkja þá, sem erfida á medal ydar og eru ydar forstødu-menn í Drottni og áminna ydur, og halda þá, eins og þá, sem ysirstjórnarlega ega ad elskast fyrir þeirra verks sakir. Verid fridsamir innbyrdis. En vér áminnum ydur, Brædur! áminnid ósidsama; huggid ístødulitla; stydjid veika;

verid þolinmódir vid alla; sjáid til ad enginn gjaldi nockrum íllt fyrir íllt, heldur keppist ætíd eptir enu góda, bædi innbyrdis og vid alla. Verid jafnan gladir; bidjid án afláts; verid í ollu þacklátir; því þad er vilji Guds í Kristi Jesú til ydar. Utslockvid ecki Andann; foraktid ecki spádómana; prófid alla hluti og haldid enu góda; fordíst allt, sem hefir íllt álit. En sjálfur Gud fridarins helgi ydur eldúngis og gjorvallur ydar andi og sál og líkhami vardveitist óstraffanlega í tilkomu Drottins vors Jesú Krists.

## Gudspjallid.

(Matth. XI, 25—30.)

A þeim sama tíma sagdi Jesús: Eg þacka þér, Fadir og Drottinn himins og jardar! ad þú duldir þetta fyrir Spekíngum og Vitríngum, en opinberadir þad Smælíngjum! Ad sonnu, Fadir! var þér þad svo þægilegt. Allir hlútir eru mér í vald géfnir af Fodur

minum. Enginn þeckir Soninn nema Fadirinn, og enginn þeckir Fodurinn nema Sonurinn og þeir, sem hañ vill þad kuñgjera. Komid til mín allir þér, sem erfidid og erud þúnga hladnir, eg skal endurnæra ydur! Takid á ydur mitt ok og lærid af mér; þvi eg er hógvær og af hjarta lítillátur, og munud þér finna hvild sálum ydar; því mitt ok er sætt og mín byrdi létt.

---

## Á 27da Sunnudag eptir Trinitatis.

---

Collecta, Pistill og Gudspjall stendur á 6ta Sunnudag eptir Prettánda.

(sjá bls. 42—45.)



# Jesú Krists
# Píslar Saga,
eptir þeim
fjórum Guðspjallamønnum
samanlesin.

## Fyrsti Partur.

Þegar Jesús og hans Lærisvein-ar, eptir qvøld-máltíðina, høfðu lofsaunginn súngið, géck hann út ásamt þeim, eins og hann var vanur, yfirum lækinn Kedron til Olíu-fjallsins. Hann sagði þá til þeirra: á þessari nóttu munuð þér allir hneixlast á mér; því skrif-að er: hirðirinn mun eg slá, og sauðir hjarðarinnar munu sundur-

tvistrast, en þegar eg rís upp apt-
ur, mun eg birtast ydur í Galí-
lœu. Pétur svaradi: þó allir
hneixlist sig á þér, skal eg þó aldrej
hneixlast. Jesús sagdi: sannlega
segi eg þér: ad í dag, ádur en han-
inn galar tvisvar, munt þú afneita
mér þrisvar. Pétur taladi þá enn
frekar og sagdi: já, þó eg ætti ad
deya med þér, skal eg ecki afneita
þér; hid sama søgdu og allir Lœri-
sveinarnir. Þá kom Jesús med
þeim í þad akur-gérdi, sem hét
Gethsemane, þar var grasgardur
og þar geck Jesús inn med Lœri-
sveinunum; en Júdas, sem sveik
hann, vissi og þenna stad, því Je-
sús safnadist opt þángad med Lœri-
sveinum sínum. Þá Jesús kom í
þann stad, sagdi hann vid Lœri-
sveinana: setjid yckur hér á med-
an eg fer burt og bidst fyrir; bid-
jid! svo þér fallid ecki í freistni.
Hann tók med sér Pétur, Jakob

og Jóhañes, þá tvo sonu Zebede-usar, og tók til að hryggjast, titra af hræðslu og harmþrúnginn að verða og sagði til þeirra: sála mín er hrigg allt í dauðann, bíðið hér og vakið með mér! en hann sleit sig í burtu frá þeim og géck litlu fram lengra, nær einu steinsnari, kraup á kné, féll fram á ásjónu sína til jarðar og bað: ef það mögulegt væri, að sú stund hjá sér liði og sagði: Faðir minn! ef mögulegt er, þá víki þessi kalekkur frá mér; Abba, Faðir minn! allt er þér mögulegt! tak burt þenna kaleik frá mér, þó ecki hvað eg vil, heldur sem þú vilt. Hann kom aptur til Lærisveinanna, en fann þá sofandi. Hañ sagði við Pétur: Símon! sefur þú? megnaðir þú ecki að vaka með mér eina stund? vakið og biðjið, svo þér freistist ecki! andinn er reiðubúinn, en holdið er veikt. Í añgð sinn géck hañ burt

aptur, badst fyrir, talaði sönnu orðum og sagði: Faðir minn! ef það er ecki mögulegt, að þessi kaleikur víki frá mér útan eg drecki hann, þá verði þinn vilji. Hann snéri aptur, kom og fañ þá eû sofandi; augu þeirra vóru svo þrúngin af svefni, að ecki vissu hverju þeir svoruðu honum. Jesús skildi við þá, géck á burt aptur, bað í þriðja sinni með sönnu orðum og sagði: Faðir! ef þú vilt svo, þá tak þenna kaleik frá mér, þó ecki minn, heldur verði þiñ vilji! Honum birtist þá Engill af himni, sem styrkti hann; en þegar Jesús var staddur í dauðans stríði, tók hann ákaflega að biðja; en sveiti hans varð eins og blóðhniklar, sem féllu á jörðina. Hann stóð upp frá bæninni, kom til Lærisveinanna í þriðja sinni og fann þá sofandi út af hrigð, og sagði til þeirra: sofið þér nú það eptir er, og hvílist!

hvöd! sofid þér? þad er nóg; standid upp og bidjid, svo þér fallid ecki í freistni. Sjáid! sú stund tekur ad nálgast og er komin, ad Mañsins Sonur mun ofurseljast í syndugra hendur. Standid upp og gaungum hédan! sjáid! sá er mig svíkur, hann er í nánd.

---

## Annar Partur.

Jafnsnart, sem Jesús var enn ad tala um þetta, sjá! einn af þeim tólf, sem Júdas hét, þá er hann hafdi nú til sín tekid flock maña og þénara Kénnimanna-hofdingjanna og Phariseanna, kom hann þángad og med honum flockur mikill, med blysum, lømpum, sverdum, staungum og vopnum, útsendir af Kénnimanna-hofdingjum, Skriftlærdum og Oldúngum, og hañ géck fyrir þeim. Sem Jesús vissi nú

allt hvad yfir hañ átti ad koma, géck hann fram og sagdi til þeirra: ad hverjum leitid þér? þeir svörudu honum: ad Jesú af Nazareth. Jesús sagdi til þeirra: eg er hann. En Júdas sá ed sveik hann, stód einninn hjá þeim; en sem Jesús sagdi til þeirra: eg er hann? hörfudu þeir á bak aptur og duttu til jardar. Hann spurdi þá eñ einusinni: ad hverjum leitid þér? en þeir sögdu: ad Jesú af Nazareth. Jesús svaradi: eg sagdi ydur þad, eg er hann; þar fyrir, ef þér leitid ad mér, þá látid þessa á burt fara —svo ad uppfylltist þad ord, er hañ hafdi sagt: ad engum glatadi eg af þeim, sem þú gafst mér, (Jóh. 17).— En svikarinn hafdi géfid þeim sameginlegt teikn og sagt: hvern helzt eg kyssi, sá er þad, gripid hann og leidid á burtu varhygdarlega. Og þá hann kom, nálgadist hañ Jesúm ad hañ kyssti

hann, og jafnsnart gêck hann til hans og sagdi: heill sértú, Rabbí! og kyssti hann. En Jesús sagdi til hans: vinur! hvar fyrir ertú kominn? Júdas! svíkur þú Manns-ins Son med kossi? Þá gengu þeir þángad, løgdu sínar hendur á Jesúm og gripu hann. En þá ed þeir, sem hjá honum vóru, sáu hvad verda vildi, søgdu þeir til hans: Herra! skulum vér slá med sverdi? og sjá! ad einn af þeim, sem med Jesú vóru og þar stódu, Símon Pétur, hafdi sverd, rétti út høndina og ryckti því, og sló til Presta-høfdíngjans þénara, og hjó af honum hans hid hægra eyra, og sá þénari hét Malchus. En Jesús svaradi og sagdi: leyfid einúngis þetta! og hañ áhrærdi hans eyra og læknadi hann. Og hann sagdi til Péturs: stícktú þínu sverdi í slídrir, þvíad hverr ad sverdid tekur, sá mun fyrir sverdi farast; eda

meinar þú ad eg kuñi ecki nú ad bid-ja minn Fødur, þad hann sendi mér meir enn tólf legiónir Engla? skal eg ecki drecka þañ kaleik, hvern ed minn Fadir hefir mér géfid? en hverninn skyldu þá Ritníngarnar uppfylltar verda? Því þad hlýtur svo ad ské. Á þeim tíma svaradi Jesús og sagdi til fólksins og þeirra Presta-hefdíngia, og Høfuds-manna musterisins og Oldúngañà, sem til hans vóru komnir: þér erud eins og til annars rænіngja út-gengnir med sverdum og staungum ad grípa mig. Daglega hefi eg hjá ydur verid, setid og kent í musterinu, og þér hafid engar hendur á mig lagt og ecki gripid mig, heldur er þetta ydar tími og maktmyrkranua, svo ad Ritníngarnar uppfylltust. En allt þetta er skéd, svo ad uppfyllist Ritníngar Spámannanna. Þá forlétu hann allir Lærisveinarnir og flýdu. Og

þar var úngur madur, sá er hon-
um eptirfylgdi, hann var med líni
klæddur yfir bert hörund, og úng-
menni gripu hann; en hann snar-
adi línklædinu og flýdi nakinn í
burt frá þeim.

## Þridji Partur.

En flockurinn og hinn ypparsti
Höfudsmadur og þénarar Gydínga-
anna gripu Jesúm og bundu hañ,
og leiddu hann fyrst burt til Hañ-
asar, sem var fadir konu Kaiphas-
ar, hverr ed þá var þess árs ædsti
Prestur, og þeir burtleiddu Jesúm
fángiñ til Kaiphasar Kéñimaña-
höfdíngja; en Kaiphas var sá,
sem Gydíngum gaf þad rád: ad
betur færi þad einn madur dæi fyr-
ir fólkid. Og þeir innleiddu hañ
í hús þess ypparsta Prests, þar ed
med honum allir Kéñimaña-höfd-

íngjar, Skriftlærdir og Ofdúngar vóru samankomnir. En Símon Pétur fylgdi Jesú eptir álengdar, allt í forstofu Kénnimanna-hofdíngjans, og einn annar Lærisveinn, sá sami var kunnugur Kénnimanna-hofdíngjanum og géck inn med Jesú í forstofu Kénnimanna-hofdíngjans, en Pétur stód þar úti fyrir dyrunnum. Þá géck út sá annar Lærisveinn, sem Kénnimanna-hofdíngjanum var kunnugur, og taladi vid dyraverdslu konuna og leiddi Pétur inn lengra í forstofu Kénnimanna-hofdíngjans, og hann géck inn; þvíad þénararnir hofdu eld qveiktann í midri forstofunni og setst til samans, en Pétur setti sig á millí þeirra og vermdi sig vid logann, ad hann sæi hverr endir þar á yrdi. En Pétur sat utar í forstofunni, og þar hann var fram betur í forstofunni, kom ein af ambáttum Kénnimanna-hofdíngjans, og þá

hún leit Pétur sitja við logann og verma sig, leit hún til hans og starði á hann, géck til hans og sagði: hvert ert þú og einn af þess mañs Lærisveinum? og þú varst með Jesú þeim galilæiska af Nazareth. En hañ afneitaði honum fyrir öllum, segjandi: kona! ecki er eg, ez þecki hann ecki, og ecki veit eg hvað þú segir; og hann géck út fordyrið og haninn gól. En þrælarnir og þénararnir stóðu, sem gjort hofðu kola-eld, og vermdu sig, þvíað kuldi var. Pétur stóð þar hjá þeim og vermdi sig. En Kénnimanna-höfðinginn spurði Jesúm þá að um hans Lærisveina og hans kéñingu? og Jesús svaraði honum: eg hefi opinberlega talað í heiminum; eg hefi og með jafnaði kénnt í samkunduhúsum og í musterinu, þar eð Gyðingar allstaðar að koma til samans, og eckert hefi eg í leynum talað; hvað spyr þú mig að

þessu? spyr þú þá þar að, sem heyrt hafa hvað eg hefi talað til þeirra; sjá þú! þeir hinir sömu vita hvað eg hefi sagt; en sem hann talaði þetta, gaf einn þénaraña, sem þar stóð hjá, honum kiñhest, og sagði: skaltú svo svara Biskupinum? Jesús svaraði; hafi eg illa talað, þá bevísa það, að það sé órétt, en hafi eg satt sagt, því slær þú mig þá? Hannas sendi hann þá bundinn til Kaiphasar Kénnimanna höfðingja. En ambáttin, er hún sá Pétur, tók aptur til að segja þeim, sem þar hjá stóðu: þessi er eiñ af þeim. En er hañ géck út um dyrnar, leit hann önnur ambátt og sagði til þeirra, sem þar vóru: þessi var og með Jesú af Nazareth; litlu síðar sá hann enn añar og sagði: þú ert og einn af þeim; enn framar töluðu þeir til hans: ertú af hans Lærisveinum? og í añað sinn neitaði Pétur aptur með eiði og sagði:

madur! ecki er eg þad, ecki þecki eg þann mann. En þeir ædstu Prestar og Öldúngar, og allt Rádid leitudu ljúgvitna ígégn Jesú, svo ad þeir gætu honum í hel komid, en fundu ecki; og þó margir ljúgvottar gengi þar fram ad, þá fundu þeir eckert, hvíad margir báru falsvitni á móti honum, en þeirra vitnisburdir vóru ecki samhljóda. En ad sídustu stódu upp og gengu fram nockrir, tveir falsvottar, og báru ljúgvitni á móti honum og sögdu: vér höfum heyrt hann segja: eg kann og vil nidurbrjóta þetta musteri Guds, sem med höndum er gjört og á þremur dögum uppbyggja annad, þad ecki er med höndum gjört, en þeirra vitnisburdir urdu enn þá ecki samhljóda. Sá ædsti Prestur stód þá upp midt á milli þeirra, spurdi Jesúm ad og sagdi til hans: svarar þú engu? hvad vitna þessir á

móti þér? en Jesús þagði og svaradi engu. Þá ansadi enn aptur sá ædsti Prestur, spurdi hann ad og sagdi til hans: ertú Kristur Sonur hins Blessada? eg særi þig vid lifanda Gud, ad þú segir oss ef þú ert Kristur Sonur Guds! Jesús sagdi til hans: þú sagdir þad, eg er; en þó segi eg ydur: hér eptir munud þér sjá Mannsins Son sitja til hægri handar Kraptarins, og komanda í skýum himins. Þá reyf Kénnimannahöfdínginn sín klædi í sundur og sagdi: hann gudlastar. Hvad þurfum vér nú framar vitnanna vid? sjá! þér heyrdud nú sjálfir hans gudlöstun. Hvad vyrdist ydur? en þeir fordæmdu hann allir og sögdu: hann er daudans sekur. Litlum tíma þar eptir, nær einni stundu, styrkti einhverr annar, (ad Pétur væri einn af Jesú Lærisveinum) og sagdi: ad sönnu

vár og þessi med Jesú, því hann er Galílæari. Og aptur gengu þeir ad, er hjá stódu, og sögdu til Péturs: sannarlega ertú af þeim, þvíad þitt túngumál er samhljóda og opinberar þig. Þá sagdi einn af Kénnimanna-höfdíngjans þénurum, frændi þess, sem Pétur hjó af eyrad: sá þig eckí í grasgardinum med Jesú? þá neitadi Pétur því eñ aptur og sagdi: madur! eigi veit eg hvad þú segir. Þá tók hañ til ad formæla sér og sverja: eigi þecki eg þann mann, um hvern þér talid. Jafnsnart er hañ nú taladi enn framar, gól haninn í annad sinn og Drottiñ snéri sér vid og leit til Péturs, þá minntist Pétur Jesú orda, er hann hafdi sagt til hans: ádur enn haninn galar tvisvar, muntú afneita mér þrisvar; og hann géck út og grét beisklega. Þá toku nockrir ad spýta á Jesúm, í hans ásjónu, og

bördu' hann med knefum, en Þén-ararnir og þeir menn, sem héldu honum, dárudu hañ og slóu, byrgdu hans ásjónn, slóu hann med knef-um, spurdu hañ og sögdu: spá þú oss, hverr er sá þig sló? og margt annad hádugłegt sögdu þeir vid hann.

---

## Fjórdi Partur.

Strax um morguninn, er dagur var, söfnudust saman og héldu ráð-stefnu allir ædstu Prestar med Öld-úngum lýdsins og Skriftlærdum, og þaradauki öllu Rádinu, móti Jesú, svo ad þeir gætu honum í hel komid, og leiddu hann upp fyrir sitt Ráð, og sögdu: ef þú ert Krist-ur, seig oss þad? og hann sagdi til þeirra: ef eg segi ydur þad, þá trúid þér því ecki, en ef eg spyr yd-ur, þá svarid þér mér ecki, edalát-

id mig samsant. Nú hédan í frá mun Mannsins Sonur sitja til hægri handar Guds kraptar. En þeir sögdu allir: ertú þa Guds Sonur? hann sagdi þá til þeirra: þér segid þad, eg em hann. Þá sögdu þeir: hvad þurfum vér nú vitnisburdinn lengur, vér sjálfir heyrdum þad af hans munni. Og allur sá skari þeirra stód upp og bundu Jesúm og leiddu hann á burt frá Kaiphasi og í þíngbúsid, og ofurseldu hann Landsdómaranum Pontío Pilató; en þad var snemma morguns. Þá er Júdas, hverr ed hafdi svikid Jesúm, sá þad hann var til dauda dæmdur, ydradist hann þess, og færdi aptur þeim ædstu Prestum og Öldúngum þá þrjátíu silfur-peninga og sagdi: syndgad hefi eg, ad eg sveik saklaust blód; en þeir sögdu: hvad kémur þad vid oss? sjá þú þar fyrir. Og hann snaradi þeim silfur-peníngum í musterid,

skundadi þadan, géck á burt og hengdi sjálfañ sig. En þeir œdstu Prestar tóku silfur-peníngana og søgdu: ecki hæfir ad vér látum þá í Guds kistuna, þvíad þad er blóds-verd. En þeir héldu rád, og keyptu med þeim leirsmids-akur, fram-andi mønnum til greftrunar. Fyrir þad er sá akur kalladur blóds-akur, allt til þessa dags. Þá er uppfyllt hvad sagt er fyrir Jeremías Spámann, er svo hljódar: þeir tóku þá þrjátíu silfur-penínga, er hiñ seldi var med betaladur, hvern þeir keyptu af Israels børnum, og hafa géfid þá fyrir Leirkérasmids-akur, eptir því, sem Drottiñ hafdi mér bodid. Høfud-prestarnir og Oldúngarnir gengu ecki sjálfir iñ í þínghúsid, ad þeir saurgudust ecki, heldur svo þeir mættu neyta Páskanna. Pílatus géck þá út til þeirra og spurdi: hverja ákjæru færid þér

ſgégn þeſſum manni? þeir ſvorudu: ef þeſsi væri eckí íllrædis-madur, þá hefdum vér ecki fengid hann þér í hendur. Pílatus ſagdi: takid þér hann þá og dæmid eptir ydar løgum. Gydíngar ſvorudu: oſs leyfiſt eckí ad lífláta nockurn, ſvo þad ord Jeſú uppfylltiſt, er hann ſagdi, teiknandi þar med, hverjum dauda hann ſkyldi deya. Jeſús ſtód framm fyrir Landsdómaranum, en þeir tóku ad áklaga hañ og ſøgdu: þenna finnum vér fráſnúa folkinu, fyribjóda ad géfa Keiſaranum ſkatt og ſegir ſig vera Konúnginn Kriſt. Þá géck í annad ſinn inn Landsdómarinn Pílatus, kalladi Jeſúm og ſpurdi; ertú Konúngur Gydínga? Jeſús ſvaradi: talar þú þad af ſjálfum þér, eda hafa adrir ſagt þér þad um mig? Pílatus ſpurdi þá: er eg nockud Gydíngur? þín þjód og Kénnimanna-høfdíngjar ofurſeldu þig mér; hvad hefir þú gjørt? Je-

sús svaradi: mitt ríki er ecki af þessum heimi; ef mitt ríki være af heiminum, mundu þénarar mínir strída þar fyrir, svo eg ofurseldist ecki Gydingum, en nú er mitt ríki ecki þadan. Pílatus spurdi: ertú þó samt Konúngur? Jesús svaradi: þú segir þad, eg er og Konúngur; til þess er eg fæddur og í heiminn kominn, ad eg beri vitni sannleikanum, og hverr hann er af sañleikanum, sá heyrir mína rödd. Pílatus spurdi: hvad er sañleikurinñ? géck sídan út aptur til Gydínga og sagdi til þeirra yppurstu Presta og lýdsins: enga sök finn eg med þessum mañi; en Höfud-prestarnir áklögudu hann hardlega, og er hann áklagadist af þeim og Oldúngunum, svaradi hañ engu. Pílatus spurdi hann þá: svarar þú engu? heyrir þú ecki hversu hardlega þeir áklaga þig? En Jesús

svaradi honum engu framar til nockurs ords, svo Landsdómarinn undradist þad nærsta. En hinir vóru þess ákafari og sögdu: hann hefir uppæst fólkid med því hann hefir kénnt á öllu Gydíngalandi, og hefir tiltekid í Galíleu allt híngad. En er Pílatus heyrdi Galíleu nefnda, spurdi hann ad: hvert hañ væri Galíleískur? en þá hann heyrdi ad Jesús var undir Heródesar veldi, sendi Pílatus hann til Heródesar, er líka var á þeim sömu dögum í Jerúsalem. En er Heródes sá Jesúm, vard hañ nærsta gladur, því hañ hafdi fyrir laungu girnst ad sjá hann, af því hann hafdi margt heyrt af honum og vænti, ad hann mundi sjá teikn af honum, adspurdi hann hann því á marga vegu, en hann svaradi honum engu. Kénnimanna-höfdíngjar og Skriftlærdir ásökudu hann hardlega; en Heródes og strids-

menn hans forsmádu Jesúm og spottudu, færdu hann í hvítt fat, og sendu hann aptur til Pílatusar. Á þeim degi urdu þeir Pílatus og Heródes vinir aptur, því ád áđur vóru þeir óvinir sín á milli. En Pílatus samankalladi Presta-höfdíngja, Höfuds-menn og lýdinn og sagdi til þeirra: þér hafid þennañ mann til mín haft, sem þann, er fráfnýr fólkinu, sjáid! eg hefi yfirheyrt hann hér fyrir ydur, og á þessum mañi finn eg enga af þeim sökum, sem þér klagid hann fyrir, og ecki heldur Heródes, því ad eg sendi ydur til hans og sjáid! eckert er af honum gjört þad dauda sé verdugt, vil eg því refsa honum og láta lausañ. En á hátídar deginum hlaut Lands-dómarinn, eptir venju, fólkinu lausann ad láta einhvern bandíngja, hvern helzt þeir vildu og eptir hverjum þeir beidduſt. En þá hafdi hañ nafnkéñdañ

bandíngja framar ødrum, er Barabbas hét, med upphlaups-moñum bundíñ, hverjir í upphlaupinu høfdu víg unnid. Þá þeir vóru til samans komnir, sagdi Pílatus til þeirra: þad er ydar sidvenja, ad eg géfi ydur einn lausann á Páskum; en fólkid kalladi upp og tók til ad bidja: ad hann vildi giøra sem hañ væri vanur. Þá spurdi Pílatus: viljid þér ad eg géfi ydur nú Gydínga Konúnginn lausann? hvern viljid þér ad eg géfi ydur lausann, Barabbam eda Jesúm, er kallast Kristur (því hann vissi vel ad Høfud-prestarnir høfdu af øfund ofurselt hann)? Þá hann sat á dómstólnum, sendi hans húsfrú til hans og lét segja honum: hafdú ekkert ad gjøra med þañ Réttláta, því margt hefi eg lidid í dag í draumum fyrir hann. En þeir ædstu Prestar og Øldúngar rédu fólkinu og eggjudu, ad þad skyldi

bidja: ad hann gæfi þeim miklu heldur Barabbam lausann, en Jesúm skyldi hañ deyda. Þá svaradi Pilatus: hvern af þessum tveimur viljid þér ad eg láti ydur lausann? þá kalladi upp allur hópurinn og sagdi: tak burt þennañ, en géf oss Barabbam lausann. Þá spurdi Pilatus aptur og vildi Jesúm lausann láta: hvad viljid þér þá ad eg skuli gjora vid Jesúm, af hverjum sagt er, ad hañ sé Kristur, Konúngur Gydinga? en þeir kolludu þá allir upp: krossfestist hann! krossfestú hann! Pilatus spurdi þá í þridja sinn: hvad íllt hefir þá þessi gjort? enga daudasök fiñ eg med honum, því vil eg hegna honum og láta lausañ. Þeir kolludu þá því meir: krossfestist hañ! krossfestú hann! og enn aptur hrópudu þeir: ecki þeñañ, heldur Barabbam! en Barabbas var ræningi, sem var settur í fángelsi fyrir upp-

hlaup og mannslag, er' skéd var í borginni. Loksins hrópudu Høfud-prestarnir og lýdurinn allur í einu hljódi, ad Jesús yrdi krossfestur. Þá tók Pílatus Jesúm og húdstrýkti hañ, en stríðsmeñ Landsdómarans tóku Jesúm og leiddu hann med sér inni þinghúsid, kolludu saman og søfnudu ad honum ollu lidinu, afklæddu hañ og færdu hann í purpura-kápu, fléttudu kórónu af þyrnum, settu hana á hans høfud og reyr í hans hægri hønd, beygdu kné fyrir honum, spjeðu hann og tóku ad heilsa honum þañig: heill sértú, Konúngur Gydínga! gáfu honum pústra og hræktu á hann, tóku reyriñ og berdu um hans høfud, féllu á kné og tilbádu hann. Þá géck Pílatus út aptur og sagdi vid þá: sjáid! eg leidi hann nú út híngad til ydar, svo ad þér vitid, þad eg finn enga sök med honum. Svo géck Jesús út, ber-

andi þyrni-kórónu og purpura klæd-
id: þá sagdi Pílatus til þeirra:
sjáid manninn! Þá er Kénni-
manna-hofdíngjarnir og þénararn-
ir sáu hann, kølludu þeir: kross-
festú! krossfestú! Pílatus sagdi:
takid þér hann og krossfestid, þvi
eg finn enga søk med honum. Þá
svørudu honum Gydíngar: vér
høfum løg, og eptir vorum løgum
á hann ad deya, því hann gjørdi
sig sjálfann ad Guds Syni.

## Fimmti Partur.

Þá Pílatus heyrdi þad ord, ótt-
adist hann enn meir, géck aptur í
þínghúsid og sagdi til Jesú: hvad-
an ertú? en Jesús gaf honum eck-
ert svar. Þá sagdi Pílatus til
hans: talar þú ecki vid mig? veitst
þú ecki, ad eg hefi rád til ad kross-
festa þig, og eg hefi rád til ad géfa

þig lausann? Jesús svaradi: ecki hefdir þú nockurt vald yfir mér, nema þér væri géfid þad hér ad ofan, fyrir því hefir sá meiri synd, er mig ofurseldi þér. Eptir þad leitadist Pílatus vid, hvernig hañ gæti látid Jesúm lausann. En Gydíngar hrópudu: ef þú lætur þeñañ lausañ, þá ertú ecki Keisarans vinur: því ad hverr, sem sig gjørir ad Konúngi, hañ er á móti Keisaranum. Þá Pílatus heyrdi þad ord, leiddi hañ Jesúm út, og setti sig á dómstóliñ í þeim stad, sem kallast hinn steinlagdi, en á hebresku Gabbatha, en þad var adfángadagur Páska, nærri sjøttu stundu. Þá segir hann og til Gydínga: sjáid! þad er ydar Konúngur, en þeir kølludu: burt, burt med hañ, krossfestú hañ. Pílatus sagdi til þeirra: skal eg krossfesta ydar Konúng? Kénnimanna høfdíngjarnir svørudu: engañ Konúng høfum vær, nema Keisarann.

Þá Pílatus sá, ad hann kom engu til vegar, heldur þad, ad þar yrdi enn meira upphlaup af, tok hann vatn og þvodi hendurnar fyrir folkinu, og sagdi: saklaus er eg af blódi þess Réttláta, sjáid þér til! þá svaradi allur lýdur: hans blód komi yfir oss og yfir born vor! En Pílatus þenkti folkinu fullnægju ad gjora og dæmdi ad ské skyldi þeirra beidni, gaf þeim Barabbas lausann, sem inn var settur fyrir upphlaup og manndráp í myrkva stofu, um hvern þeir bádu; en Jesúm húdstrýktann framseldi hañ þeim, eptir þeirra vilja, ad hann krossfestur yrdi. Þá tóku þeir Jesúm, eptir ad þeir hofdu spottad hann, færdu hañ úr purpura kápuñi og klæddu hañ í hans egin klædi og leiddu hañ út, ad þeir krossfestu hann, og hañ bar sinn kross og géck út. En í því þeir gengu og leiddu hañ út, fundu þeir mañ, sem framhjá géck, af Cy-

rene, Símon að nafni, hverr eð kominn var af akri, faðir þeirra Alexanders og Rúffí, hann höndluðu þeir, þreyngdu honum að hañ bæri Jesú kross, og lögðu krossiñ uppá hann, að hañ bæri hann eptir Jesú. En honum fylgdi mikill fjöldi fólks og qvenna, sem grétu og hörmuðu hann; þá snérist Jesús til þeirra og sagði: þið Jerúsalems dætur! grátið þér ecki yfir mér, heldur grátið yfir ydur sjálfum og yfir börnum ydar; því — sjáið! þeir dagar munu koma, á hverjum þeir segja: sælar eru óbyrjur og þeir qviðir, er ecki hafa fætt, og þau brjóst, hver ecki voru mylkt. Þá munu þeir segja fjöllunum: hrynjið yfir oss! hálsunum: hyljið oss! Ef þeir gjöra þetta við blómgaða tréð, hvað mun þá ské við það hið þurra? Með Jesú útleiddust tveir illvirkjar, sem áttu að líflátast ásamt honum. Þeir leiddu hann

í þann stad, sem kallast á hebresku Golgatha, sem þýdir: Hausaskélja-stadur; þeir gáfu honum ad drecka í víni myrrn og edik galli blandad, en hann tók þad ecki til sín; þvi þegar hann smackadi þad, vildi hann ecki drecka. Sem þeir komu í þann stad, er kalladist Hofudskélja-stadur, þar krossfestu þeir hann og med honum tvo ræningja, einn til hægri handar og annann til vinstri, en Jesúm í midid. En þad var nær um þridju stundu, er þeir krossfestu hann. Þá vard sú Ritning uppfyllt, sem segir: med illvirkjum er hann reiknadur. En Jesús sagdi: **Fadir! fyrirgéf þeim, þvi þeir vita ecki hvad þeir gjora.** Pilatus skrifadi þá yfirskrift og setti hana upp yfir krossiñ, uppi yfir hans hofdi festu þeir hans dauda-sok; en yfirskriftin og hver sok honum var géfin, var ritud yfir honum med griskum,

látínskum og hebreskum bókstöfum: þessi er Jesús af Nazareth, Konúngur Gydínga. Þessa yfirskrift lásu margir af Gydíngum, því sá stadur var nærri borginni, hvar Jesús var krossfestur. Þá sögdu ædstu Prestar Gydínganna vid Pílatus: skrifa þú ecki: Konúngur Gydínga, heldur þad hann hafi sagt: eg er Konúngur Gydínga. Pílatus svaradi: hvad eg skrifadi, þad hefi eg skrifad.

## Sjötti Partur.

Þá strídsmennirnir höfdu krossfest Jesúm, tóku þeir hans klædnad, gjördu á fjögra hluta skipti, sérhverjum strídsmanni einn hlut, og vörpudu þar um hlutkésti, hverr hañ skyldi hafa, og þar med kyrtilinn, en hann var ecki saumadur, heldur frá ofanverdu allur prjón-

adur. Þá toludu þeir sín á milli: skiptum vær honum ecki í sundur, hlutumst heldur um hvers hann skal vera, svo ad Ritníngin uppfyllist, er segir fyrir Spámanninn: þeir skiptu med sér klædum mínum og á miñ kyrtil løgdu þeir hlutkésti. Þetta gjørdu stríds-mennirnir, en fólkid stód og horfdi á. En þeir, sem gengu þar framhjá, hæddu hann, skóku hofud sín og sogdu: svej! hvernig nidurbrýtur þú musterid og uppbyggir þad aptur á þrem døgum? hjálpa þú nú sjálfum þér, ef þú ert Guds Sonur og stíg nidur af krossinum. Hofdíngjarnir spottudu hann med þeim, líka hæddu hann þeir ædstu Prestar sín á milli med Skriftlærdum og Oldúngum og sogdu: ødrum hefir hann hjálpad, sjálfum sér gétur hann ecki hjálpad; sé hañ Kristur og Konúngur Israels, þá stigi hann nú nidur af krossinum, ad

vér sjáum og megum svo trúa hon-
um; hjálpi hann nú sjálfum sér ef
hann er Kristur hiñ útvaldi Guds;
hann treysti Gudi, hann frelsi hañ
nú, ef hann hefir lyst til hans, þvi
hañ sagdi: eg er Guds Son. Ad
honum hæddu og strídsmennirnir,
gengu til hans, færdu honum edik
og sögdu: ef þú ert Konúngur
Gydínga, þá hjálpa þér sjálfum;
líka hæddu hañ ræníngarnir, þeir
med honum vóru krossfestir; ann-
ar þeirra lastadi hann og sagdi: ef
þú ert Kristur, þá frelsa sjálfañ þig
og ockur. Þá straffadi sá añar hañ
og sagdi: þú hrædist og ecki heldur
Gud, sem ert þó í sömu fordæm-
íngu! ad söñu skér ockur þetta rétti-
lega, því vid medtökum hvad ockar
gjördir verdskuldudu, en þessi hefir
eckert óskickanlegt gjört. Og hañ
sagdi til Jesú: Drottinn! miñstu
mín, þegar þú kémur í ríki þitt!
Jesús svaradi: sannlega segi eg

þér! í dag skaltú vera med mér í Paradís. Þar stódu vid Jesú kross Módir hans og módur-systir hans, María húsfrú Kleóphasar og María Magdalena; þá Jesús sá Módur sína og þann Lærisvein þar nær standandi, er hann elskadi, segir hann til hennar: **Kona!** sjá þú! þad er þinn Sonur; eptir þad segir hann til Lærisveinsins: sjá! þad er þín Módir; upp frá þeirri stundu tók Lærisveininn hana ad sér. Þad var nær um sjöttu stundu, ad myrkur gjördi yfir allt landid nær til níundu stundar og sólin misti sitt skin. Um níundu stundu kalladi Jesús hárri röddu og sagdi: **Elí! Elí! Lama Sabachtani?** sem útleggst: **Gud minn! Gud minn! því yfirgafstú mig?** Nockrir af þeim, er þar stódu hjá og heyrdu þetta, sögdu: sjá! hann kallar á Elías. Eptir ad Jesús vissi ad allt var

fullkomnad og Skriftin uppfyllt, þá segir hann: mig þyrstir. Þar stód kér fullt af ediki, jafnsnart hljóp einn til, tók njardarvött og fyllti af ediki, setti hann ofan á reyrlegg, gaf honum ad drecka og sagdi: lát vera! sjáum hvert Elías kémur ad taka hann ofan; en adrir sögdu: bídid! látid sjá hvert Elías kémur ad hjálpa honum. En þegar Jesús hafdi edikid til sín tekid, sagdi hann: Þad er fullkomnad. Jesús kalladi hárri roddu í annad sinn og sagdi: Fadir! í þínar hendur fel eg minn Anda; en er hañ hafdi þetta sagt, hneigdi hann höfudid og gaf upp Andann. Og sjá! ad musteris-tjaldid rifnadi midt í sundur í tvo parta, frá ofanverdu og nidur í gégn og jördin skalf og björgin klofnudu, grafir lukust upp og margir líkhamir heilagra risu upp, þeir ed sváfu, og gengu, eptir Jesú upprisu, úr gröf-

unum, komu í hina hellogu borg og auglýstust þar morgum. En er Hundradshofdinginn, hverr þar stód gégnt, sá þad hvad þar skédi, og ad Jesús kalladi svo, þegar hañ létst, prísadi hann Gud og sagdi: vissulega hefir þessi réttlátur madur verid og Guds Sonur. Eins þeir, sem med honum vóru ad vardveita Jesúm, þegar þeir sáu jardskjálftann og hvad þar skédi, urdu þeir mjøg óttaslegnir og sogdu: sañlega var þessi Guds Sonur. Allt folk, sem þar var og horfdi á og sá hvad skédi, bardi sér á brjost og snéri á burt aptur. En allir Jesú kuñingjar stodu lángt frá; þar vóru og margar konur, sem sáu þar uppá álengdar, medal hverra var María Magdalena, María ens litla Jakobs, Jósephs módir og Salóme módir þeirra Zebedæusar sona, þær honum hefdu eptirfylgt, þá hann var í Galilæu og þjónad hon-

um og margar aðrar, hverjar með honum höfðu uppfarið til Jerúsalem úr Galilæu og horfðu á þetta.

---

## Sjøundi Partur.

En Gyðingar, með því það var aðfánga-dagurinn, svo að líkhamirnir væru ecki á krossinum um Sabbatzdaginn — því sá Sabbatzdagur var mikill — báðu Pílatus, að bein þeirra brytust og ofantækjust. Þá komu stríðs-mennirnir og brutu sundur bein ens fyrsta og svo hins annars, sem með Jesú vóru krossfestir. En þá þeir komu til hans og sáu, að hann var þegar dáinn, brutu þeir ecki bein hans, heldur opnaði einn af stríðsmönnunum hans síðu með spjóti og strax rann út blóð og vatn. Sá, er það hefir sjeð, ber þar vitni um og hans vitnisburður er sannur,

hann sami veit þad, ad hann segir satt, svo ad þér einnig trúid; því þetta er skéd, svo Ritníngin uppfylltist, sem segir: eckl skulud þér brjóta nockurt hans bein; og enn aptur segir önnur Ritníng: þeir munu sjá hañ, í hvern þeir stúngu. Þar eptir þegar qvöld var komid, af því þad var adfánga dagur, hverr ad er fyrir Sabbatz-daginn, kom madur nockurr ríkur af borg Gydínga Aremathía, Jóseph ad nafni, heidurlegur Rádherra, gódur madur og réttvís, hverr eckl hafdi verid samþyckur þeirra rádagjörd og breytni, hverr og var eiñ af Lærisveinum Jesú, þó heimuglegur, fyrir ótta sakir vid Gydínga, sá er og vonadi eptir Guds ríki. Hann dirfdist ad gánga inn til Pílatusar og bad um, ad hann mætti taka nidur líkhamann Jesú. En Pílatus undradist ad hann værí þegar látinn, kalladi Hundr-

adshøfdíngjann og spurdi hañ ad: hvert Jesús væri fyri laungu andadur? og er hañ var þess vís ordinn af Hundrads-høfdíngjanum, leyfdi Pilatus og skipadi, ad Jóseph skyldi afhendast líkhaminn og gaf honum hann. Þá kom hann og tók nidur líkhama Jesú, keypti nýann líndúk, tók vid líkhamanum og sveypadi hann í hreinu lérepti. Þar kom og Nikódemus, sá er fyrri kom um nótt til Jesú, hann færdi sambland af myrru og alóe nær hundrad punda. Þá tóku þeir Jesú líkhama og sveypudu hañ í líni med dýrmætu salve, eins og Gydínga sidur er til ad greftra. En þar í þeim stad, sem Jesús var krossfestur, var grasgardur og í honum ný grøf, í hverja eng-inn hafdi enn verid lagdur; Jóseph lagdi hann í þessa sína egin nýu grøf, hverja hann hafdi út-høggva látid í steini og velti stór-

um steini ad grafar dyrunum og géck á burt. En þad var adfánga-dagur og Sabbatzdagurinn tók til, þángad logdu þeir Jesúm, fyrir sakir adfángadagsins Grdínga, því sú grof var nærri. En þar var María Magdalena og onnur María Jósephs og þær konur, sem komnar vóru med honum af Galílæu, fylgdu eptir, sitjandi gégnt yfir frá grofinni, skodudu hana og sáu til hvar og hvernig Jesú líkhami var lagdur. En þær snéru aptur, reidandi til dýrmætar jurtir og smyrsli; en um Sabbatzdaginn vóru þær kyrrar, eptir Logmálinu.

Annann dag þann, sem eptir adfánga-daginn er, sofnudust saman þeir ædstu Prestar og Pharísæar ásamt til Pílatusar og sogdu: Herra! vær minnumst á þad, ad

þessi svikari sagdi þá er hañ lifdi: eptir þrjá daga mun eg upprísa; skipa þú því ad vakta grøfina allt til ens þridja dags, svo ad eckí komi Lærisveinar hans á nóttu og steli honum á burt, en segi fólkinu ad hann sé upprisinn frá daudum, og verdi svo hin seinni villa argari þeirri fyrri. Pilatus sagdi til þeirra: þar hafid þér vardmennina; farid! vaktid, sem þér hafid vit á. En þeir gengu á burtu, vøktudu grøfina med vardmønnunum og innsigludu steininn.



## Bæn eptir Prédikun,

sem eptir konúnglegri Tilskipun á ad lesast á ellum Sunnu- og Helgi-dögum, þegar ecki er bodid ad brúka adrar Bænir.

Almáttugi, eilífi Gud! miskunsemdanna hjartkiæri Fadir! vér þockum þér af innsta hjartans grunni, ad þú létst þad fagra Gudspjalls ljós lýsa fyrir oss þá, er vér í myrkri og daudans skugga sátum. Þitt heilaga og dýrmæta ord er enn þá á þessum degi til vor talad. Vér hofum heyrt, hvernig þú tilbýdur oss í því alla velgjørninga þíns Sonar, vors Endurlausnara, í velgjørníngum Sonarins þína nád, fyrir þína nád syndanna fyrirgéfníngu, réttlætid og eilífa sáluhjálp.

Himneski Fadir! viltú eñ þá hyrda um oss, er svo þráiækilega hofum verid þinum bodum óhlýdugir? viltú enn þá kalla á oss, sem erum svo tregir ad koma, jafnvel þó oss sé frambodid lífid og sú fullkomna gnægd? Já, þú, Drottinn! lætur ecki af ad gjøra oss til góda, þótt vér látum ecki af ad gjøra hid vonda, bædi í strid vid þig og sjálfa oss. Opt hofum vér til forgéfins medtekid þína nád, en þo frammbýdur þú oss hana og kunngjørir oss í þinu heilaga ordi, ad hver sú stund, sem vér lifum, sé partur af tíma nádarinnar og heyri til degi hjálpræđisins. Skyldum vér þá, af sjálfrædis þvermódsku, vera svo sinnadir, ad vanbrúka tímañ, og fordjarfa af oss þá sáluhjálplegu eilífd? O Drottinn! þinn gódi Andi fylgist ætíd med þínu heilaga ordi, sem er líf og andi, sá hinn sami andi stadfesti hvert ord í vorum hjørtum, af

þeim vér í dag heyrt høfum og heyra munnum svo lengi, sem vér lifum. Það verki í oss trúna til þín, forakt til heimsins og hjartanlega eptirlaungun til himinsins. Það niðurdempi allt hið vonda, sem býr í oss og gjöri vorn reiðubúna anda hvert augnablik, æ viljugri og viljugri til þess að þjóna og þacka þér og tilbiðja þig í anda og sannleika. Þú, mikli Faðir ljósanna! burtflyt aldrei þinn ljósastjaka frá oss. Lát oss aldrei finnast í þeirra tølu, sem elska meir myrkrið enn ljósið, heldur hjálpa, að vér mættum jafnan með andakt nálgast þitt hús, heyra þitt dýrmæta orð og brúka þau af þér innstiptuðu háverðugu Sakramenta. Géf þú Kénnendur eptir þínu egin hjarta, sem kunni að fæða þinn søfnuð með þeckíngu og forstandi, líka uppbyggi bæði með lifnaði og lærdómi. Géf tilheyrend-

unnum adgætlu hjörtu ad heyra þitt ord og hlýdni ad lifa eptir þvi, sem þeir heyra, svo þeir fái í øllum hlutum prýdt þína og vors Endurlausnara kénníngu. Vér þøckum þér einig, hjartkjæri himneski Fadir! fyrir þad þú svo nádarsamlega hefir opnad dyr trúarinnar fyrir svo mørgum heidíngjum, sem híngad til ecki þecktu þig; en þar ed þinn Smurdi, vor allranádugasti Konúngur og Herra, ber svo ákaflega umhyggju fyrir þessu þínu verki, svo blessa þú Konúnginn þess vegna, þinn þénara, hér í tímanum og sídan í eilífdinni. Efl þú sjálfur framvegis, o þú miskunsami Gud! þetta þitt verk; lát þitt ord ríkuglega búa hjá þeim í øllum vísdómi, sem brúkadir eru þar til; ervida þú sjálfur svo med þeim, ad bædi heidíngjarnir og allir óupplýstir kristnir megi, fyrir þíns ords prédikun, snúast frá myrkrunum til

ljóssins, frá Satans valdi til Guds, svo ad þeir ødlist apturhvarf og syndanna fyrirgéfníngu, ásamt arftöku med þeim, sem helgadir verda fyrir trúna á Jesúm Krist.

Gjør ætíd vel vid vorn allramildasta Arfa Konúng og Herra, Konúng N. N. Þínar blessanir margfaldist hvern dag og hvern tíma yfir Hans Majestet, svo Hann jafnan finni ný merki þíns føðurlega kjærleika og sjái sig ætíd leiddann af þínum Anda í øllum Hans háu konúnglegu Embættis útréttíngum, verndadann af þinni hægri hendi og stjórnadann af þér, þar bædi hann og allir Konúngar stjórna fyrir þig. Vernda þú hann fyrir øllum ovinum, en géf oss hlýdin hjørtu ad vera honum hlýdnir og trúir, eins og þú hefir géfid honum hjarta ad vera þér hlýdinn og trúr. Haf þú óaflátanlega þína hønd, þitt auga og þitt hjarta hjá Hennar Há-

tign, verrt allramildustu Drottníngu, Drottníngu N. N., svo Hennar Hátign, hvert fótstig Hún gengur, sinni hvernig Hún leidist af þinni almættis hendi, rádfærist af þínu alskygna auga og elskast af þínu fodurlegu hjarta. Vísa þú sjálfur Hans konúnglegu Hátign, vorum mildasta Krón-Prins og Herra, þann veg, sem hann á ad gánga, já, gack med honum hvert sem hann gengur. Lát kjærleika Hans konúnglegu Hátignar til þín og þinn kjærleika til hans fara dagvaxandi, sem hans ár og dagar fjölga, ad hann ætíd nú og hér eptir leiti og finni hjá þér hans einasta og yppársta góda. Umfadma þú þær konúnglegu Prinsessur og lát þær hvílast á þínum ormum, vidhaldtú þínum ótta í þeirra hjortum og lát þær jafnan finna, ad þvílíkur þinn ótti, hverr ed yfirgengur alla hluti, er til allra hluta nytsamlegur.

Vertu sjálfur girdíng og glóandi múr í kríngum allt þad konúnglega Arfa-hús! þú, sem hefir þad byggt og híngad til verndad, géf ad þad bliñi stadfast, allt þar til umskipti verda á tímanum og eilífdinni. Undirvísa þú hans Majestets Rádi og þjónum, lát þá aldrej í þeirra útréttíngum leita þess, sem þeirra er, heldur þess, sem er þitt og þíns Smurda, þá verdur Konúngsins og þegnaña besta þeirra einasta augnamid. Utbrynja þú Hans konúngl. hátignar stridsmakt bædi til lands og sjoar; géf þeim hjarta ad þjóna trúlega og þá tími er til, ad berjast karlmannlega; lát þá ætíd lifa og þjóna þér svo, sem þá, er kunni ad lifa og deya, fullvísir þar um, ad þú sért ætíd med þeim; því hverr kann þá ad vera á móti þeim?

(Hér má, þar sem þad er sidur, einnig bidja fyrir Yfirvoldunum.)

Miskunna þig, o Gud! yfir allañ þiñ Kristiñdóm! blessa þú einkum vors Konúngs ríki og lønd, hvern stad í kirkjunum, hvert hús í stødunum og hverja eina sálu í húsunum. Reid stú ecki, ad vér óverdugir þrábænum þig um svo mikid! en — hvert skulum vér, svo stórir syndarar, sem vér erum, flýa, utan til svo hjartanlegs medaumkara, sem þú ert? O þú Fadir allra miskunsemda! vertú oss aumum syndurum nádugur! hrøsum vér, þá styd þú oss, svo vér ecki føllum; en ef vér føllum, þá reis þú oss á fætur aptur, ad vér ecki liggjum fallnir. Vér høfum syndgast og syndgum daglega, en sakir þíns syndlausa Sonar, þá gleym þú vorum syndum, en gleym aldrej ad vera oss nádugur. Lát engann óvin sýna ófrid vors Konúngs løndum, en ef þad skédur, þá vertú vor verndari. Vardveit oss frá drepsótt og næm-

um sjúkdómum. Séf sérhverjum af oss sinn áqvardadann skamt, en þó einkum ánægt hjarta med þad, þú honum útblutar. Farsæl þá hondlandi, vísa þú veg land- og sjófarendum, styrk hvers ærlegs manns ervidi. [Vardveit dikl og stiflur í vors Konúngs kornlondum.] Tak þú ad þér allar eckjur. Vertú forsvar fodurlausra. Yfirgéf þú aldrej neinn af þeim yfirgéfnu. Vitja þú sóttar-sængur binna veiku. Medtak þú hid sídarsta andvarp þeirra, sem í trúñi deya og lát sálir þeirra odlast hlutskipti í eilífri gledi.

Séf oss ætíd svo ad heyra þitt ord, ad vér finnum og verdum varir vid í vorum sálum, ad þad sé kraptur Guds til sáluhjálparlñar, og audsýnum í voru lífi og framferdi, ad þad sé sú regla og mælisnúra eptir hverri vér framgaungum. Þinn heilagur Andi verki fyrir þad sama þitt ord, trúna í

vorum hjørtum. Hann hjálpi oss, fyrir trúna, ad umfadma hefund og fullkomnara trúarinnar, svo ad vér, fyrir hañ, megum ødlast endalok vorrar trúar, þad eilífa líf, sem er þín nádar-gjøf í Drottni vorum Jesú Kristi. Amen! í Jesú nafni, Amen!

---

# Bæn,

sem brúkast á vid Barna *Confirmation.*

O! þú eilífi og almáttugi Gud! Fadir Drottins vors Jesú Krists og vor allra Fadir, af hverjum allt faderni hefir sitt nafn á himni og jørdu. Vér beygjum vor kné fyrir þér og grátbænum þína fødurlegu elsku, med hverri þú hefir hingad til elskad oss og vilt hér eptir elska oss; þínir velgjørning-

ar eru fleiri, enn vér gétum talid þá réttilega, og stærri, enn vér kunnum þá nógsamlega ad þacka. Þad er þín gædska, ad vér lifum og þín miskunsemi, ad vér megum vænta betra lifs enn þetta er. Þú uppfrædir oss í þessu lifi, til ad ødlast hitt annad, sem þinn Sonur hefir oss afrekad, til hvers þinn Andi vísar oss veginn. Vér vórum naumlega innkomnir í heiminn, ádur enn þú hreinsadir oss, fyrir vatnsbadid í ordinu, af þeim saurindum, sem vér færdum med oss. Þú hefir lofad ad vera vor Fadir og medtaka oss, sem þíns Sonar brædur. Þú gafst oss þinn heilaga Anda í pant og til vissu um þinn kjærleika og arfleifd þeirra heiløgu, sem hjá þér er oss til ens besta; vér lofudum aptur á mót, ad afneita þínum og vorum óvin; ad umflýja allt þad, sem stríder á mótt þinni dýrd og vorri velferd.

Þú hefir haldið þitt loforð, því vér höfum reynt þig að vera þann besta velgjörða Föður, allt til þessa dags; en hvernig vér höfum haldið vort heit og lofanir, það er þér einum best kunnugt. Vér vitum að sönn, að vér erum syndugir, en þú veitst þó af fleiri og stærri syndum hjá oss, en vér sjálfir vitum. Þegar vér bundum sáttmála við þig, en þú aptur á mót verkaðir trúna í oss og gafst oss þinn Anda, vórum ver enn þá úngbörn og kunnum ecki handa vorra skil, né fótum vorum forráð, samt var það þér þægilegt, að vér engu að síður, sem smábörn, skyldum koma til þín, því þú vildir gjöra oss vissa um þann rétt, sem vér, af þinni náð höfum til himnaríkis, svo framt vér ecki sjálfir forsómum þvílíkt hjálpræði og gjörum oss óverduga ens eilífa lífsins. Með því eckert kann jafnast við þína gæðsku, þá

er þad tilhlýdilegt, ad þér verdi fyrir hana opinbert þacklæti audsýnt í þínum Sefnudi, hvern þinn Sonur hefir med sínu dýrmæta blódi svo dýrt verdi keypt, Þad er naudsynlegt, ad þad, þér hefir verid lofad af þeim, sem adrir gjørdu þeirra vegna, verdi af þeim sømu ítrekad, þegar þeir vita ad gjøra skírslu á sínum hjartans þaunkum, og þess heldur fái skuldbundid sig vid þig. Þú, vor Gud! ávinnur vegsemd þar med, því þú øvyrdir ecki jafnvel þá lofgjørd, sem þú tilreidir þér af munni smábarnanna; þau styrkjast í trúnni og bindast med þrí sterkara bandi vid þig; þad er oss til uppbyggíngar, þegar vér heyrum, hversu þau kunna ad gjøra grein á þeirri von, er þau hafa. Til þessara erindagjørda hafa mørg af þínum børnum á þessum degi hér samansafnast, og ecki einúngis sýnt, ad þau

eru uppfrædd um þiñ vilja og þína velgjorníngа, eptir Guds ordi og þeirri óumbreyttu augsborgísku játníngu, heldur og einnig hafa þau endurnýad þañ sáttmála, sem þau vid þig gjordu í þeirri heilogu skírn. Géf ad þeirra hjortu, eptir þenna dag, adhyllist ecki nockurn eda nockud, utan þig einúngis og þad, sem þér er velþóknanlegt. Hjálpa þú þeim til ad hugleida, hversu mikla nád þú hefir þeim audsýnt í þeirri heilogu skírn, þar þau, í syndinni gétin og fædd, hofdu verdskuldad daudann, urdu, fyrir endurfædínguna, svo frelsud frá hverjutveggju, ad syndin kann ecki framar ad fordæma þau, og daudinn ecki heldur ad gjora þeim skada, þegar þau sjálf vilja ecki syndga motþróanlega og deya eilíflega. Var ecki þín gædska ysrid stór, sem gjordi þau fullvís um Barna útvalnínguna, jafnvel þó

Þú hefdir lángtúm betri börn í þín-
um einka Syni, fæddum frá ei-
lífu, í þeim heilögu Englum, sem
allir eru þín börn, þó þeir séu ecki
þíns Sonar brædur! Þú hefir fyr-
ir skírnina, gjört þau hluttakandi í
dýrdlegu frelsi þiña barna og full-
víss um þitt födurlega hjarta, svo
og géfid þeim rétt til þess eilífa lífs
og lífsins kórónu, og gjört þau
einnig ad medborgurum þeirra hei-
lögu og þínum heima-mönnum.
Kunnir þú ad veita nockrum stærri
náð? mundu þau kuña ad vænta
stærri gódsemdar af þér eda ödr-
um? O Drottinn! kéñ þeim ad
íhuga, hversu gruñlaus þín gædska
er vid þau, og ad gráta yfir því,
hversu lítid þau hafa skilid af þess-
um þínum himnesku velgjörníngi.
Kénn þeim ad ásaka sig sjálf, sem
yfirtrodslu-menn frá módur-lífi,
hverra hjartans þánka uppáfiñíng
hefir verid vond frá barndómi, ad

því leiti, þau hafa þrálega gengid á vegum síns hjarta og eptir því, sem þeirra augum hefir litist, hversu illa, sem þeirra hjörtu og augu hafa þess á milli vísad þeim veg'inn. Séf þeim ætíd þína náð, til ad þeckja og ydrast þessara afbrota, hver ad eru gagnstæd þínum heilaga vilja, og á móti því, er þau hafa þér heilaglega lofad.

Þín náð hefir sparad þau til þessa tíma, svo þau mættu í þíns Safnadar áheyru endurnýa þad heit, á móti hverju þú tókst af þeim, þá stund þau vóru hreinsud fyrir vatnsbadid í ordinu. Lát þau alla þeirra lífdaga ástunda ad halda þær lofanir, sem og einnig med ugg og ótta fyrir því, ad bregda af þeim nockru siñi. Verka þeirra egin sáluhjálp; framqvæm þad í þeim, ad þau vilji þjóna þér, sem helgar þeirra vilja; verka þú þad og eiñig, ad þau megi útrétta þad

þú vilt og þau sjálf ega ad vilja, svo helgar þú þeirra verk. En, eins og þau án þíns Sonar, kuña eldúngis eckert ad gjora, þá lát hann vera í þeim og þau í honum, svo ad hañ og þau megi vera eitt, eins og þú og hann erud eitt, ad þau, fyrir hann, fái megnad þad þau af sjálfum sér í engann máta géta. Vertú þeirra úngdóms typtunar-meistari, svo láta þau ecki einúngis af ad gjora hid vonda, heldur læra ad gjora hid góda, svo fá þau ecki einúngis vidbjod á þeim fánýta hégóma, sem er í heiminum, heldur leggja þaradauki kapp á í trúñi ad audsýna allar þær kristilegar dygdir, sem þér eru þócknanlegar og þeim sjálfum mestur sómi ad, svo ad þau verda megi hreinir bústadir fyrir þinn Anda, sem hefir hreinsad þau í skírninni og er ætíd reidubúiñ ad meddella þeim sínar gáfur. Þau hafa nú

góðviljuglega og í allra vor áheyrn, lofað að afneita Djöflinum, öllu hans athæfi og öllum hans verkum. Veit þeim þína hjálp, svo þetta falli þeim aldrej úr minni. Lát þau með alvarlegu hatri hata alla þína óvini, svo sem þeirra sálar og sáluhjálpar óvini. Hindra þú, góði Faðir! að þau nockru sinni gefi Djöflinum það rúm, að þau gjöri það hañ vill, eða hlýða því, er hañ ráðleggur, því athæfi hans er svikfamlegt og stríðir á móti þeirra frelsi: hans gjörnfagar eru skaðarlegir og stofna til þeirra fordjörfunar. Lát þau ecki falla í þær óvinarins hendur frá hverjum þú hefir þau frelsað, heldur hjálpa þeim að þjóna þér í heilagleika og réttlæti alla þeirra lífdaga. En þó Satan, þeirra mótstandari, gángi um kríng, þá banna honum að svelgja þau. Upplýs þeirra skilníngs augu, svo hans ráðabrugg

verdi þeim ecki ókunnugt. Réttú þeim skjeld trúarinnnar, ad þau í þeim sama géti útslockt hans glóandi pílur. Lát þau af ríkdómi þinnar dýrdar kroptuglega styrkjast, fyrir þinn anda, í þeim innra manni, svo þinn Sonur búa megi, fyrir trúna, í þeirra hjörtum, svo verdur hann, sem er í þeim, meiri enn sá, sem er í heiminum og þeim á móti; þau verda styrk og fá yfirunnid þad vonda med þínu ordi, sem hjá þeim byggir.

Þau hafa nú skuldbundid sig til ad trúa á þig, þinn Son, þinn og þíns Sonar heilagann Anda; hjálpa þeim hvern dag ad efna þeirra loford, ad trúa á þig af öllu hjarta; aldrej sleppa þeirri trú, er þau hafa þér og þínum heilögum lofad, heldur ad þau fylgja megi þeim óraskanlega, óumbreytanlega og óaptur-kallanlega sannleika, sem er þad eilífa lífsins ord og vegvísir til ei-

lífs lífs. Lát þau þeckja, að þau gjöra aldrej annað betra, eñ géfa grandvarlegar gætur að því sama hjálpræðis orði, hvert, eins og skínandi ljós í myrkum stað, skíni inn í þeirra hjörtu, til upplýsíngar þíns Sonar ypparlega lærdómi. Lát það upplýsa þeirra skilníng, helga þeirra vilja og géfa þeim ráð í öllum þeirra athöfnum. Lát það, að þau hafa kallað þig Föður, miña þau á þann heiður, sem góð börn eru skyldug að veita svo góðum Föður. Að þau hafa ákallað þiñ Son, sem er eiñ Drottiñ, viðhalda þeim ótta í þeirra hjörtum, hvern trúlyndir þjónar ega að veita þeim Herra, sem er himins og jarðar Drottiñ. Að þau hafa ákallað þañ heilaga Anda, miña þau á, hvernig þau ega að fylgja honum í því, að framgánga í öllum sañleika og á þínum vegum. Lát þau jafnframt aldrej gleyma því, er þau hafa svar-

id í dag, og svo fastlega þar eptir halda, ad þau daglega vardveiti dóma þíns réttlætis. Þínir þénarar hafa med handaña uppáleggíngu blessad þau og bedid þiñ heilaga Anda ad auka sínar gáfur yfir þeim og í þeim. Drottinn! tak aldrej þína hønd eda þiñ heilaga Anda frá þeim; stjórna þeim, sem þínum handaverkum. Utrétt þú þína hønd til ad styrkja, hjálpa og verja þau móti þeirra andlegum óvinum og lát engañ slíta þau úr þiñi hendi. Þau hafa nú játad þig opinberlega ad vera siñ Gud, sem og ljóst gjørt, ad þeim er eckl ókuñugt um þig, þiñ vilja og þínar velgjørdir, hvers vegna þeim er lofadur adgángur til þíns Sonar heilaga líkhama og hans dýrmæta blóds í því háverduga altarisins Sakramenti. Lát þau aldrej, nema vel prófud og undirbúin, framkoma til þvílíkrar sáluhjálplegrar mál-

skdar, heldur hugleida, hvers þau verda þar njótandi og hvad eptir muni koma ef þau mæta þar, sem óverdugir géstir. Iklæd þau sjálfur því rétta brúdkaups klædi; tilbú þau, sem þú vilt sjálfur þau séu og lát þau svo taka á móti gædum þíns húss og þeim heilogu hlutum í þínu musteri, sem þau, er ætla sér ad lifa og deya óefud um, ad verda hluttakandi í þínum himni og vegsemd og þinni dýrd og sáluhjálp. Verka þad, ad þau aldrej gleymi, ad þú hefir gefid þeim rúm í þínu húsi og nafn, sem betra er eñ sona og dætra. Hjálpa þeim hvert sem þau gánga um þín andyri, ad fiñast í þínu húsi, sem þínir heimamenn, sem og inni- og úti-fyrir því ad verda þecktir fyrir þína syni og dætur. Þín sáluhjálplega nád agi og uppfrædi þau ad fráfælast ógudlegt athæfi og þær veraldlegu girndir, en lifa hreinferduglega, réttferd-

nglega og gudlega í þessum heimi, svo sem þau, er vænta og eru víss um, að þeim skulí eilíflega vel vegna annars heims; því þegar þau þenkja um þig, sinn Skapara, í þeirra úngdómi, þá viltú einig þenkja til þeirra til ens besta hér og sídar í tímanum og eilífdinni. Hjálpa oss öllum, gömlum og úngum, foreldrum og börnum, húsbændum og þjónustufólki að hugleida og syrgja, hversu litlu þakklæti vér hofum offrað þér fyrir þína náð oss veitta í þeirri heilögu skírn, samt hversu ílla vér hofum goldid þér þau dýrmætu heit, sem þá vóru gjörd af oss. Þinn gódi hellagi Andi leidi oss hér eptir til að hafa vidbjód á öllu því, sem þér mishócknast, en halda fastlega vid þig einann. Lát oss aldrei med athugalausu og hneixlanlegu liferni í ordum, sem annaðhvert strída á móti þínum opinberudum sannleika, eda á móti sóma.

samlegu sidlæti, hneixla neina af þeim smælingium og únglíngum, sem kunna ad vera hjá oss, því þá mættum vér orsaka ecki einúngis vorum, heldur líka þeirra sálum eilífa fordjørfun. Stríd med og fyrir þína strídandi kirkju, hverrar limir þeir eru, sem í dag hafa opinberlega gjørt sína trúarjátníngu. Þitt heilaga ord og þín háverdugu Sakramenta vidhaldist hjá oss, án umbreytíngar, til veraldarinnar enda, ad vér fyrir þad hverttveggja mættum ætíd komast þér nær og nær.

Þinn Smurdi, vor allramildasti Arfa-Herra og Konúngur N. N. sé og veri blessadur af þér nú og sídarmeir, í þessari og tilkomandi veroldu. Lát Hañ uppskéra ávoxtiñ eiñig af þessa dags gjørdum, svo ad Hañ alla þá, sem endurnýad hafa sína skírnar lofun, reyna megi hlýdna og góda þegna,

er vita, ad hverr sá, sem óttast Gud, skal heidra Konúnginn.

Bjód lífi og lucku, bjód sóma og heidri, bjód ollum þínum góda ad vera hjá og yfir Heñar Hátign verri allramildustu Drottníngu N. N., Heñar vegr stadfestist í þínum ótta, þiñ vilji sé Heñar vilji, lát því aldrej af ad géfa Heñi nýa vitnisburdi um þína guddómlegu elsku. Þeirra konúnglegu Háheit Prinsarnir og Prinsessurnar finni, vid hvert fótmál þau gánga, þig, sem vegvísara og þína miskun, sem varatekt; bú þú í þeirra hjørtum og lát þau hvílast á þínum ørmum; gjør vel vid þad gjørvalla konúnglega Arfa=hús; gæd þú þad med þinni nád og auktú þínar blessanir yfir þvt. Tak ad þér allañ Kristinndómiñ; veittú adstod þessum Ríkjum og Løndum, samt hverjum einum iñbyggjara í þeim; géf oss frid

allt umkríng, en allrabelzt vid þig. Vardveit oss frá nærnum sjúkdom-um, en einkum frá þeirri synd, sem sannrgar vorar sálir. Utbýttú braudi til allra húngradra muña. Uthell þú huggun í allra sorgbitiña hjørtu. Þín hønd verndi allar eckjur, fød-urlausa og ysirgéfna. Þitt auga sjái fyrir vegfarendum. Þín bless-an fylgi þeim, er leita siñar atviñu. Þitt heilaga ord umvendi þeim syndugu. Þín óendanleg miskun taki þá umvendtu til nádar. Verk-adú þad, ad sálum þeirra sjúku vel lídi og vísa hjñi sídustu andvørpun þeirra, sem deya í trúñi, veginn til þíns hjarta. Géf oss øllum meir eñ vér høfum umbedid, samt meir eñ vér skynjum ad bidja. Vardveit þú allañ vorn anda og sál og lík-hama óstraffanlega allt til vors Drottins Jesú Krists tilkomu. A-men! í Jesú nafni, Amen!

## Bæn eptir Prédikun,

á þann almennilega Bænadag.

Drottinn, allsmektugi Gud, miskunnsamasti mildi Fadir! Vér þín fráfallin børn komum nú aptur med þeim fortapada syni til þíns húss, og af allri vorri sálu og hjarta prísum þína yfirfljótanlega gædsku, sem þú tíd eptir tíd, ár eptir ár svo fødurlega hefir audsýnt oss allt til þessa dags. Einkanlega ad þú af skjærri nád og miskunn hefir géfid oss hreinann lærdóm þíns heilaga, líf-kroptuga ords, hvar med þú eñ þá svo ríkuglega forsorgar vorar húngradar sálir, sem med því rétta himna-brandi. Þú hefir þar ad aukí blessad oss med øllu gódu, líkhamans vegna, og nærsta fødurlega frí-ad oss og fødurlandid frá ýmsum

þúngbærum landplágum, sem oss aðrar hefdu kuñad ad henda og tilfalla. Fyrir þetta alltsaman og hvad þú hér ad auki hefir audsýnt oss, aðadhvert øllum almennilega, ellegar nockrum af oss sérdeilislega, af þíñi fødurlegu gædsku, þú, vor Gud! og þitt allraheilagasta nafn veri blessad og hátt lofad af oss eilífllega. Drottinn! þín verk eru mikil vor á medal, vér tølum þar um, eñ þótt vér kuñum eckl ad reikna þau. Vér framteljum þína velgjørnínga vid oss og gledjum oss, ad þú svo vel hjálpar oss. En — æ! hvad erum vér, o Gud! ad þú mináist vor? og hvad eru vor verk, ad þú vyrdir oss svo mikils? Vér megum sañarlega vidurkéña og qvarta sárlega, ad vér eckert sídur høfum verdskuldad af þér, enn þína náð, hverja vér svo optlega høfum medtekid forgéfins, ad vér ecki høfum viljad láta leida oss þar med til al-

varlegrar og sañrar ydrunar; þvi vér hofum syndgast, Drottiñ! vér hofum syndgast og gjørt órétt fyri þér! vér hofum verid ógudlegir og erum mótþróanlega burtu vikair frá þínum bodordum og þínum réttindum. Vér hofum verid þverbrotnir og hlýddum ecki þínum þénurum, sem tøludu í þínu nafni til vorra Konúnga, vorra Høfdíngja, vorra Fedra og til alls fólksins í landinu. Drottiñ! þér heyrir réttlætid til, en vér megum skammast vor. AE! vorar syndir, vorar syndir, vorar syndir liggja hardt á oss, vorar syndir nidurþryckja oss, vorar syndir hrópa í himiniñ og vér hlygdumst ad upplypta vorum áságnum til himins, fyrir fjølda sakir vorra misgjørnínga; þvi vorar syndir eru uppvaxnar yfir vor høfud og vor søk er stór allt upp til himinsins. Opt hofum vér látid sjá oss sorgfulla fyrir syndina med

bæn og föstu, með andvarpi og kløgun, en hverja ydrunar áverti hefir Þú síðan fundið hjá oss? Vér hrósum oss af trúnni, en kjærleikurinn, án hvers vor trú er ecki nema dauð trú, finnst nú varla — Því verr — framar hjá oss. Vér köllum oss sjálfir kristna, en — Guð nádi oss! — hversu aumañ og fanýtañ kristindóm vér sýnum opt og tídum vor á medal, fullir af verstu syndum og svívyrdíngum, med hverjum vér vøldum Því, ad Þitt allraheilagasta nafn verdur svo opt lastad á medal heidíngjaña. O vej! o vej oss! ad vér høfum svo syndgast; en hvad skyldum vér segja? hvad skyldum vér klaga, Þótt Þú vildir nú láta Þig ángra allt Það góda, sem Þú híngad til hefir oss audsýnt og Þreytast á ad miskuna Þig framar yfir oss, en Þarámót vitja vor med Þeim hørdustu plágum og ofurselja oss megnum villudómi, ad vér skyldum

trúa lýgi og folskum lærdómi? Æ Drottin! þú hefir fundið vera misgiorninga, en vér meaum réttilega játa, að vér sannarlega hofum verðskuldað ecki að eins allt þetta, heldur og einig það, sem er allra þýngst, þína eilífa reiði, dauðann og fordæminguna; en fyrir þíns nafns sakir, Drottin! þá vertú oss náðugur og miskuna þig yfir oss. Æ! straffa oss ecki eptir maklegleikum, heldur lát náðina ríkja fyrir réttlætið; því vér vitum að þín miskunsemi hefir engan enda. Vér treystum á þann eið, sem þú sórst oss, að þú viljir einkis syndugs manns dauða, heldur að hann betri sig og lifi; því liggjum vér nú með voru auðmjúku hjartans bæna ákalli fyri þínu augliti, ecki uppá vort réttlæti, heldur uppá þína miklu miskunsemi, og hrópum af sorgfullu hjarta í trúnni: æ Faðir! vér hofum syndgast í himininn og fyrir þér

og erum ecki verdugir ad kallast þin börn. Fyrirgéf, fyrirgéf o mildi Fadir! allar vorar syndir, vegna þíns eingétins Sonar Jesú Krists, og afmá vorar yfirtrodslur fyrir hans dýrmætu verdskuldun. Allt hans hlýdni, en tilreikna oss ecki vora óhlýdni. Lát hans fridþægíngu koma oss til góda, sem hann med sinum dauda hefir oss útvegad og géf oss þá gledi, sem erum hans endurleystir, ad vér allir mættum fá synda fyrirgéfníngu hans vegna.

Lát, o Gud! þitt heilaga ord búa ætíd ríkuglega vor á medal, med réttri og heilsusamlegri tídkun þeirra háverdugu Sakramenta. Vertú aldrei svo reidur vid oss, ad þú nockurutíma annadhvert umbreytir eda oldúngis burtsviptir þessum heilogu hlutum frá oss, allt til veraldar enda. Géf réttskickada Prédikara og Kénnendur, sem bædi kénni vel og lifi vel og lát þitt

ord ætíd fá framgáng fyrir þá, þér til dýrdar og folkinn til sáluhjálpar. O Jesú Kriste! vidhaldtú þinni sonnu evangelísku kirkju á móti ollum ofsóknurum og folskum kenendum, og lát vora mótstandara og allann heiminn sjá, ad þar er einn Gud til, sem er Drottinn yfir sínum, er voldugelga vill vernda þá fyrir ollum þeirra óvinum.

Hafdú, o Gud! ætíd vakandi auga yfir landsins góda Fodur, þínum Smurda, vorum allramildasta Arfa-Konúngi og Herra N. N., auk þú Hans Herradæmi í þínum ótta og haldtú uppi Hans ríkium med réttlætinu. Vernda Hans Hátign á móti ollum Hans óvinum, heimuglegum og opinberlegum, en gjör þá til skamar, sem rádslaga á móti Honum. Bind fast Konúngsins hjarta vid þitt hjarta, ad Han í ollum hlutum megi leita þinnar dýrdar, sem þin þénari, og ætíd bera

umhyggju fyrir edlingu þiñar soñu kirkju, eins og heñar rétta forsvar og Fósturfadir. AE Drottiñ! lát Konúngiñ lifa og blessa Hañ fram yfir alla Hans Fedur; veit Hans Hátign lánggæda og luckusæla ríkisstjórn, og géf ad Hañ megi aldradur verda í fridi og gódum døgum.

Gjør miskunsemi vid Heñar Hátign vorrar allramildustu Drottníngar N. N. og lát Heñar ósk ætíd vera fyrir þér; uppfyll Heñar Hátign med þínum føgnudi og géf ad Heñar hjarta megi ætíd gledja sig af þiñi hjálp. Sed Hennar Hátign med laungum lífdøgum og set Heñar sálu eilíflega fyrir þínu augliti.

Uthell þiñi náð yfir (vorn Jedidiah og Drottins elskulega,) Hans konúnglegu Háheit vorn nádugasta Krónprins og Herra N. N. og set Hañ sem iñsigli á þínu hjarta. Lát Hans sálu aldrej hnegjast til nockurs ílls, en géf honum laungun til þín og

þins orðs. Prýð Hañ öllum konúnglegum og furstalegum dygðum, og sýn Honum þína miskunsemi, að Hann megi lifa. Legg náð og prís yfir þá konúnglegu Prinsa og Prinsessur, haldt þiñi guddómlegri vernd yfir þeim og öllu því konúnglega Arfa-húsi. Vertú sjálfur, o Gud! glóandi múr í kríngum þá, svo engin ólucka megi snerta nockurn af þeim. Drottiñ! vitja Konúngsins húss með þiñi náð og burt-tak aldrei þína miskun þar frá æfinlega.

Blessa Hans konúngl. Hátignar Ráð og gef að þeir í öllum hlutum megi fylgja þínum ráðum, þér til dýrðar og landinu til besta. Blessa í sama máta og vernda Hans konúngl. Hátignar Stríðsmakt bæði til lands og sjóar. Vertú sjalfur skjöldur og verja yfir þeim á móti öllum þeirra óvinum, en gef þeim blýðin hjörtu að óttast þitt nafn, trúfest hjörtu til að þjóna fúslega,

einørd hjørtu til ad bérjast hraust-
lega þegar tíminn er, og samþyck
hjørtu til ad vera stadføstum, allir,
sem einn madur og óttast eckt. Lát
þá vera kostgæfna Konúnginum og
Landinu til besta og lát daudann ald-
rei yfirfalla þá.

Bjód þínum heilogu Englum
ad fylkja sér í kríngum allt landid,
og burtsnú nádarsamlega frá oss
øllum maklega verdskuldudum plág-
um, strídi og blóds úthellíngum,
húngri og dýrtíd, stórmi og óvedri,
eldsneyd og vatnsvoda, pest og ødr-
um fárlegum næmum sjúkdómum,
samt allri annari ólucku bædi til
lífs og sálar. Snú til vor aptur
þinni fødurlegri gædsku til allrar
tímanlegrar og eilífrar velferdar.
Géf frid, Drottinn! um vora daga;
géf lucku og velferd í vorum lønd-
um; lát þína dýrd framvegis búa
á medal vor, svo trúfestin og sann-
leikurinn mætist sín á milli, en rétt-

lætid og fridurinn kyssi hvert ann-
ad. Blessa einn og sérhvern í sínt
ærlegri höndlun bædi til lands og
vatns. Blessa vort stand og vort
embætti, vora næríngu og bjorg;
vorn sveita og vort ervidi. Blessa
vora stadi og vora akra, vor hús og
vorar kursir og vorar afgánas leif-
ar; landsins ávortur og lifsins á-
vortur veri blessadur fyrir þér.
Drottinn! bjód þinni blessun ad
koma yfir allt þad, sem vér tokum
oss fyrir hendur; blessun af himn-
um ad ofan, blessun af undirdjúp-
unum ad nedan, svo ad vor bless-
an megi ná allt til þeirra ellífu
hædañà takmarka; blessa oss Gud,
vor Gud! og jordin gefi sin ávort.
Audsýn, o Gud! játendum vorrar
trúar, sem í ýmsum stodum plág-
adir eru, ásamt þinni sañri kristni,
þína undrunarlegu gædsku, í gégn
ollum þeim, sem setja sig upp á móti
þiñi hægri hendi, en lát þá sjá og

þeckja, ad þú ert þeirra Frelsari, sem á þig vona. Drottinn! frelsa þitt fólk og blessa þá, sem eru þinn arfur og eignndómur. Lát engann af oss missa þína blessun tímanlega edur eilífa, heldur vertú sjálfur læknir þeirra sjúku, hjálpari þeirra naudstoddu, huggari þeirra harmþrúngnu, forsorgari þeirra volaðu, forsvar ecknanna og fadir fodurlausra, hugguu allra huggunarlausra, hjálp allra hjálparlausra og miskunna þig yfir oss allasamann. O Gud! vertú oss aumum syndurum líknsamur! Fyrirgéf oss allar vorar blódugar syndir og uppgéf oss allt verdskuldad straff bædi tímanlegt og eilíft, fyrir Jesú Krists, fyrir Jesú Krists skuld!

Veit oss, o Gud! þína náð, til réttilegs og alvarlegs ángurs og trega, sökum umlidinna synda,

til stedugrar trúar og traustis til vors Frelsara Jesú Krists, og ad sídustu til gledilegs og sáluhjálplegs vidskilnadar frá þessum heimi, ad vér ætíd mættum finnast í þinni þjónustu, fullir af trúnni og gódum verkum, sem eru þeir réttu ydrunar og umvendunar ávextir. Hjálpa oss, almáttugi Gud og Fadir! ad vér aldrej framar meir føllum í nockurt syndsamlegt andvaraleysi, edur skammarlega vanrækjum þennann vorn vitjunartíma og vorn rétta hjálprædis dag, heldur ad vér ætíd vökum og bidjum til þín, svo ad vér med styrkdum anda í gladri von, mættum ætíd vænta dýrdarlegrar tilkomu vors Drottins og Frelsara Jesú

Krists, oss til fullkominnar eilífr-ar útlausnar og sáluhjálpar. Æ Drottinn! þú hátt-lofada Þrieining, Fadir, Sonur og heilagur Andi! heilagi Herra Gud! heilagi sterki Gud! heilagi líknsami Lausnari, þú æfinlegi Gud! heyr vora bæn og géf þú gætur ad vorri grátbeidni! Heyr oss og miskuna þig yfir oss nú og ætíd, Amen! Amen!



# Vegleidsla

fyrir

## Presta,



(Eptir Konúngs Kristjáns V. Kirkju-Ritúal.)

## I. Um Skírnina.

Enginn, hverr helzt hann er, skal láta hindra børn sín frá Skírninni lengur enn Løgin leyfa, heldur strax, þegar barnid er fædt í heiminn, skulu foreldrarnir edur adrir náúngar sorga fyrir því, ad þad skírt verdi bid fyrsta møgulegt er. Þeir. sem vilja láta skíra børn sín, skulu ádur gefa þad vidkomanda Presti til vitundar, og láta bædi sín egin nøfn og líka barnsins og Gudfedginanna rita í kirkjubókina, sem Prestur siálfur gjørir. Øll børn eiga ad skírast í kirkiunni í hennar Skírnar-fonti, þrisvar ausast yfir bert høfud, í nafni Guds Fødurs, Sonar og heilags Anda. Børn skulu skírast strax þegar úti er Predikun; en ærlegar persónur, sem hafa gott mannord, skal taka fyrir Skírnar-votta, þó ecki fleiri enn 5, karlmenn og qvennmenn til samans. Þegar þau eru komin med barnid, gengur Prestur-inn til Skírnar-fontsins og framqvæmir Skírnina, sem eptirfylgir:

Fyrst spyr Presturinn: Er barnid heima skírt? og sé þad ecki, fer hann áfram og segir:

Elskuleg Guds børn!

Eptir því syndin er fyrir einn mann inkomin í heiminn og daudinn fyrir

syndina og daudañ hefir sér til allra maña innbreyngt, af því ad allir hafa syndgad; svo er nú fordæming komin yfir alla menn, fyrir eins manns fall, hvar fyrir vér og allir erum, af náttúrunni til, reidinnar börn og hefum skort á þeirri hrósun, sem vér áttum fyrir Gudi ad hafa En líka sem margir eru syndugir vordnir fyrir eins manns ohlýdni, svo verda og fyrir þess eina Jesú Krists hlýdni margir réttlátir; því eins og syndin hefir ríkt fyrir daudann, svo skal og nádin ríkja fyrir réttlætid til eilífs lífs, fyrir Jesúm Krist vorn Drottiñ, hverr ed fyrir vorar syndir var ofurseldur og fyrir vors réttlætis sakir uppvaktur, í hverjum og Gud vor Fadir hefir útvalid oss, ádur eñ veröldin var grundvöllud, ad vér skyldum vera heilagir og ó-straffanlegir fyrir hans augsýn í kjærleikanum, og hefir skickad oss í

honum til sonarlegrar útvalníngar eptir sinni velþocknun, og tekid oss til nádar í þessum sínum elskulega, til lofs sinni dýrdarlegri nád, svo ad vér höfum endurlausnina fyrir hans blód, sem er syndanna fyrirgéfníng. En uppá þad vér skyldum fá rétt og adgáng til þessarar Guds nádar í Kristi, hefir hañ innsett endurfædíngarinnar og endurnýúngariñar laug, sem skédur fyrir heilagann Anda, hverjum hañ hefir ríkuglega útheillt yfir oss fyrir Jesúm Krist vorn Lausnara, ad vér réttlættumst fyrir hans nád, og yrdum erfíngjar eilífs lífs eptir voniñi; því skírnin er ecki burttekt holdsins saurugleika, heldur sáttmáli gódrar samvitsku vid Gud, fyrir upprisu Jesú Krists. En uppá þad, ad þetta barn (þessi born), sem er gétid í syndiñi og fædt í yfirtrodsluñi, kunni ad sjá Guds ríki, í hvert vor Herra Jesús Kristur

hefir sjálfur sagt: ad enginn kunni inn ad komast, nema hann fædist ad nýu út af vatni og Anda, svo viljum vér, í þessa Drottins Jesú nafni, inntaka þad, fyrir þá heilögu skírn, í samfélag þeirrar kristilegu kirkju, til ad verda hluttakandi hans velajorninga, eptir þeirri reglu og máta, sem hann sjálfur hefir fyrirsett, þegar hann skipadi sínum Lærisveinum: farid út um allan heiminn og kénnid öllum þjódum og skírid þær í nafni Guds Fodurs, Sonar og heilags Anda.

(Sídan segir Prestrinn:)

Medtak þú teikn hins heilaga Kross, bædi á Enni og á Brjósti, til vitnisburdar ad þú skalt trúa á þann krossfesta Drottinn Jesúm Krist.

Látum oss alla bidja:

O! almáttugi, eilífi Gud, Fadir Drottins vors Jesú Krists! eg ákalla þig fyrir

þetta þitt barn (þessi þín börn), sem bid-
ur um þína skírnar gáfu og girnist þína ei-
lífu náð, fyrir þá andlegu endurfædíngu;
medtak þú þad (þau), Drottinn! og eins
og þú hefir sagt; bidjid og munud þér
medtaka, leitid og munud þér finna, knýid
á og mun fyrir ydur upplokid verda; svo
gef nú þad góda þvi sem bidur (þeim sem
bidja), og lát upp dyrnar fyrir því (þeim),
sem áknýr, ad þad (þau) ödlist eilífa bless-
un þessarar himneskrar laugar, og medtaki
fyrirheitid ríki þinnar gáfu, fyrir Jesúm
Krist vorn Drottinn, Amen!

Látum oss heyra þad heilaga Gudspjall,
sem Markús skrifar í 10da Kap.

Og þeir færdu úngbörn til Jesúm, ad hann legdi hendur yfir þau, en Lærisveinarnir átöldu þá, er þau báru, og er Jesús sá þad, líkadi honum þad ecki vel og sagdi til þeirra: leyfid börnunum til mín ad koma og bannid þeim þad ecki, þvíad þvilíkra

er Guds ríki. Sannlega segi eg ydur: hverr hann medtekur ecki Guds ríki, sem annad úngbarn, sá mun ecki inngánga í þad. Og hann tók þau í fáng, lagdi sínar hendur yfir þau og blessadi þau.

Til þeirrar sömu blessunar vill-jum vér og hjálpa þessu únga barni med vorri Drottinlegri Bæn til Guds.

(Svo leggur Presturinn høndina á barnsins høfud og segir:)

Fadir vor! þú, sem ert á himnum, 2c.

(Sídan gengur Presturinn nær skírnar-fontinum — og hún sem barnid ber — og segir:)

Drottinn vardveiti þinn inngáng og útgáng, nú hédan í frá og ad eilífu, Amen!

(Sídan er spurt ad nafni barnsins.)

Lofadur veri Gud og Fadir vors Drottins Jesú Krists, sem eptir

finni miklu miskunsemi vill endurfæda þig til lifandi vonar, fyrir upprisu Jesú Krists frá daudum, en þú verdur med honum greftradur, fyrir skirnina, til dauda, uppá þad, ad líka svo sem Kristur er uppvakinn frá daudum fyrir dýrd Fødursins, svo skulir þú og gánga í nýu liferni.

N. Afneitar þú Djøflinum? Já!
Og øllum hans verkum? Já!
Og øllu hans athæfi? Já!

Trúir þú á Gud Fødur almáttugann, Skapara himins og jardar? Já!

Trúir þú á Jesúm Krist Son hans eingétinn Drottinn vorn, gétinn af heiløgum Anda, fæddann af Maríu meyu, píndann undir Pontió Pilató, krossfestann, lidinn og grafinn, nidurstiginn til helvitis, upprisinn af dauda, uppstiginn til himna, sitjandi til Guds Fød-

urs hœgri handar, hadan komandi ad dœma lifendur og dauda? Já!

Trúir þú á heilagañ Anda og ad er ein heiløg, almennileg, kristileg kirkja, sem er samneyti heilagra, fyrirgéfníng syndaña, holdsins upprisa og, eptir þetta líf, eilíft líf? Já!

Vilt þú uppá þessa trú verda skírdur? Já!

(Barnid nefnist.)

N. Eg skíri þig í nafni Guds Fødurs og Sonar og heilags Anda.

(Sídan les Presturinn, med handanna yfirleggíngu, þessa bæn:)

Sá almáttugi Gud og Fadir vors Drottins Jesú Krists, sem þig hefir endurgétid fyrir vatn og heilagann Anda, og hefir þér allar þínar syndir fyrirgéfid, hann styrki þig med sinni nád til eilífs lífs, Amen!

Fridur sé med þér, Amen!

## Til Gudfedginanna.

Góð Systkyn! sem verid hafid Gudfedg-
ini þessa barns, þér skulud vera vitni til
ad þad sé skírt í nafni heilagrar Þrenn-
íngar; svo skulud þér einnig vita, hvad
þér erud þessu barni skyldug, ef Foreldr-
arnir kynnu frá ad falla ádur enn þad
kémur til lögaldurs, ad þér þá látid kénna
því sín kristileg Frædi, ef þid erud barn-
inu svo nálæg, ad þad mætti halda sér
vid Krist, þegar þad uppvex, eins og þad
nú er, fyrir skírnina, honum innplantad.

Fridur sé med ydur, Amen!

## II. Um heima skírd Børn.

Er barnid heima skírt? Já!
Hverr hefir skírt barnid?
Er þad skírt í hreinu vatni? Já!
Er þad skírt í nafni heilagr-
ar Þrenníngar? Já!

Drott-

Drottinn vardveiti þinn inngáng og útgáng, nú hédan í frá og ad eilífu, Amen!

N. Afneitar þú Djøflinum? Já!
Og øllum hans verkum? Já!
Og ollu hans athæfi? Já!

Trúir þú á Gud Fødur almáttugann, Skapara himins og jardar? Já!

Trúir þú á Jesúm Krist Son hans eingétinn Drottinn vorn, gétinn af heiløgum Anda, fæddann af Maríu meyu, píndann undir Pontió Pílató, krossfestann, líflátinn og grafinn, nidurstiginn til helvítis, upprisinn af dauda, uppstiginn til himna, sitjandi til Guds Fødurs hægri handar, þadan komandi ad dæma lifendur og dauda? Já!

Trúir þú á heilagann Anda og ad er ein heiløg, almennileg kristileg kirkja, sem er samneyti heilagra,

fyrirgéfníng syndanna, holdsins uppriſa og, eptir þetta líf, eilíft líf? Já!

Látum oſs heyra það heilaga Guðspjall, sem Markús skrifar í 10da Kap.

Og þeir færdu úngborn til Jesúm, ad hann legdi hendur yfir þau, en Lærisveinarnir átöldu þá, er þau báru, og er Jesús sá þad, líkadi honum þad ecki vel og sagdi til þeirra: leyfid bornunum til mín ad koma og bannid þeim þad ecki, þviad þvílíkra er Guds ríki. Sannlega segi eg ydur: hverr hann medtekur ecki Guds ríki, sem annad úngbarn, sá mun ecki inngánga í þad. Og hann tók þau í fáng, lagdi sínar hendur yfir þau og bleſſadi þau.

Til þeirrar sömu blessunar vil-
jum vér og hjálpa þessu únga barni
með vorri Drottinnlegri Bæn til
Guðs.

(Svo leggur Presturinn höndina á
barnsins höfuð og segir:)

Fadir vor! þú, sem ert á himnum, 2c.

Eptir því, kjæru Krists vinir! að þetta
barn er áður skírt í nafni Guðs Föðurs,
Sonar og heilags Anda og hefir allareiðu
meðtekið heilagann Anda með syndanna
fyrirgéfníngu, fyrir því skulum vér það
ekki endurskíra, að vér ekki gjörum spott
og háð að heilögum Anda, og skuluð þið,
Guðfeðgin! hér um framar öllum öðrum
vitni bera og þakkir gjöra Drottni Guði
vorum, sem það hefir til náðar tekið
fyrir Krist.

(Með handanna uppáleggíngu.)

Sá almáttugi Guð og Fadir vors Drott-
ins Jesú Krists, sem þig hefir endurgétið fyr-
ir vatn og heilagann Anda, og hefir þér
allar þínar syndir fyrirgéfið, hann styrki
þig með sinni náð til eilífs lífs, Amen!

Friður sé með þér, Amen!

Enginn, utan vigdar personur mega skíra; en sé barnid svo veikt eptir fædínguna, ad þvi verdi ecki, án lífsháska, komid til kirkju, þá, sé Prestur ecki nálægur, edur önnur skickanleg karlmanns persóna, sem komin er til lögaldurs, má Yfirsetu-konan, eda önnur gudhrædd qvinna, skíra þad í hreinu vatni, en ecki ödru, þannig:

N: Eg skíri þig í nafni Guds Fødurs og Sonar og heilags Anda.

Þó skal þad ské í tveggia edur þriggja nærveru, þid minnsta, er vitna kunni um þad, ad barnid sé rétt skírt í nafni heilagrar Þrenningar. Veri þad til ad fædíngin komi svo hastarlega, ad módirinn og barnid sé í lífsháska, eptir ad þad er fullfædt í heiminn, ad hún hafi ecki tíma ad kalla adra þar til, þá má hún siálf skíra sitt barn, sem fyrr segir. Devi þad þá, svo er þad vel dáid, þar þad hefir meðteckid þá réttu skíru, hvar um Presturinn skal undirvísa módurinni, ad hún ecki efist.

---

## III. Um Barns-sængur-konur.

Prestarnir skulu kostgæfilega undirvísa óléttum konum og áminna þær, ad þær med þacklæti vidurkénni þá blessun, er Gud hefir þeim veitta, en vakti sig fyrir óadgætni og skadlegum tilfell-

um, sem mögulegt vera kann. Erviði trúlega í þeirra kalli, þegar tíminn kémur, vitandi, að jafnvel þó öll þessi gæði sé verðlaun syndarinnar, þá eru þær þó Guði þacknæmar í þeirri hinni sömu stétt, þegar þær eru stöðugar í trúnni, heilagleika og hreinlífi og með þolinmæði vænta góðrar og mjúkrar lausnar. Þeir skulu einnig áminna þær til þolinmæði, opt og tíðum fela Drottni sína vegu og sinn lífs ávöxt til allrar náðar og verndar, með þessum eður þvílíkum hætti:

Eg þacka þér, almáttugi, eilífi Guð! elskulegasti Jesú Kristi! fyrir þessa þína blessun. Þar eð þú sjálfur boðið hefir: að börnin skuli koma til þín, þá offra eg nú þessu mínu fóstri og lífs ávexti og bið þig, að þú viljir hann meðtaka og jafnan þér befalaðann vera láta, svo hann megi eilíf not fá af þínu heilaga dýrmæta blóði, en þegar tíminn er, eptir þinni velþóknun, fyrir gleðilega og milda lausn, án allra meina, koma í þenna heim, og fyrir þá heilögu skírn verða endurfæddann til eilífrar sáluhjálpar, Amen!

---

## IV. Um Yfirsetu-konur.

Yfirsetu-konur ega fyrst ad yfirheyrast og géfiñ bréf uppá þeirra Embætti; þær ega ad þjóna ríkum og fátækum, fyrir sanngjörn laun af þeim, er géta, en hinum uppá Guds vegna. Hverr Prestur í sinni Sókn á þær ad uppfræda, hvernig þær skuli hegda sér vid módirina og fóstrid.

1.) Ad þær viti rétt ad hugga óléttar konur, sem eru komnar ad falli og áminna til þacklætis vid Gud, fyrir þad þær eru blessadar med lífs ávexti, hvert ecki hlotnast öllum konum, og ad þær af hjarta bidji Gud um hjálp og adstod hverr ed gjörir þad besta, samt leida þeim fyrir sjónir ad þetta sé kross vegna syndarinnar, 1 Mós. 3, sem fljótt umsnúist til gledi, Jóh. 16, ef þær í trúnni med þolinmædi bída Drottins tíma; en skyldi koma þar ad, þær sýndust vera staddar í lífsháska, ad þær feli sig Gudi med þeim ödrum, sem bera hans kross. Þó skyldi spart ræda hér um, nema lífsháski væri sýnilegur.

2.) Ad þær fari varlega med fóstrid, svo þad ecki af þeirra medferd fái nockurn skada. Finni þær, þad lifandi med Módirinni, en veikt í fædingunni, skulu þær fela þad Gudi med þessum eda þvílíkum bænar-ordum:

O Herra Jesús Kristur! sem hefir einkum þócknun á úngbörnunum, sem borin

eru til þín og hefir lofad þeim himnaríki. Eptir því sama lofordi framberum vér þér nú þetta barn. Medtak þú þad, o allra hjartkjærasti Jesú! Lát þad eilífiega njóta þinnar endurlausnar, er þú útvegadir oss á þínum krossi, Amen!

Fædist barnid ad ellu, en svo veikt, ad sýnist dauduona, skulu þær strax skíra þad, sem fyrr segir, bls. 294, og ef tíminn leyfir, lesa þessa bæn:

O Herra Jesú Kristi! vér offrum þér þessu barni uppá þín egin ord og bidjum þig, ad þú medtakir þad og látir verda sannkristid. Eda enn styttra:

O Herra Jesú! medtak þú þetta barn.

Sé barnid dáid í módurlífi, beri þær sig od hjálpa henni. En svo þær sái því betur minnst þess, er þeim á herdum liggur í þeirra Embætti, þá skulu Prestarnir tvisvar á ári, um Páska og Michaels messu leiti, í Medhjálparanna nærveru, í hverri Sókn, upplesa fyrir þeim í Kórnum, þessa eptirskrifada Pósta:

1. Þar þér hafid tekist á hendur þad Embætti, med hverju margra mædra og barna líf er lagt í ydar hendur, þá ber ydur ad vera gudhræddri og heyra ydugleza Guds ord, svo þér fáid med því huggad

þær, er í barns-neyd liggja og bedid fyrir þeim til Guds, samt ad hann vilji géfa ydur góð ráð og blessa í ydar Embætti af sinni miklu náð, og vitid: ad það er hans, en ecki manna, ad útleida born af móðurlífi.

2. Skulud þér vera árvakrar í ydar Embætti, ad bædi mædurnar og bornin haldist vid heilsu og heilbrygdi; því ef þau lída skada af ydar forsómun, adgætsluleysi, dryckjuskap eda þesshattar íllri medferd, þá erud þér mordíngi, en Gud mun krefja þess saklausa blóds af ydur.

3. Skulud þér varast þúnglyndi, hatur, fjandskap og hefndargirni. Hafi nockurr gjört ydur óréttt, þá gleymid því af kristilegum kjærleika, en látid ecki naudlídandi gjalda. Sé barnid daudt med módirinni, þá reynid samt til ad bjarga henni.

4. Skulud þér med gódri greind og skynsemi umgángast léttar konur, elska þær og eins og mædur breyta vid þær, hugga þær med Guds ordi, þá vidþarf og bidja fyrir þeim, áminna þær ad ervida trúlega í sínu kalli, eptir Guds tilskipun, ad þær ecki, fyrir skammvinnra harmqvala skuld, fyrirfari sínum lífs ávexti, sér til vondrar samvitsku.

5. Skulud þér vera fúsar til ad hjálpa eins vel fátækum, sem ríkum. Ecki skulud þér krefja ofmikilla launa, heldur þjóna þeim orsnaudu uppá Guds vegna. Þótt þér séud eins skyldar ad hjálpa þeim, sem fæda í saurlífi, skulud þér ecki styrkja til ad dylja þad, heldur strax géfa þad Sóknar-prestinum til vitundar.

6. Skulud þér einúngis brúka vid módurina og barnid bænina og leyfileg, náttúrleg, kristileg medøl, en ecki nockur ó-gudleg, hjátrúarfull eda óleyfileg, heldur opinbera, ef nockurr brúkar þau. Fyrirvyrdid ydur ecki ad sækja rád til þeirra, er betur vita, bædi Ljósmædra og annara.

7. Skulud þér ætíd vera hóffamar og varast dryckjuskap, svo ydur ecki yfirsjáist hans vegna; fordast lauslátt og óskickanlegt tal og athæfi, svo ecki séud til hneixlis ødrum qvinnum, heldur gódra eptirdæma.

8. Þegar neyd ecki brádlega heimtar, skulud þér ecki fljótlega áræda nockud med ydar eindæmi, heldur gjera bod skynsómum konum og líka Presti, ef vidþarf, módurinni til huggunar.

9. Skulud þér vera þagmælskar og ecki opinbera nockrum, hvad áfátt kynni

vera fyrir konunni, svo henni gefist ecki orsök til ad blygdast þar af.

10. Af skíeninni skulud þér ydur ecki skipta; en sé barnid, þá fædt er, í lífsháska, þá megid þér, náist ecki Prestur eda nockurr skickanlegur karlmadur, sem kominn er til logaldurs, skíra þad í nafni Guds Fødurs, Sonar og heilags Anda. Annars skulud þér fela barnid Gudi á medan þad enn þá er í módurqvidi, ad hann vilji þad, fyrir Krists sakir, til nádar taka.

11. Þér skulud ecki heldur ega hlut í nockurs barns heimuglegri greftrun, heldur, ef ótímabær burdur fædist, skulud þér vísa hans greftrun til Prestsins úrlausnar.

Uppa þessa pósta skal Yfirsetu-konan vinna eid. (Sjá Tilskip. um Hjónab. 3ja Jún. 1746, §. 15.

## Eidurinn stýlist þannig:

Eg N. N. medtekin ad vera Yfirsetukona, sver og lofa:

1.) Ad eg skal ætíd hafa mér Gud fyrir augum í þessari ervidu köllun, af öllri kostgæfni, fyrir Guds nád og þar

til sæmileg medöl, trúlega hjálpa einni og sérhverri, sem minnar hjálpar óskar, eins fátækum og ríkum, varhygdarlega hondla med fóstrid og módirina, svo ad fyrir mína vangætslu, forsómun eda ílla medferd, orsakist enginn skadi.

2.) Skal eg ecki leyna nockurri óekta fædíngu eda barns-mordi, sem fyrir mig kann ad koma, heldur á tilhlýdilegum stodum þad strax auglýsa, hvert sem í hlut á, án manngreinar álits.

3.) Vil eg finnast héssem, hreinlíf og kostgæfin í mér tiltrúadri kollun og ollu því eg tek mér fyrir, og mér svo í lífi og lifnadi hegda, eptir fyrir mér upplésnum Póstum, ad enginn, næst Guds hjálp, hafi orsok í nockurn máta yfir mér ad klaga,

Svo sannarlega hjálpi mér Gud og hans heilaga ord!



## V. Um Kirkju-leidslu qvenna.

Þær qvinnur, sem barn alid hafa, skulu, eptir fædinguna, halda sig nockrar vikur heima, en sídan af Prestinum innleidast. Þær, sem leidast í kirkju, skulu ádur géfa Prestinum þad til kynna og láta sitt nafn innskrifa.

### Kirkju-leidslu mátinn má vera á þennann hátt:

Elskulegt Guds barn! Þér erud í dag uppgengnar til þessa heilaga Guds-húss, sem glatværog blessud barna-módir, ad prísa ydar Gud, fyrir þá miklu nád, sem hann á ydar barnsfædingar tíma hefir ydur audsýnt, ad hann ecki einúngis hefir gésid ydur krapt ad bera ydar lífs ávøxt til þess rétta tíma, heldur miskunsamlega leyst ydur og blessad med dæilega skøpudum syni (dóttur); en þar hann hefir fyrir fædinguna gjørt hann (hana) ydar erfíngja, hefir hann þar strax eptir, fyrir endurfædínguna tekid hann (hana) til arfskiptis heilagra í himninum; því skulud þér nú yfirvega tvennt, sem þér í þessari ydar kirkjugaungu hafid ad athuga:

1.) Hver ydar skylda sé vid Gud fyrir þvílíka nád.

2.) Hver ydar skylda sé vid ydar barn.

Það fyrsta sem ydur ber ad gjøra, er: ad þér, sem guðhrædd módir, framberid ydar barn Gudi, þess Skapara, hverr verid hefir þess høfundur og gjort það besta vid ydur; þvi þótt børnin fædist af sinna foreldra holdi og blódi, ad þeir kunni ad segja, sem Adam um konu sina Evu, vora fyrstu módur: hún er hold af mínu holdi og bein af mínum beinum, 1 Mós. 2, 23, þá er þó Gud vor allra Skapari, og megum játa med David: þú, Drottinn! hultir mig í minnar módur lísi, Ps. 139, 23. Það er Gud vor Skapari, sem innleidir oss í módur-lífid og út þadann aptur, ad vér ecki forforumst. Hann apturlykur fyrir qvinnunni, svo ad hún ecki fædi, eins og hann gjørdi í Abimelechs húsi, 1 Mós. 20, 18.; hann apturlykur og fyrir barninu, ad það ecki fædist, heldur deyr í módurlífi, Jób 16, eda verdur sinni módur, sem Benóní og sorgar-sonur, 1 Mós. 35, 18. Í því tilliti kallar heilagur Andi það blessun Guds, þegar konan fædir, 1 Mós 1, 28; því án hennar verdur hun aldrei módir, og enn sidur gladvær barna-módir; en Gud hefir géfid ydur hverttveggja, þér, Drottins blessada! hann hefir blessad ydur med lífs blessun, ad þér erud vordnar módir, hann hefir blessad ydur med líkhams blessun ad þér erud glod og blessud módir ad yndislegu barni, sem er án lýta, en fyrir endurfædinguna Guds barn. Svo opt sem þér lítid þetta eda ønnur børn, sem Gud hefir blessad ydur med, skulud þér hugsa med sjálfri ydur, það sú makkabæiska

sagdi fyrr til sinna barna, 2 Makk. 7, 22: eg er ad sönnu ydar módir, en eg veit ecki hverninig þér álitust í mínu lífi; því eg gaf ydur ecki anda og líf, og eg sasnadi ecki svo undarlega ydar fyrsta grundvelli. Því ber ydur med þackargjörd ad medtaka þessa gáfu af hendi Drottins og í dag, samt daglega med Aunnu Samúels módir, bera Drottni hans egin gáfu med lofgjörd og þacklæti, 1 Sam. 1, 24. Ad þér ecki einúngis í dag, sem Lea, þegar hún fæddi Júda, segid til Drottins: í þetta sinn vil eg lofsegja og þacka Drottni, 1 Mós. 29, 35, heldur segja med Davíd: eg vil lofa Drottinn, svo lengi sem eg lifi; eg vil kunngjöra lof Drottins, medan eg er til, Ps. 146, 2. Hann, sem hefir þad gjört, ad þér kunnid ad búa gladvær barnamódir hér eptir í ydar húsi, Ps 123, 9, elskast af ydar barni (börnum) og hrósast af ydar húsbónda, Ordsqv 31, 28. En ad þér enn framar fáid audsýnt þá ydar lofgjörd og þackæti vid Drottinn ydar Gud, þá sjáid til ad þér, sem erud ordin glöd módir í fædíngunni, verdid forsjál og Gudi þægileg módir í uppfóstrinu; og þad er:

Í annann máta ydar skylda vid ydar barn, ad þér ecki einúngis berid umhyggju fyrir þess líkamlegri forsorgun, heldur fyrir þess sálarfódri, af hverju þad fær uppalist til himnaríkis og vaxandi farid med aldrinum og styrkleikanum, í vísdómi og nád hjá Gudi og mönnum, Luk. 2, 22. Þegar þér takid barn ydar á brjóst, þá gleymid ecki ad fæda þad um leid

á þeirri ósviknu mjólk, sem Pétur talar um, 1 Pét. 2, 2, ad þad uppvari í náð Jesú Krists og hans sáluhjálplegu þeckingu, 2 Pét. 3, 18, Offrid því í dag og daglega qvøld og morgna Gudi í ydar bænum og ástundid, ad þad í frá barnæsku megi uppfrædast í Guds heilaga ordi, 2 Tim. 3. 15, ad þad ødlist þann sáluhjálplega vísdóm og læri ad gánga sinn veg óstraffanlega fyrir Drottni, Ps. 119, 9. Minnid þad á ord Salómons: þenk til þíns Skapara í þínum úngdómi, Pred. 12, 1. Hugsid vel sjálfar um áminning Páls: þér foreldrar! uppalid ydar børn í aga og umvøndun Drottins, Eph. 6, 4. Vaktid ydur, ad þér hverki med ordum edur verkum hneixlid ydar barn, því vei þeim manni fyrir hvern hneixlanin kémur, segir Kristur, Matth. 18, 7. Hafid ætíd í minni þau ord er Drottinn taladi á fjallinu Sinai: ef þér gángid óskickanlega fyrir Drottni, þá mun hann vitja ydar vondsku á ydar børnum í þridja og fjórdu ættqvísl; en þar á móti: ef þér elskid hann og haldid hans bod, gjøra miskunsemi í þúsund lidu vid barn ydar, 2 Mós. 20, 1. Hverrar blessunar eg af hjarta, fyrir Jesúm, óska ydur og bid í hans nafni: Fadir vor! þú, sem ert á himnum, rc.

Gángid inn med fridi í Guds Søfnud og offrid Gudi løfgjørd og þacklæti, sem hefir svo vel gjørt vid ydur. hann styrki ydur framvegis bædi til lífs og salar og láti þennann ydar inngáng og útgáng ætíd verda blessadann fyrir sínu augliti, Amen!

# Annad Form.

Hafi barnid dáid fyrir eda eptir barnburdinn, fyrir eda eptir skírnina; sé annadhvert barnid eda módirin sjálf nockud sérlega vanheil og óhraust, eilegar nockurr veikleiki af því tilefni uppáfallinn: þá lagi Presturinn ord sín og hugsanir þar eptir. Hann skal þá í þvílíkum tilfellum tala á þenna hátt:

Elskulegt Guds barn! Þér erud máské med miklum andvarpum og sorgar-veini í dag uppgengnar til Drottins húss, eptir ydar harda og örduga barnburd, eins og harmþrungin módir, sem saknar barns síns, Luk. 2, 43; en þér skulud med þacklæti gánga inn í Guds hús; því jafnvel þó þér sorgfullar vera megid í ydar hjarta, þar Gud hefir tekid ydar barn frá ydur, ber ydur samt ad hugleida, ad Gud tók eckert nema þad, sem hann ádur hafdi ydur géfid. Eda hvad fáid þér annad sagt um þetta Guds verk, enn þad, er sá mótlætti fadir Job sagdi, þegar öll börn hans vóru daud: Drottinn gaf, Drottinn burttók, lofad sé nafnid Drottins, Job. 1, 21. Nú, þó þér haft hafid þjáingu og harmqvæli fyrir ydru barni, svo ydar lendar hafa af pínu vanmegnast vegna ydar barnsburdar, þá vitid þér þó, ad Gud var sá, sem lét hann ávöxt vara med ydur, svo þér ecki reiknast skyldud á medal þeirra ófrjófu. Hann gaf ydur styrkleika til ad fæda þad, sem til fædingarinnar var fullkomid, hvar annars eng-

inn sjukur hefdi verid, 2 Kóng. 19, 3. Hvert viljid Þér Þá reidast vid missir Þess, hvers Þér aldrei vórud rádandi en sjálfur Gud hafdi mesta rétt til? Jób. 4, 9. Viljid Þér gremjast yfir Því, ad Gud hafi ydar ervidi og von ad engu gjert, ad Þér med módur Sisseræ væntud yd- ur lifanda barns, og sjá! Þess líf var í burtu? Þér væntud aledi, Dóm. b. 16, 21, og sjá! Þar var sorg. Jer. 8, 15. Þenkid Þó ecki, ad ydar von sé med ollu úti, líkist heldur Job í hug- prÿdinni, hvert, Þá neydin lá sem hardast á honum, sagdi: Þó Drottinn deydi mig, skal eg samt á hann vona, Job. 13, 25. Sé ydur Þad til ángurs, ad ydar barn hafi dáid í mót- ur-lífi. ádur enn Þad, fyrir endurgetningar laug- ina, sécк lifid í Kristi, Gal. 3, 27, Þá huggid ydur aptur á mót Þar vid, ad Þér vitid ydar barn af Gudi medtekid, sem trúud kristin manneskja, hvar med Þér í voninni, eins og góð módir, í fullu trúar-trausti, offrad hafid ydar barni Drottni ydar Gudi.

Þér vitid enn framar, ad enn Þótt nyt- semi skírnarinnar sé mikil og ómissandi til sálu- hjálpar, Jóh. 3, 5, samt er Gud Þó ecki ætíd bundinn vid skírnina og Þvílík sáluhjálpar med- ol, heldur frelsar hann allteins án medals, sem fyrir Þad. Hversu margir dóu ecki í Því gamla Testamenti óumskornir innan áttunda dags? hversu margir á 40 ára ferdinni í eydimørkinni, Jós. 5, 5? hversu margir í Egyptalandi und- ir Pharaóni, 2 Mós. 1, 22? hversu marg r undir tÿrannanum Anthiokus, 1 Makkab 1, 36.

2 Makkab. 6, 10? hverr vill segja: ad allir þessir hafi ecki ordid sáluhólpnir? Því skyldi Gud ecki hafa gétad nú géfid þessu barni trúna í ydar lífi, eins og hann fordum gaf hana þeim litla Jóhannesi í lífi módur sinnar, Lúk. 1, 44? Þegar þér einúngis hafid góda samvitsku, ad þad ecki í nockurn máta af ydar voldum er svo hafiarlega torthúk, þá haldid ydur vid Guds fyrirheit, hver géfin er ydur og ydar barnum, eptir Guds egin óbrygdula lofordi, fyrir munn Péturs, Post. G. 2, 39, því hvad Gud sagdi ádur til Abrahams, þad hefir hann og talad til allra trúadra: eg vil vera þinn Gud og þíns sædis Gud, 1 Mós. 17, 7. Huggid ydur vid Jesú ord, er segir: ydar himneski Fadir vill ecki ad einn af þessum smælíngjum glatist, Matth. 18, 18, því þeirra er himnaríki, Matth. 19, 14.

Ef þér setjid fyrir ydur þá vanheilsu, sem ydur eda barni ydar er tilfallin í fædíngunni, svo þér máské qvarta megid med Naomi, ad sá hinn almáttugi hafi birlad ærid beiskt fyrir ydur, Ruth. 1, 20, þá vitid þó ad Guds vilji er ætíd betri enn manna vilji; ydur ber því ad þegja med stillíngu og þolinmædi, en segja med David: eg vil þegja og ecki munni mínum upplúka, því þú, Drottinn! gjördir þad, Psl. 39, 10. Þar fædist stundum einn af módurlífi, sem nockurn brest hefir á sínum limum, sem sá blindi, Jóh. 9, 1, sá halti, Post. Gb. 3, 2, stundum einn, sem hefir ofmarga limi, sem hinn hái madur, er hafdi 6 fíngur á hverri

hendi og 6 tær á hverjum fæti, 2 Sam. 21, 20. Stundum fædist ein manneskja andvana, sem eckert líf hefir af sinnar módur lífi. En hverr vill þessvegna þrátta vid Skaparann og segja til hans: hvad gjördir þu? Því vej þeim, sem segir til fødursins: hvad gatst þú? og til módurinnar: hvad fæddir þu? Es. 45, 9. 10, Ef þér þenkid med qvinnunni í Sarepta, ad Gud sé ydur reidur, og þetta hafi ydur hendt, svo ydar misgjørninga minnst verdi og ydar sonur (dóttir) tortýnist, 1 Kóng 17, 18, svo þér þykist med Rebekku segja mega: hafi Gud blessad mig, hvar fyrir skédur þetta? 1 Mós. 25, 22, þá vitid, ad Guds dómur skal ætíd birjast á Guds húsi, sem Pétur kénnir, 1 Pét. 4, 17, því þeim bestu børnum refsar Gud optlega hardara hinum ødrum, Hebr. 12, 5. Alitid Guds eingétinn Son, sem var líkari mødki enn manni og hafdi þar eckert tilunnid, Ps. 22, 7. Alitid þá heiløgu hvad þeir hafa útstadid; álitid Job, Job. 1, 18; álitid Pál, hann útvalda Guds Postula, 2 Cor. 12, 7. Já, setjid ydur fyrir sjónir øll Guds børn, skulu þau ecki øll lída med Kristi, ef þau annars vilja med honum dýrdleg verda? Róm. 8, 7. Leggid Krists ord vel á hjartad, sem hann sagdi, þegar hann var spurdur um þann mann, sem blindur var fæddur af módurlífi: ad hverki hann né foreldrar hans hefdu syndgad til þess, heldur ad Guds verk skyldi á honum opinbert verda, Jóh. 9, 3. Hyggid ydur vid Postulans Páls ord: ad allir hlutir þéni þeim til góds, sem

elska Gud, Róm. 8, 28. Þó ydar barn væri veikt í fædíngunni, þá er þad samt fyrir endurfædínguna sálnhólpid og í dýrd hjá Gudi. því þad, sem sáist forgengilegt, mun uppr.sa vegsamlegt, 1 Cor. 5, 42. 43. Þótt nú barn ydar sé burtu frá ydur, þá er þad samt í höndum Guds. Þótt þér saknid þess nú úr ydar skauti, þá gledjist vid þess hvíld í Abrahams skauti, Lúk. 16, 23; sé þad hér ecki framar, þá er þad medal útvaldra í himninum, Ebr. 12, 22. Sé þad hér andvana fyrir augum vorum, þá lifir þó sála þess hjá Gudi; syrgid því ecki! Jesús tók ydar barn til sín, ad þad skuli vera þar, sem hann er og njóta eilífrar sælu.

Látid ydur nú nægja Guds vilja og gángid inn í Guds hús med þackargjörd, styrkid sálu ydar í Gudi og prísid hans nafn, sem allt gjörir vel. Gjörid þér svo, þá mun Guds blessan hvíla yfir ydur og þér med gledi sjá þad í ydar lífi, hvers eg ydur af hjarta óska og undir eins bid med ydur: Fadir vor! þú, sem ert á himnum, rc. Gud styrki ydur med sínum Anda og láti ydur sjá og smacka hversu sætur Drottinn sé.

---

## VI. Um opinbera Aflausn.

Þeir, sem skulu standa opinberar skriftir, eiga nockru ádur ad mæta hjá Prestinum, og óska

aflausnar: finni hann hjá þeim sannarlegt ángur og trega fyrir þeirra drýgdu synd, skal hann nærstkomandi helgidag, þá þvílík aflausn á ad ské, medtaka þá og á eptirfylgjandi hátt aflensa:

Þann dag þvílíkur syndari á ad aflensast, skal, ad endadri prédikun géfast Søfnudinum til kynna af Prédikunarstólnum, ad þar sé ydrandi syndari, sem hafi brotid á móti því N. bodordi og med því hneixlad þeña Krists Søfnud, hvers vegna hann í dag sé innkominn fyrir Guds Søfnud, opinberlega ad afbidja synd sína hjá Gudi og hneixlid hjá Søfnudinum; ad Guds børn vildu bidja fyrir honum til Drottins, ad hann af nád sinni vilji snúa honum framvegis og svo stjórna, med sínum heilaga Anda, ad hann falli ecki optar í þvílíkann glæp og Guds reidi, hvar til vér samhuga viljum óska honum nádar og blessunar af Gudi Fødur, í Kristi Jesú vorum Herra.

Svo byrjar Førsaungvarinn 8da versid af No. 138 í Messusaungsbókinni; en á medan kémur sú persóna er leysast skal, til Kórdyra og fellur þar á kné, Presturinn útmálar þá med fáum ordum fyrir Søfnudinum, vidurstygd þeirrar drýgdu syndar, samt hversu hrædilega sú persóna hafi breytt móti bodi Guds og þessum Jesu Krists Søfnudi, sem þar af hefir hneixlast. Hann áminnir syndarann til sannarlegs apturhvarfs, eptir hverju hann enn betur grenslast med eptirfylgjandi spurningum, sem hann gjørir til persónunnar þannig:

1.) Spyr eg, uppá Guds vegna, ydur N. N. ad: hvert þér ecki hér fyrir Gudi og þessum kristnum Sofnudi, alvarlega medkénnid, auk annara ydar mergu synda, ad þér hafid einkum med þessari ydar N. synd mikillega styggt ydar himneska Fodur og hneixlad ydar samkristinn náúnga, þó einkum þenna Guds Sofnud, hvers limur þér hafid verid? Andsvar: Já!

2.) Hvert ydur af hjarta ángrar þessi ydar drýgda yfirsjón, med hverri þér hafid verdskuldad Guds reidi, med tímanlegu og eilífu straffi? Já!

3.) Hvert þér trúid því stoduglega, ad Gud, fyrir síns eingétins Sonar, Jesú Krists dýrmætu verdskuldun, vilji vera ydur miskunsamur og tilreikna ydur ecki þessa synd? Já!

4.) Hvert þér hafid stoduglega ásett ydur, hér eptir — med Guds adstod — ad fordast og flýa allar þvílíkar yfirtrodslur, en kostgæfa betra og hreinferdugra líferni eptir þenna dag? Já!

5.) Hvert ydur af hjarta lángar ad medtakast til samfélagsskapar þessa Guds safnadar, sem þér hafid med ydar synd og hneixlun ydur fráskilid, og gyrnist nú hjart-

anlega ásamt ödrum Guds börnum, ad verda hluttakandi í Jesú Krists allra heilagasta líkama og blódi í Sakramentinu. Já!

Þess er hér ad gæta: ad sé þad hér eda fridlísi, á ad spyria ad faderni barnsins, til hvers hún á þá í sannleika ad segja.

Prestur segir þá en framar eptir játíngunna:

Svo snúid ydur þá til Safnadarins og afbidjid þad hneixli, sem þér med þessari synd hafid géfid honum. Syndarinn stendur þá upp og snýr sér ad Sefnudinum og segir:

Eg bid ydur, Guds born! ad þér viljid fyrirgéfa mér þessa mína framda yfirsjón, en steytid ydur ecki né hneixlist fremur á mér.

Svo fellur syndarinn aptur á kné fyrir Prestinum, sem þá enn fremur hans vegna afbidur hneixlid; áminnir þar hiá, med Páli: hverr, sem þykist standa, sjái til ad hann falli ecki, 1 Cor. 10, 12. Hvar uppá Presturinn, med handanna uppáleggíngu, aflevsir syndarann á þennann hátt:

Eptir þessari ydar hjartans medkénníngu, sem þér hafid nú opinberlega gjört fyrir augliti Guds og þessa hans kristins Safnadar, þá uppá Guds og míns Embættis vegna, tilsegi eg, eptir Jesú Krists

egin skipun og uppá hans kreptuga orð ydur N N þessarar ydar drýgdu N synd-ar og allra annara ydar synda fyrirgéfn-íng, í nafni Guds Fedurs, Sonar og heilags Anda, Amen! Gángið burt í fridi Drottins og syndgid ecki meir!

Forsaungvarinn byrjar þá versid No. 145 í Messusaungsbókinni. Prestúrinn byrjar strax þar eptir Communionem, gengur þá syndarinn upp til altarisins, ásamt ødrum, ad medtaka qvøldmáltídar Sakramentid.

## VII. Um Vitjun Sjúkra.

Sjúkra, vanfærra og sængurliggjandi, sem ecki komast til kirkju, ega Prestar opt ad vitja og ecki ad neita þeim Sakramentis í heima-húsum, þegar þeir óska þess og verduglega þegda sér eptir Guds ordi og skipun, Þeir skulu og, þá hentugleiki gefst, áminna Søfnud-inn ad senda eptir sér í tíma, þegar einhvert verdur veikur, en bída ecki til fremstu laga, ad hann því optar géti vitjad þeirra og komid þeim til adstodar og þénustu, med áminníng, ráð og huggun, í þeirra sjúkdómi. Þar fyrir utan skulu þeir nákvæmlega kostgæfilega áminna hin sjúka á krapt hans skirnar, fyrir hvern hann heldur gódum samvitskunnar sáttmála vid Gud,

og má vera, fullviss um eilíft líf, ef hann heldur sér fast i trunni vid Jesúm og hans dýrmætu verdskuldun, sem honum er til sáluhjálpar skéd. Sé Presturinn veikur, svo hann géti ecki komid, þá skal vitja næsta Prests, verdi hann fenginn. Þegar Prestur er kalladur ad þjónusta, skal hann koma, hvert sem er á nótt eda degi, tafarlaust; hann skal adgæta hvernig hinn sjúki hagadi sér heilbrygdur, svo hann géti því betur undirvísad honum til sáluhjálpar í hans sjúkdómi.

Þegar Presturinn kémur til hins veika, heilsar hann honum vinsamlega, en þegar hann hefir med fám ordum spurt hann, hvernig honum lídi, má hann á þessa leid tala til hans:

Eg formerki ad þér, í þessu ydar sjúkdóms ástandi, sem eg nú finn ydur í, hafid þörf fyrir krapt og styrk Guds, ad bera hans krossmed þolinmædi, hvers eg vil ydur því hjartanlega óska, ad þér fáid, eins og Job, þolinmódlega bedid alla ydar strídsdaga, og í stadfastu trúar-trausti til hans miklu miskunar, vænt gódra og gledilegra umskipta á sínum tíma. Drottinn, sá hjartanlegi gódi Gud, sem slær og grædir, straffar og huggar, frá hverjum öll sú hjálp kémur sem á jördu skér, hann komi nú ydur til hjálpar í þessum ydar veikleika og gjöri á honum gledilega endalykt eptir sínum födurlegum vilja og velþóknun þá tími er, til hans dýrdar og ydar sáluhjálpar.

Þeir, sem viðstaddir eru, gánga þá burtu, þángað til Communio byrjast, svo Prestinum sái í einrúmi talað við þann sjúka. Hann heldur þá áfram ræðu sinni þannig:

Kiærasti Guðs vinur! Vared Guði, ydar himneska Faður hefir þóknast að vitja ydar með þessum sínum föðurlegum krossi, þá gjörið þér vel, að þér, sem Guðs barn auðmýkið ydur undir voldnga Guðs hönd og í tíma sorgið fyrir sálu ydar, að hún megi stöðug standa, jafnvel midt í dauðanum, og að þér, fyrir ydar Frelsara Jesú Krists allraheilagasta líkhama og blóðs hlutteknÿngu, nú að nÿu megið verða fullvissir um ódauðlegt líf eptir þetta. Eg efast ecki um, að þér, eins og réttkristinn maður hafið, eptir Páls áminníngu, réttilega búið ydur til þessa mikla sáluhjálpar verks og kostgæfilega ransakað ydar hjarta og samvitsku, hvernig þér hafið allt híngað til hegðað ydur eptir Guðs heilaga boði og vilja, hvað þér þar á móti brotið hafið annaðhvert með verkum, orðum eða þaunkum, til að reita ydar himneska Föður til reiði þar með. Þessa ydrar ydur nú af öllu hjarta og í fullu transti til Guðs náðar, framberið nú hans eginn Son fyrir hann, ydar Frelsara Jesúm Krist, sem með sínum dauða hefir fullnægju gjört fyrir allar ydar syndir og afrekað ydur sínnu inngáng frá þessum dauða, inn til ens eilífa lífs í himninum. Ef nockuð kann að vera það, sem liggur þúngt á ydar hjarta, þá áminni eg ydur að þér nú opinberið það fyrir Drottni Guði

ydar og í þann máta léttid á ydar samvitsku, dyljid enga reidi, eckert hatur, engann óvinskap hjá ydur á móti nockrum manni, heldur fyrirgéfid þeim öllum af hjarta, sem ydur kuña ad hafa á móti gjört, svo ad þér megid vitbúnir vera nú og ætíd, hvert heldur þessi sjukdómur skal vera til lífsins framvegis edur til daudans, med hinum forsjálu Jómfrúnum, ad taka á móti ydar sálar brúdgúma og med gladværri og rólegri samvitsku ad vænta hans tilkomu. En uppá þad, ad eg Guds og míns Embættis vegna, megi þess vissari vera um fullkomna ydar undirbúning til þessa mikla sáluhjálpar verks, þá framségid medkénningu ydar trúar og ydar skriftargáng í Jesú nafni, ad svo miklu leiti, sem ydur í þessum veikleika kann mögulegt ad vera.

Þegar hinn sjúki gjörir svo sína medkénníngu, þá ber Prestinum ad taka vel vara á, hvad þýngst liggur á hjarta hins, svo þessi fái huggad hann þar á móti af Guds ordi, med Krists dýrmætu verdskulldun, samt fullvissa hann um allra hans synda nádarsamlega fyrirgéfningu, hverja hann þá tilsegir honum Guds vegna med handanna uppáleggingu. Prestur inn kallar þá fólkid inn aptur í húsid til sín, lætur setja upp lítid bord med ábreiddum hreinum dúki og tveimur logandi ljósum, á hvert hann setur Patínuna og kaleikinn med braudi og víni. Svo sjálfr hann sér ad þeim sjúka og þeim, er hjá standa og talar á þessa leid:

Kjær-

Kjæruſtu Guds vinir! Þar vor Herra Jeſús Kriſtur ſegir ſjálfur: ad hvar, ſem tveir eda þrír ſéu ſamanſafnadir í ſínu nafni, þar vilji hann ſjálfur vera midt á millum þeirra, og ad hvers þeir bidji Fødurinn í ſínu nafni, þad ſkuli þeir viſſulega ødlaſt; ſvo erum vér nú, eptir þeſſum hans ordum hér ſamanſafnadir í Guds ótta, til ad halda kriſtilega minníngu hans heiløgu Qvøldmáltídar, til ad gjøra þenna vorn ſamkriſtinn hluttakandi í vors Jeſú allraheilagaſta líkhama og blódi, af því hann, ſøkum líkhamans ſjúkdóms, fær nú ekki komiſt til opinberrar ſamkundu Guds barna, til ad njóta þeirra þar.

Vér viljum þá í vors Drottins Jeſú Kriſts nafni byrja þetta heilaga verk.

Uppá þad, kjæraſti Kriſts vinur! ad þér réttilega og maklega mættud medtaka þad háleita Sakrament Qvøldmáltídar vors Drottins, þá ber ydur einkum þeſſa tvo hluti ad vita og ſkilja, ſem er: hvad þér ſkulud trúa og gjøra; þvíad þeſſum ordum, ſem Kriſtur ſagdi: Þad er mitt líkhami, ſem fyrir ydur verdur géfinn og: Þad er mitt blód, ſem fyrir ydur útheliſt

til fyrirgéfníngar syndanna, skulud þér fullkomlega trúa ad svo í sannleika er; því= ad Jesús Kristur er þar sannarlega sjálfur hjá, med sínum líkhama og blódi í Sakra= mentinu, eptir ordanna hljódun. Þar næst skulud þér einnig trúa Krists ordum, til syndanna fyrirgéfníngar, þad: ad Je= sús Kristur skenkti ydur sinn líkhama og blód til innsiglis og stadfestíngar uppá allra ydar synda fyrirgéfníngu. Ad sídustu skul= ud þér fyllilega gjøra Krists skipun, þar hann svo býdur ydur segjandi: medtakid og etid! sømuleidis: dreckid hér af allir! og: gjørid þad í mína minníngu! Því hann hefir géfid oss sinn líkhama og blód ad eta og drecka til fyrirgéfníngar syndanna, og þar med ad minnast hans heiløgu pínu og dauda. Þar fyrir, þegar þér svo trúid þessum Krists ordum og gjørid eptir hans skipun, þá erud þér rétt prófadir og reynd= ir, sem Postulinn Páll segir, og megid svo maklega eta Krists líkhama og drecka hans blód til fyrirgéfníngar syndanna. Þar til géfi ydur Gud himneskur Fadir síns hei= laga Anda nád, fyrir hann sama Jesúm Krist vorn Herra! Þar um viljum vér all= ir Gud bidja af hjarta og segja:

Prestúrinn snýr sér að bordinu og les hátt, skírt og skodugt:

Fadir vor! þú, sem ert á himnum; helgist þitt nafn; tilkomi þitt ríki; verdi þinn vilji, svo á jördu, sem á himni; gef oss í dag vort daglegt braud; fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgéfum vorum skuldunautum; eigi leid þú oss í freistni; heldur frelsa oss frá illu. Amen!

Vor Herra Jesús Kristur, á þeirri nátt, sem hann svikinn var, tók hann braudid, gjördi þackir og braut þad og gaf sínum Lærisveinum og sagdi: takid og etid, þad er minn líkhami, sem fyrir ydur verdur géfinn. Gjörid þad í mína minníngu.

Somuleidis eptir Qvold-máltídina, tók hann kaleikinn, gjördi þackir, gaf þeim hann og sagdi: dreckid allir hér af, þad er kaleikur ens Nýa Testamentis í mínu blódi, sem fyrir ydur úthellist, til fyrirgéfníngar syndanna. Gjörid þetta, svo opt, sem þér þad dreckid, í mína minníngu.

Þegar Prestúrinn réttir braudid ad þeim sjúka, skal hann tala þessi ord:

Þessi sannarlegi líkhami Jesú Krists, sem er í dauðann géfinn fyrir ydur og allar ydar syndir, hann styrki og vidhaldi ydur í sannri trú til eilífs lífs.

Í sama máta, þegar hann réttir ad honum kaleikinn, talar hann þannig:

Þetta sannarlega blód Jesú Krists, sem er á krossinum úthellt fyrir ydar synda skuld, þad styrki og vidhaldi ydur í trúnni til þess eilífa lífs.

Svo gengur Prestsurinn ad bordinn aptur og les þá venjulegu bæn.

Látum oss alla bidja:

Vér þökkum þér Drottinn almáttugur eilífur Gud! ad þú med þessari heilsusamlegri gjöf hefir oss alla nært. Vér bidjum þína miskunsemi: ad þú látir nú þessa þína gáfu koma oss til alls gagns og góda og til vorrar sannrar trúarstyrkingar á þér, og til brennanda kjærleika og elsku á medal vor innbyrdis. Fyrir sakir nafns þíns elskulegasta Sonar Jesú Krists, vors Drottins og Herra, Amen!

Sídan lýsir Prestsurin blessun yfir þeim sjúka og segir:

Drottinn sé med ydur!

Drottinn blessi þig og vardveiti þig, Drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir þig og sé þér nádugur, Drottinn upplypti sínu augliti yfir þig og gefi þér frid, Amen!

Þar eptir kémur Presturinn nær til hins sjúka og í nálægd þeirra, sem vidstaddir eru, huggar hann í sínum krossburdi og setur honum fyrir sjónir, þá miklu nád og sáluhjálp, sem honum í þessa Sakramentis meddeilingu er veitt, hvad ské kann med eptirfylgjandi edur ødrum vidlíkum hætti:

Svo hafid þér nú, kjæri Guds vinur! enn þá ad nýu aptur forlíkad ydur vid ydar elskulega himneska Fødur, fullvissir um, ad hvad helzt ydur kann framvegis til handa bera, þá muni þó hvørki hid nálæga né hid eptirkomanda, hverki dandi né líf megna ad sá ydur skilid vid þann kjærleika Guds, sem er í Jesú Kristi. Róm. 8, 38. 39., þar Gud hefir sjálfur í dag endurnýad sinn nádar sáttmála vid ydur, og til stadugs og óbifanlegs teikns þar uppá, gjørt ydur hluttakandi í síns eingétins Sonar, ydar Frelsara heiløga líkhama og blódi, med hvørjum hann algjørlega hefir fullnægju gjørt fyrir allar ydar syndir og leyst ydur frá Heim eilífa dauda. Glédjist nú í Drottni ydar Gudi, og segid med David: Þótt eg gángi í daudans myrkva dal, vil eg enga ólucku hræðast, því þú, Drottinn! ert hjá mér, þinn vøndur og stafur hugga mig, fullviss um, ad þú munir leida mig í þitt hús, til ad búa þar

ætíd og æfinlega, Ps. 73, 4—6. Jafnvel þótt þér enn þá í þessum ydar líkhamans siúkdómi megid veina, eins og David veinadi fordum yfir hinum andlega siúkdómi: þar er eckert heilbrygdt á minu holdi fyrir hans reidi; þar er enginn fridur í minum beinum sökum minna synda; mitt hjarta skélfur, minn kraptur hefir yfirgéfid mig og ljósid minna augna dapraft daglega, Ps. 38, 4. 11., samt veit eg þó, þér hafid og finnid sérlegann Guds krapt í ydar sálu, vegna þess huggunarfulla og kroptuga Guds ords, sem talad er til ydar, ad allar ydar syndir séu fyrirgéfnar, fyrir hvert þér megnid ad mótstanda öllum ydar harmqvælum og gánga þar frá, sem sigurvegari ad sidustunni. Róm 8, 37. Þér hafid makt á móti syndinni, þegar hún freistar ydar, þvi Drottinn hefir í dag talad til ydar fyrir mig,— sinn óverduga þénara — þad, sem hann fordum fyrir Nathans Spámanns munn taladi vid David: Drottinn hefir tekid allar ydar syndir frá ydur. 2 Sam. 12, 13. Þér hafid makt á móti Sathan, þá hann vill freista ydar, því Kristi blód, hvers þér vordnir erud hluttakandi, hefir sigrad hann, Op. 12, 11. Hvad skyldud þér daudann óttast, þar þér hafid neytt Kristi líkhama, sem hefir frelsad ydur frá daudanum og géfid ydur þad eilífa líf, Jóh. 6, 54. Verid því hughraustir í krossburdinum og látid ydur ecki hugfallast, þó þér nú verdid typtadir af Drottni, Ordsq. 3, 11, heldur hagid ydur med hlýdni og spekt eptir ydar Guds vilja.

Þad er frá Gudi komid, sem þér nú lída meøid og þad mun færa ydur til hans, ef þér líøid þolinmódlega og erud stødugir í trúnni, því oss byrjar fyrir mikla ángist og harmqvæli ad inngánga í Guds og Jesú Krists ríki, Post. Gb. 14, 22. Þér vitid ad þad er Guds vilji, ad þér þannig reyndir verdid, því án hans vilja, kann ecki eitt hár ad falla af ydar høfdi, Matth. 10, 30. Þér vitid og, ad þad kémur af Guds elsku og ydar himneska Fødurs góda hiartalagi vid ydur, ad þér svo typtadir verdid, því hvern Gud elskar, þann agar hann, Ebr. 12, 6. Þótt þad nú mætti virdast ydur, sem Gud væri ydur reidur, þá ályktid þó med siálfum ydur og segid med Israel: eg vil feginn bera reidi Drottins, því eg hefi syndgad á móti honum, Mich. 7, 9. Svo áminnid því ydar sálu til losgiørdar og þacklætis vid Drottinn sinn Gud, er svo kroptuglega hefir endurnært ydur í þessari ydar eymd; kallid til hans nótt og dag med Maríu og segid: mín sál lofi Drottinn og minn andi gledji sig í Gudi heilsugiafara mínum, Lúk. 1, 46. 47. Hrópid aftur med David: og segid: lofa þú Drottinn, sála mín! og gleym aldrei því góda, sem hann hefir giørt þér; því hann hefir fyrigéfid þér allar þínar syndir, og hann mun lækna allann þinn veikleika; hann frelsadi líf þitt frá fordiørfuninni, hann mun og krýna þig med miskun og meøaumkun ætíd og æfinlega, Ps. 103, 2—4. Þenkid med siálfum ydur, þá harmqvælin eru sem hørdust; þegar eg hefi þig, Drottinn! þá

hyrdi eg hverki um himin né jörd, Ps. 37, 25 og bidid svo ydar tid med Þolinmædi og segid med Job: eg vil bida alla mína stríðsdaga, þar til min umskipti verda, Job 14, 14. Þótt þér nú egid ad bida daudann hér af, þá vitid, ad þér hafid útgáng aptur frá daudanum, Ps. 68, 21. Þar fyrir skulud þér, eins og Guds barn, stadfesta ydar von til Guds, nú á þessum ydar sinkdóms tíma, eins og á öllum ödrum tímum og fullkomlega einsetja ydur, ad sleppa honum ekki, hvad sem hann lætur ydur til handa bera. Segid med Jakob: Drottinn! eg sleppi þér ekki fyrr enn þú blessar mig, 1 Mós. 32, 26. Segid med Job: Drottinn! þótt þú viljir deyda mig, þá skal eg samt vona á þig, þú skalt vera hlutskipti míns hjarta ævinlega, Job. 13, 15. Í hverri huggun, von og trúar-trausti eg skilsi nu vid ydur, og vona ad sá, sem hefir uppbyrjad þid góda med ydur, muni fullkomna þad á þann dag Drottins Jesú Krists, hann léni ydur þar til stødugleika allt til ydar sídustu endaloka, fyrir Jesú skuld!

Ada seinast endar Presturinn rædu sína med eptirfylgjandi bænar-ordum:

Svo afhendi eg ydur Guds náð og miskunsemi, hann láti ydar harmqvæli verda bærileg og ydar þolinmædi stadfasta, ydar von og traust eldúngis óbifanlegt, hann láti sinn frid ætíd hvíla yfir ydur, frá því nú er og til eilífrar tídar, Amen!

Sé hinn siúki svo veikur ad ecki géti lesid Skriftargánginn, en Presitur finni þó hiá honum sonn ydrunar merki og innilega laungun eptir Sakramentinu, þá byrjar hann strax aflausnina og sídan Communionem, sem fyrr segir. En ef siúklíngurinn er svo staddur, ad hann hverki má heyra né tala, skal þó Prestur-inn ecki yfirgéfa hann, ecki heldur neita honum Sakramentisins, ef hann gétur med einhverju teikni til vitundar géfid sína laungun þar til, og skilur þad vid hann er talad. En sé hann bædi mál- og rænu-laus, skal Presturinn fela hann Gudi á hendur til nádugra umskipta, áminna þá, sem hiá standa, ad þeir samegin-lega framberi hann fyrir Gud í bænum sínum, ad hann vilji í nád lita til þessarar þiádu ikýpnu sinnar, hvad Presturinn þá enn betur útmálar eptir ástandi og kríngumstædum.

Ef þeir, sem alla æfi sína hafa forsmád Gud og hans ord, eda lifad ógudlega, vilja láta sér af Prestinum umvenda ad sídustu, þá er þad gott. En vilji þeir þad ecki, þá má Sakramentid ecki veitast þeim, svo þeir ecki medtaki þad til enn þá stærri fordæmingar. En hverjir, sem medkénna Krist og þeckia sitt illa lifnad, og rétt af alvøru bidja um Sakramentid, þeim má ad ósekju veitast þad; því Presturinn kann þó ecki ad dæma framar enn hann sier og heyrir.

## VIII. Um Freistada.

Verdi nockurr á sinni sóttarsæng eda og endiarnar freistadur, sokum finna synda, svo hann hlýtur ad klaga med David: ad hans syndir séu jafnan fyrir honum og séu honum vordnar ofþúng byrdi, Ps. 38, þá skal Presturinn, fái hann þvi vidkomid, vitja hans nockrum sinnum á hverjum degi; skal hann leggja alla áhuga á ad koma sálu hans aptur til rósemi, svo hann ecki falli í efasami um sína sálar velferd og hrygd hans verdi ecki hrygd til dauda, 2 Cor. 7, og skal Presturinn einkum framsetja fyrir hann:

1.) Guds óendanlegu og grunnlausu miskunsemi, sem sé lángtum stærri og kraptugri enn allar vorar syndir, Róm. 5.

2.) Skal hann setja honum fyrir sjónir Herrann Krist og hans almennu verdskuldun, med hverri hann hafi fullkomlega bætt fyrir vorar syndir, sé útgéfinn fyrir oss alla, Róm. 8, sé dáinn fyrir alla, 2 Cor. 5, Ebr. 2, hafi endurleyst alla, 1 Tim. 1, þvi hann hafi borid vorar syndir, Es. 53 lidid fyrir þær allar, Jóh. 1. og borgad fyrir þær allar, þegar hann vard forlíkan fyrir alls heimsins syndir, 1. Jóh. 2, syndarinn sé því viss um, ad syndin liggur ecki framar meir á honum, heldur á Frelsaranum Jesú, sem burttók allar heimsins syndir,

Jéh. 1. En svo hinn freistadi megi þess helt-
ur hughreystast, skal Presturinn

3) Framsetja fyrir hann Guds dýru fyr-
irheit og þann eid, sem hann hefir svarid öll-
um þeim, er gjöra sanna ydrun, hversu stór-
syndugir, sem þeir eru: svo sannarlega, sem eg
lifi, segir Drottinn, þá hefi eg enga þóknun á
dauda eins ógudlega, heldur ad hann betri sig
og lifi, Ezech 38; því þegar hinn ógudlegi
snýr frá sinn ránglæti, sem hann hefir framid
og breytir rétt og vel, þá skal sála hans lifa,
hann skal lifa og ecki deya Ezech. 18. Þegar
syndarinn kémst svo lángt, ad hann þeckir synd
sína, sem hann hefir drýgt á móti Gudi, en
þar á mót þá nád, sem Gud hefir honum aut-
sýnt í Kristi Jesú, þá þarf hann ecki ad skélf-
ast. vegna, synda sinna, hversu stórar, sem vera
kunna, því Drottinn er miskunsamur og vill ecki
reidast ævinlega, Jer. 3 Þó ad vorar syndir
séu raudar sem blód, þá skulu þær samt verda
hvítar sem snjór, ef oss einúngis ydrar þess
vonda og látum af ad syndga þverúdarsamlega
á móti Drottni, Es 1. Þar uppá hefum vér

4.) Svo mörg huggunarfull dæmi bædi í
gamla og nýa Testamentinu, sem mikillega fá
hughreyst freistadann og ángradann syndara.
Hversu stórkostlega reitti Davíd ecki Gud til
reidi, bædi med hórdómi og manndrápi og
fleirum stórsyndum? Þó tók Gud hann til nád-
ar, þegar hann medkénndi synd sína, og fyr-
irgaf honum ránglætid, þegar hann ydradist
þess, Ps. 32. Hversu mikillega syndgadi

Manasses ecki móti Gudi med afgudadýrkun, sem hann framfylgdi í Júda, med geldrun, med offrun hans barna til Mólóch, sem hann lét gánga í géanum eldinn, med offókn Guds ords þénara, þar hann lét saga Esajam Spámann sundur med tréfog? þó feck hann nád hjá Gudi, þegar hann kannadist vid sína synd og audmýkti sig fyrir Drottni, 2. Chron 33. Var ecki Páll Guds spottari og ofsókuari? þó sýndi Gud honum miskunsemi, þegar hann umvendti sér til Guds og lét af ránglæti sínu, 1 Tim. 1. Var ecki Pétur meinsæris-madur á móti Gudi, hverr ed þrisvar neitadi og afsór sinn eginn Herra og Frelsara? þó aumkadi Gud sig yfir hann, þegar hann grét synd sína og lét sig ángra hana, Matth. 26. Enginn er útilukstur frá Guds nád, hversu mikid, sem hann hefir syndgad, nema þeir, sem med ydrunarleysi og örvæntingum útskufa sjálfum sér, eins og Kain og Judas, 1 Mós. 4, Matth. 27.

Ef þeim freistada vyrdist ad hans syndir séu margar og miklar, þá vísa honum til þeirrar berfyndugu qvinnu, Lúk. 7, hennar syndir vóru og margar, en Gud fyrirgaf henni þær allar. Vyrdist honum ad hans ydran sé sein, þá vísa honum til ræníngjans á krossinum, hañ giordi allra fyrst ydrun á sinni dauda-stundu og feck þó þad andsvar af Kristi: í dag skaltu vera med mér i Paradís, Lúk. 23. Vyrdist honum ad hans trú sé engin, med hverri hann kunni ad reida sig uppá Guds miskunsemi fyrir Krist, þá áminn hann ad bidja Gud þar um,

en á medan láta sér nægja med þá veiku trú og eptirlaungun, sem hann hefir, ad mega fiña til truarinnar. Gud heyrir girnd þeirra fátæku, segir David, Ps 10. Svo lengi, sem syndarinn stendur ecki á móti Gudi med þverúd, svo lengi er líka trúin hjá honum, þó hañ þykist ecki til hennar finna. Já, í þvi hann qvortar yfir sinum trúar bresti, þá má hann álykta, ad hann þó hefir trúna, þó veik sé; því hún er opt og tídum, sem neisti í ösku og gullstycki, sem er hulid í jördunni. Byrdist hinum freistada ad Gud hafi hann yfirgéfid, af því hañ skélfist vegna syndanna, þá framset fyrir hann þad Gud sagdi til Zion: eg hefi ecki yfirgéfid þig, mína hönd vil eg ecki frá þér taka, Ebr. 13. Þó honum vyrdist, sem Gud hafi hann yfirgéfid, muni hann þó med mikilli miskunsemi til hans líta.

Ef syndariñ er hræddur um þad, ad hañ fái ecki haldid sér stadfostum vid Gud, þá skal hann vita: ad Gud freistar einkis manns yfir megn fram, 1 Cor. 10. Hafi hañ þegar uppbyrjad hid góda hjá honum, þá mun hann og einnin þad fullkomna allt til þess dags Jesú Krists, Phil 1. Fyrst hann uppbyrjar viljann til ens góda hjá syndaranum, þá géfur hann honum einnig nád til ad framqvæma þad, Phil. 2, þared Gud freistar einkis til hins vonda, heldur vill ad allir hlutir þéni þeim til góds, sem elska Gud, Róm. 8. Opt reynir Gud líka hinn syndnga til þess, ad hans truarljós skini því fegra í heiminum, Matth. 5.

Þar fyrir ber sérhverju Guds barni í þvílíkum freistingum ad þacka Gudi af hiarta, ad hann á þenna hátt vyrdist ad vitja hans, og bidja Gud um stadfestu allt til enda, svo hann fái barist gódri baráttu, vardveitt trúna og góda samvitsku, svo hann ødlast mætti eyrdarinnar kórónu, 2 Tim. 4.

Þetta og þvílíkt á Presturinn náqvæmlega ad útmála fyrir ennm freistada og heimfæra þad uppá hann siálfann; leida honum fyrir siónir, ad Gud hafi lofad þeim øllum nád sinni, sem ydrast og betra sig. Því egi hann ad varast alla orvæntingu, en treysta Guds miskunsemi, sem øllum ydraudi er reidubúin. Hann skal minna hann á sinn skírnar sáttmála, fyrir hvern hann sé Guds barn og hafi fengid syndanna fyrirgéfningu, ad Gud hafi opinberad honum sitt heilaga ord: látid sina þénara boda honum syndanna fyrirgéfningu; látid hann verda hluttakandi í Jesu Krists heilaga líkhama og blódi. Ad Gud vilji ecki, ad þetta verdi til ónýtis, heldur segja: kom til min þú ángrada sála, eg vil hressa og endurnæra þig, Matth 11.

Þegar nú sá freistadi kémst ad raun um, ad Gud beri svo mikla umhyggju fyrir sér til ad frelsa hann, þá skal Presturinn áminna hann til ad gledia sig í Guds gædsku og segja med David: Drottinn! eg gled mig og er gladvær af þinni miskunsemi, því þú álítur eymd mína og þeckir sálu mína í neyd stadda. Ps. 31. Áminn hann ad gledia sig í Gudi Frelsara sínum og segja med Job: eg veit minn Endurlausn-

ari lifir, og eg mun siá hann í gledi med mínum augum, Job. 19. Aminn hann ad hugleida med David, hversu gott þad sé ad halda sér til Guds setja sína von á Drottinn, hann leidi hann eptir sinu rádi, og medtaki hann sídan til æru, Ps. 83. Aminn hann ad eptirfylgja Péturs rádleggingu og med stodugri trú ad mótstanda Diöflinum, vitandi ad adrir heilagir, sem í heiminum eru lida þá somu ánaud, 1 Pét. 5. Þessar og þvílíkar greinir ber Prestinum ad uidraga af Guds heilaga ordi, þeim freistada til huggunar, og leggja alúd á, ad fá syndaranum snúid í frá villu hans vegar og frelsa hans ond frá dauda, Jak. 5.

5.) Skal hann kostgæfilega áminna þann freistada til bænarinnar, ad hann ætíd og ydugleqa bidji til Guds med David, Psalm. 51, miskuna þú mér Gud, eptir mikilleik miskunsemda þinna, og fleirum þesshattar hjartnæmum bænum. Líka svo stuttlega med Tollheimtumanninum: Gud! vertú mér syndugum líknsamur, Lúk 18. Ellegar og eptir Krists egin formi: Fadir! fyrirgéf oss vorar skuldir, svo sem vér fyrirgéfum vorum skuldunautum, Matth. 6. Þeir, sem nálægir eru þvílíkum sturludum manneskjum, skulu med lestrum og saungvum daglega upphorfa sálir þeirra, til ad gledja sig í Gudi Freisara þeirra og verda æ fullkomnari í þeckingu yfirstjótanlegrar Guds nádar, þeim til huggunar og hugsvolunar og ad sidustu til nádarsamlegrar frelsunar frá þessum hordu freistingum. Þeir lesi opt eptirfylgjandi ágæta bæn:

Drottinn minn Gud! Þegar eg kalla til þín, þá gjörir þú mig heilbrygdañ. Um qvøld-tímann varir gráturinn, en ad morgni dags fögnudurinn, Ps. 30.

O þú gædskuríki Gud! af því þad er mér gagnlegt, ad eg heimsóktur verdi med ávaxtarsömu ángri, svo eg því heldur hiartanlega andvarpi um þína guddómlegu huggun mér til sáluhjálpar, þá bid eg þig ad vardveita mig fyrir lángvarandi rænn-leysi og sturlun. Láttú mig ecki í mørg ár og lángann tíma þar med plágadann verda, heldur hughreystú mig eptir freist-íngunna og láttú mig eptir hirtínguna fiña nád hjá þér, svo eg med fegnudi fái mitt lífs-skeid í þessum heimi útendad, Amen!

---

## IX. Um Fánga.

Prestarnir skulu nockrumsinnum vitja þeirra fánga og ódádamanna, sem med illverkum hafa fyrirgjört lífi sínu, ádur enn þeir meddeili þeim Sakramentid, svo þeir fái þá verduglega und-irbúid til þess medtekníngar. Umfram allt skulu Prestarnir áminna þá til sannleikans med-kénníngar, ad þeir hverki blygdist fyrir verøldiñi

ne innibyrgi syndina med sjálfum sér, hvar med þeir safni synd á synd ofan og uppveki Gud til meiri hefndar, ef þeir forherda sig á móti honum. Þeir skuli því opinberlega medkénna sinar yfirsjónir og géfa Gudi dýrdina, svo samvitskan særi þá ecki í daudanum. Þeir skulu einnig áminna þá til sannarlegs ángurs og trega fyrir þeirra drýgdar syndir, med hverjum þeir svo mikillega hafa syndgt hinn góda Gud. Þeir skulu útmála þeim af Guds ordi svívyrdíngu allra synda yfir höfud, en einkum þá synd, fyrir hverja þeir egi nú ad straffast. Hann skal láta þá yfirvega þeirra undanfarid líferni, hvert þeir ecki med ofdryckju, lostasemi, ágirnd, hatri, ofundsýki vid náúngann, óhlýdni vid foreldra og yfirbodara, vanhelgun hvíldardagsins, Guds ords forsktun og ödrum þvílíkum syndum, opt og tídum hafi framanad í þessa ólucku, hvers vegna þeir nú um sídir, eptir Guds réttvísu tilláttsemi, eru fallnir í svo stóra og hrædilega synd, eins og Drottinn hótar þvílíkum forherdtum hiörtum fyrir munn Spámannsins: eg vil setja ásteytíngu fyrir hañ, hann skal deya, Ezech. 3. Samt skuli þeir ecki falla í örvæntingu eda meina ydranin sé gagnslaus, heldur skal Prestrinn sannfæra þá um af Ritningunni, ad Gud vilji ecki nockurn þann frá sér reka, sem til hans kémur, med fleirum þesshattar Guds fyrirheitum. En þar hann med gædsku sinni hefir hingad til ecki fengid þá leidda til umvendunar, þá hafi hann ordid ad grípa til þessa medals, ad þeir fyrir pínt-

ingar, Þrúgunir, fángelsi og siálfann daudann skuli komast til réttrar Þeckingar synda sinna, eins og hann fordum gjørdi vid Manasses, 2 Chron. 33, Achan, Jós 7, Ræníngjann á krossinum, Lúk. 23. Þeir skuli Því bidia og dýrka Gud í Þessu Þeirra fángelsi, eins og Páll i myrkvastofunni í Philippis, Post Gb. 16.

Þegar Dómur er yfir Þá fallinn, skal Prestsurinn opt og tídum vitja Þeirra, og minna Þá á, ad Þeir nú alvarlega leiti fyrirgéfníngar hjá Gudi, gjøri sig undirgéfna uppsøgdum Dómi, hvern Þeir med réttu verdskuldad hafi, og vidurkéni opinberlega med ræníngjanum: ad nú medtaki Þeir Þad, sem gjørdir Þeirra hafi tilunnid. Presturinn skal Þá ítreka Þær helztu játníngar af Guds ordi, sem stór syndarar hafa ádur gjørt, svo sem: Achans, Jós 7, Davids, Ps. 51, Manassis, Israels, Mich. 7, Ræníngjans, Lúk. 23 og annara fleiri. Þeir skulu einnig áminna Þá til stadfastrar truar og vonar til Guds, sem vissulega vilji vera Þeim nádugur fyrir Jesúm Krist, og géfa Þeim sama huggunar-ríka svar, sem Ræníngjanum: í dag skaltú vera med mér í Paradís. Med Þessum og Þvílíkum ordum skal Presturinn leida Þeim fyrir sjónir Guds fyrirheit, eptir Því sem hér ad framan umgétur um freistada.

Þegar Prestarnir finna Þá kristilega undirbúna, má Þeim veitast Sakramentid, ádur enn Þeim er réttad, á sama hátt og fyrr er mælt hjá sjúkum hafast egi, bidur svo Presturinn hjá fánganum til ad hugga hañ, sýngja, lesa og bid-

ja med honum. En tjái fángar sig hardsvír-
ada, verda þeir ecki þar til medteknir, heldur
felast Gudi á hendur, ad hann af nád sinni vilji
hjá þeim oblunga umvendun og yfirbót verka,
svo þeir ecki deyi í syndunum, heldur komist til
sannleikans vidurkénníngar og deyi sáluhjálplega.

Þegar dagurinn kémur, á hverjum saka-
madurinn skal líflátast, skal þeirrar Sóknar
Prestur hvar þad skér, vera árla hjá honum
um einn eda tvo klucku-tíma, ádur dóminum sé
fullnægt, skal hann þá minna fángann á þad,
sem hann ad undanförnu hefir fyrir honum
talad, uppörfa hann til stadfestu í því góda og
ad skélfast ecki fyrir daudanum, því þessi dagur
sé hans lausnar-dagur og inngángur til sælu-
fullrar gledi í himninum. Hann skuli því in-
lega bidja Gud ad koma sér til hjálpar med
sínum góda Anda, ad hann sem fullhugi fái
gengid á hólm vid daudann og sigrad þennan
sídasta óvin. Presturinn skal ydugléga lesa,
bidja og syngja med honum, svo hann fái hald-
id honum í stödugri andakt til Guds. Hann
skal opt itreka fyrir honum höfudgreinir trú-
arinnar og stuttlega útskíra þær honum til
huggunar, einnig lesa fyrir honum ein og ön-
ur hjartnæm vers og bænir, sem þar til hlýda.
Finni Presturinn hjá syndaranum ótta og ánge-
ursemi, þá skal hann láta géfa honum vín, því
Gud þessir siálfur skipad ad géfa syrgendum
vín, sem líflátast ega, svo þeir gleymi eymd
sinni á jördunni og hugsi ecki framar til sinnar
augistar og ólucku, Ordsq. 31. Þó skal Prest-

urinn hafa gát á ad hann ecki ofmikid drecki, svo hann ecki þýngi hjarta sitt med ofdryckjun, móti Krists vidvorun, Lúk. 21. Þegar sakamanninn skal útleida til aftökustadarins, skal Presturinn fylgja honum og ætíd áminna hann, ad hann í Jesú nafni gángi med hughreysti hédan og íhugi hversu erviданn gáng hans kjærasti Frelsari hafi á undan honum gengid, sem var hreinn og heilagur, en hlaut þó ad lída eins og ódádamadur. Ad hann nálgist nú sitt frelsi og sæiufull eilífd sé honum fyribúin annars heims. Hann hugleidi sitt undanfarna líferni, bidji Gud um styrk og nád til ad bera straff sitt þolinmódlega og bidji med David:

Vertú ánægd, sála mín! Því Drottinn veitir þér hid góda; sálu minni hefir þú útryckt úr daudanum, augum mínum af tárafollünum og fótum mínum frá hrösuninni. Nú vil eg gánga fyrir Drottni á landi enna lifendu, Ps, 116.

Svo ad sakamadurinn falli ecki í annarlega þánka, skal Presturinn halda áfram ad tala vid hann af Guds ordi, minna hann á þær helztu Ritningar greinir, sem höndla um vora endurlausn fyrir Krist, um Guds miklu miskunsemi vid alla þá, sem betra sig og um sáluhjálplegann útgáng trúadra frá heiminum. Eru þær einkum þessar: Es. 43. 53. Ezech. 33. Hós. 11. Jer. 3. Mich. 7. Jóh. 3. og 5. Róm. 5 og 8.

1 Tim. 1. 1 Jóh. 1. og 2. Opinb. 14 og fl. Skal Presturinn vel athuga, ad hann fái svar af þeim sakada uppá sérhvert, sem hann framsetur; hann skal því spyrja hann, hvert hann hafi skilid þad honum hefir sagt verid? hvert hann trúi því og reidi sig þar á og finni til endurnæringar þar af í hiartanu? Presturinn skal, svo mikid sem mögulegt er, leitast vid ad taka frá honum qvída fyrir daudanum, en halda honum í stödugri umþenkingu til þess himneska og eilífa; skal hann því þess á millum knýa syndarann til bidja og syngja med sér þá sálma, sem Presturinn hér til velur. Þegar hann er kominn til aftökustadarins, skal Presturinn ámínna hann til andans hugprýdi, ad hann nú ekki í sinu sídasta veiklist né blygdist fyrir daudanum, þar hans endurlausn sé nú nálæg, Lúk. 21, og hvert sem hann lifir eda deyr, þá sé hann Drottins, Róm 14. En svo bædi Presturinn og adrir, sem vidstaddir eru, megi þess vissari vera um syndarans sanna ydran og yfirbót, skal hann tilsegja honum, ad gjöra sína seinustu játningu opinberlega og í heyranda hljódi upplesi sinnar trúar höfudgreinir. Ad því búnu framsetur Presturinn fyrir hann eptirfylgjandi spurningar:

1.) Er þetta ydar stadfest trú og játníng um Gud, í hverri þér áformid ad enda ydar líf í þessum heimi? Já!

2.) Trúid þér þá, ad þér séud stórsyndari, sem í margann máta hafid stór-

kostlega hafid módgad ydar Gud, einkum med þessari ydar drýgdu N synd, fyrir hveria þér egid nú ad straffast? Já!

3) Játid þér einnig skýlaust, ad þér hafid fyrir þá skuld verdskuldad daudann og ydur ydri þess innilega af hjarta? Já!

4) Trúid þér einnig, ad þér, fyrir Krists skuld, hafid fundid nád hjá Gudi, fyrir þessa og allar adrar ydar syndir, og ad þessi daudi skuli verda ydur inngángur til eilífs lífs? Já!

5) Hafid þér einnig af hjarta fyrirgéfid einum og sérhverjum, sem ydur hafa nockud á móti brotid, svo þér hafid eckert hatur né reidi í hjarta ydar, hverki vid Yfirvaldid, sem réttvísinnar vegna hlaut ad áleggja þann yfir ydur gengna dóm, né heldur nockurn annann af ydar samkristnum náúngum? Já!

6.) Erud þér nú í Herrans Jesú nafni fullkomlega reidubúnir og viljugir ad deya fyrir ydar drýgdar syndir? Já!

Hér uppá segir Presturinn: svo vil eg þá í Herrans Jesú nafni, til enn þá meiri styrkíngar þessarar ydar trúar og frekari vissu og stadfestu um Guds nád, eptir þeirri makt og mynd-

ugleika, sem Gud siálfur hefir geesid mér hér ad ofan, ad hvad eg fyrirgéf hér á jordu, skuli á himnum fyrirgéfid verda, tilsegja ydur þessarar ydar. drýgdrar N. syndar og allra annara ydar synda fyrirgéfníngu, í nafni Guds Fodurs, Sonar og heilags Anda.

Um allt þetta stendur Sakamadurinn á knjám, og leggur Presturinn hønd sína á høfud honum, og þannig, sem sagt er, bodar honum syndanna fyrirgéfníngu. Framvegis les Presturinn þessa litlu bæn:

Drottinn Jesús styrki og vidhaldi ydur í sannri og réttri trú allt til enda, vegna sinnar heilogu pínu og dauda, Amen!

Fánginn stendur þá upp aptur, en Presturinn byrjar þá Sálminn No. 106 í Messu-saungs-bókinni, en þegar út er súngid, segir Presturinn vid hann: látid þér nú siá, ad þér fyrir krapt Anda Drottins, svo huggid og haldid ydur, ad þér forsmáid alla vanvyrdu veraldarinnar, sem þér hér megid útstanda, en festid hugann vid þá eilífu himnaríkis gledi, hvar þér med ydar Jesú dýrdlegir verda munud, þegar þér fyrir sáluhjálplegann dauda erud laus vid þetta mædufulla líf. Presturinn áminnir hann svo ad saungja med sér Sálminn No. 146, edur annañ, sem hann þar til velur. Þar eptir segir Presturinn: svo vona eg þá, ad þér séud nú til-reiddir ad gánga til móts vid ydar Gud, en hrædist ecki daudann, sem liggur á vegi fyr-

ir ydur Tilreidid ydar finni, sál og hiarta fyrir Gudi og medtakid blessun Drottins:

Drottinn sé med ydur!
Drottinn blessi þig og vardveiti þig, etc.
Gack hédan í fridi Drottins, Amen!

Sídan skal búa fángann ad ollu til síns lífláts; en á medan er Prestrinn kyrr hjá honum, huggar hann og minnir hann á—ef hañ bundinn er—. hvílík fjøtur Kristur, Guds eginn Sonur, mátti hans vegna líða, en þó hann nu ecki fái hrært sig, þá skuli hañ innan stundar auðsýna sig réttann Samson og sundurrycka jafnvel þeim hørdustu daudans fjotrum, þar Kristur hañ. vorra vegna alla daudans makt ad engu giert, svo hann megi nú fullørnggur segja: Daudi! hvar er þinn broddur? Helvíti! hvar er þinn sigur? lofadur sé Gud, sem oss hefir sigurinn gefid, fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist, 1 Cor. 15.

Þegar hann er nú aldeilis reidubúinn ad lída straffid, skal Prestrinn áminna hann ad sídustu, ad halda sér fastlega vid Gud og standa stødugur í trúnni á hann, svo ødlast mætti lífsins kórónu, því þeim, sem yfirvinni, verdi hún géfin, Opinb. 2. Hann skuli ecki qvída fyrir daudanum, því þetta sé tíminn á hverjum Gud muni giøra hann sigri hrósandi yfir øllum sínum óvinum og jafnvel sjálfum daudanum; hañ skuli því eckert óttast, heldur standa og sjá hjálpræði Drottins, 2 Mós 14. Verid því styrkvir í Drottni og standid stødugir í trúnni, fyrir krapt Guds styrkleika, 1 Cor. 13. Eph. 6. Í sama máta á-

minnir Presturinn alla vidstadda, ad þeir af hjarta bidji fyrir þessum auma syndara til Guds, ad hann veiti honum miskunsamlega ásjá og fyrirgéfi honum allar hans syndir, styrki, viðhaldi og verndi hann í trúnni. Loksins lætur hann syndarann krjúpa á kné, sem Presturinn einnig gjörir, og les skirlega fyrir honum stutta bæn, sem efnunu hlýdir og sídast: Fadir vor, etc

Verdi sakamadurinn aðadhvert hengdur eda limfestur, eda og lifandi pintadur og partéradur, má Presturinn ecki yfirgéfa han, fyrri en han er daudur, heldur kalla hárri roddu til hans, á medan hann ennþá lifir, ad hann hugsi til Jesú og innilega andvarpi til hans med þessum ordum:

Herra Jesú! miskuna þig yfir mig!
Heilagi Herra Gud!
Heilagi Herra Gud!
Heilagi Herra Gud! miskuna þú mér!
Herra Jesú! eg fel mína sálu í þínar hendur, Amen!

---

## X. Um Hjónabandid.

Þau, sem vilja inngánga heilagann ektaskap, skulu fyrirfram géfa sig til kynna fyrir vidkomandi Sóknarpresti, en vilji hann ecki kannast vid þau, ber þeim ad framvísa honum lögmæta

vitnisburdi og sannanir, ad á hverigs þeirra sidu sé neitt það, sem eptir lögum kunni að hindra þeirra hjónaband.

Lýsa skal með hjóna-efnum af Prédikunar-stól, innan þess Safnaðar hvar brúdurin á heimili, þrjá Sunnudaga í rað, utan á þeim Stór-hátidum, Hvitasunnu, Páskum og þá Jóladag ber uppá Sunnudag, þá er lýst á Annann.

Lýsingin skédur þanninn:

Lýsist til ektaskapar í fyrsta sinn, med N. N. og N. N. Þessar persónur blessi Gud af hædunu, ad þeirra kristileg fyritekt megi vel uppbyrjast, lukkulega framgánga og farsællega endast, þeim til gódrar samvitsku og odrum til gódra eptirdæma og fyrirmyndar. Ef einhverr veit þar norkra meinbugi á, þá skal hann segja til þeirra í tíma, ella þegja sidan.

Eins er lýst í annad og þridja sinn þar eptir; en gjöri nockurr löglegt forbud þann tima á hjónabandinu, þá eru persónurnar ecki samanvígdar, fyrr enn dómur er genginn í sökinni. Ef hjóna-efnin af ásetníngi án orsaka, gjöra lángann undanndrátt eptir lýsíngarnar,

og láti sig ecki samanvígja, þá skal Prestrinn setja þeim vissann tíma hvenær þau skulu samanvígjast, undir straff eptir sakarinnar ásigkomulagi. Framfari vígslan á helgum degi, þegar embættad er, á hún ad ské fyrir prédikun, milli Pistils og Gudspialls, og ætíd í kirkjunni fyrir altarinu, nema leyfisbréf sé fengid, ad hjónavígslan megi framfara í heimahúsum. Fyrir hana skal syngja No. 308 eda 309 og 307 í Messu-saungs-bókinni, en eptir, No. 310 eda 311. ellegar adra Sálma, sem vid eiga. Þegar hjónavígslan á ad framfara, gengur Prestrinn fram fyrir Brúdhjónin og heldur stutta rædu um hjónabandid, hvar til hann brúkar grein úr Ritníngunni, hverja hann med fám ordum útleggur, sem því efni vidkémur og endar med blessunar óskum.

Sídan spyr hann þau hvert fyrir sig, fyrst Brúdgumann þannig:

N. N. Eg adspyr ydur:

1. Hvert þér hafid rádfært ydur vid Gud í himninum, þar næst vid ydar egid hjartalag, og svo þar eptir vid Ættíngja ydar og vini, ad þér viljid taka þessa (*Titul*) Meyu (Konu), sem hjá ydur stendur, ydur til ekta-qvinnu?

Hann svarar: Já!

2. Hvert þér hér eptir viljid lifa svo med henni, bædi í medlæti og mótlæti, í hverri helzt lucku Gud almáttugur vill yckur tilfæra, sem sérhverjum dánumanni ber ad lifa med sinni ekta-qvinnu?

Hann svarar aptur: Já!

3. Hvert þér vitid ydur fríann fyrir, ad hafa géfid nockurri annari qvennmanns persónu, sem nú lifir, ydar ektaskapar trú, er þetta kunni ad hindra? Hann svarar: Já!

Þær sömu þriár spurníngar brúkar hann vid Brúdina strax þar eptir.

Í sama máta adspyr eg ydur N. N.

1. Hvert þér hafid rádsært ydur vid Gud, etc. mutatis mutandis.

Þegar hún hefir játad, segir Presturinn:

Svo géfid hvert ødru ydar hendur hér uppá.

Leggur þá Presturinn sína hönd yfir þeirra hendur, og segir:

Eptir

Eptir því þid hafid innbyrdis sambyck vordid hvert vid annad, ad vilja lifa saman í heilögu hjónabandi, og hafid nú þad sama opinberlega medkénnt fyrir Gudi og þessum kristnum Söfnudi, og þar uppá géfid hvert ödru ydar hendur, svo segi eg yckur ad vera rétt ektahjón bædi fyrir Gudi og mönnum, í nafni Guds Födurs, Guds Sonar og Guds heilags Anda, Amen! Hvad almáttugur Gud hefir samtengt, skal madurinn ecki adskilja.

Séu fleiri enn ein Brúdhjón ad samanvigja, þá skal hafa þetta allt upp aptur vid hver Brúdhjón fyrir sig.

Presturinn les svo framvegis:

Med því þid hafid géfid yckur í Guds nafni, í þá heilögu hjónabands stétt, þá heyrid nú fyrst Guds ord, sem hlýdir uppá þessa stétt:

J 1 Mós. b. 2. Kap. stendur svo: Og Gud Drottinn sagdi: þad er ecki gott, ad madurinn sé einsamall, vér viljum gjøra honum hjálp, þá med honum sé. Þá lét Gud Drottinn svefnhøfga falla á manninn, hann sofnadi og Gud tók eitt af hans rifjum og fyllti upp aptur í stadinn med hold. Og Gud Drottinn skapadi konuna af því rifi, sem hann tók af manninum og leiddi hana til hans. Þá sagdi madurinn: þetta er bein af mínum beinum og hold af mínu holdi, þar fyrir mun hún Karl-inna kallast, því hún er af karl-manninum komin. þess vegna skal madurinn yfir-

géfa Födur og Módur og samtengjast sinni eginkonu, og þau tvö skulu eitt hold vera.

Þessu nærst þá heyrid Guds bodord, hvernig hann vill þid lifid í þessari hjónabands stétt: Postulinn Páll segir í Sendibréfinu til Ephes. 5. kap.: Þér menn! elskid ydar húsfreyur eins og Kristur Söfnudinn og gaf sig sjálfann út fyrir hann, uppá þad hann helgadi hann og hreinsadi fyrir skírnar-laugina í ordinu, svo hann tilbyggi sjálfum sér dýrdlegann Söfnud, sem enga flekkun eda hrucku, edur þesskonar hefdi, heldur ad hann sé heilagur og óstraffanlegur.

Svo skulu og mennirnir elska sínar egin-konur, sem sína egin líkhami; hverr sína egin-konu elskar, hann elskar sjálfann sig, þvi enginn hefir um aldur sitt egið hold hatad, heldur nærir hann þad og fóstrar, eins og Drottinn Sofnudinn.

Qvinnurnar veri Bændum sínum undirgéfnar, eins og Drottni; þvi madurinn er qvinnunnar hofud, eins og Kristur er Safnadarins hofud og hann er frelsari síns líkhama. En eins og Sofnudurinn er Kristi undirgéfinn, svo skulu og einnig qvinnurnar bændum sínum í ollu.

I þridja lagi megið þið heyra þann mótlætis kross, sem Guð hefir lagt á þessa stétt: Svo sagði Guð til konunnar (1 Mós. b. 3.): fjölga mun eg eymdir þínar: þegar þú verður ólétt, skaltú þín born með sótt og harmi fæða, undir bónda þíns valdi skaltú vera og hann skal þinn Herra vera. Og til Adams sagði Guð: fyrir þá skuld að þú hlýddir raust konu þinnar og átst af því tré, hverju eg bannaði þér og sagði: þú skalt ecki þar af eta, þá sé jörðin bölvuð, fyrir þína skuld; með erviði skaltú þig af henni næra alla þína lífs-daga, þyrna og þistla skal hún þér bera, og þú skalt

jardarinnar jurtir eta; i sveita þins andlitis skaltú þins brauds neyta, þar til þú aptur ad jordu verdur, sem þú ert af kominn; þvi þú ert mold og ad möldu skaltú aptur verda.

I fjórdu grein er yckur þad til hugguunar, ad þid vitid og trúid, ad yckar stétt er fyrir Gudi þægileg og blessud; þvi svo segir Ritníngin: Gud skapadi manninn eptir sjálfs sins mind, já, eptir Guds mind skapadi hann hann, og hann skapadi þau karlmann og qvennmann og blessadi þau og sagdi til þeirra: vaxid og fjølgist og fyllid jordina og leggid hana undir yckur; drott-

nid yfir sjáfarins fiskum og yfir himinsins fuglum og ollum þeim qvikindum, sem hrærast á jardríki. Og Gud leit allt þad, er hann hafdi skapad og sjá þú! þad var alltsaman harla gott. Þar fyrir segir Salómon svo: hverr, sem eignast eina qvinnu, hann fær gódann hlut og medtekur þócknun af Drottni.

Þar eptir leggur Presturinn hond sína á hofud þeim og segir:

Látum oss bidja:

Fadir vor! þú, sem ert á himnum, ꝛc.

Látum oss enn framar bidja:

Allsvaldandi Gud Drottinn! Þú, sem karlmann og qvennmann hefir skapad og skickad til hjónabands stéttar, þar til med líkamlegu afqvæmi blessad og þad Sak-

ramenti þíns elskulega Sonar Je. sú Krists og Kristniñar hans brúd. ur þar med teiknandi. Vér bid. jum þína ómællilega gódgirni: ad þú viljir ecki þína þvílíka sköpun, stickun og blessun láta til ónýtis verda né fyrisarast, heldur miskun. samlega vardveita, fyrir Drottiñ vorn Jesúm Krist, 2c.

Drottinn sé med ydur!
Drottiñ blessi þig og vardveiti, 2c.

Almáttugi, eilísi Gud og misk. unsami Fadir! þú, sem sjálfur hefir stickad, ad madur og qvinna skyldu vera eitt hold, og hefir þessa sam= tengíngu stadfest med þinni nád og blessun. Vér bidjum þína miskun. semi: ad þú géfir þessum hjónum, sem hér eru nú samanvigd í þínu nafni, nád, lucku og blessun til lífs

og sálar, ad þau mættu trúlega og réttilega þjóna þér í kjærleika og sambyckí, og ætíd vera hlýdin þínu heilaga ordi, svo þau mættu á þañ sídasta dag verda fundin í tolu rétt-kristinna manna, í þínum Syni, Jesú Kristi vorum Herra, hverr med þér og heilögum Anda, rc.

---

## XI. Um Greftruñ Framlidinna.

Þegar einhverr deyr í Sókninni, skulu nánustu vinir eda Yfirvaldid, ef hann er framandi, sorga fyrir því, ad likid verdi jardad. A Sunnudegum mega lík grafast ádur enn samhringt er. Enginn má taka gref í kirkju, ecki heldur í kirkjugardi án Prests eda Kirkju-verjarans leyfis; ecki heldur mega lík þegjandi grafast, án þess Prestur kasti moldu á þau, heldur skulu vidkomendur géfa honum þad til kynna, og óska líkprédikunar, ef þana girnast. Þeir daudu skulu

skrifast med nafni og aldri í þar til gjörda bók, med degi og Dató.

Þegar líkid kémur til grafarinnar skal það strax setjast nidur í hana, og sídan skiptir sér enginn af því fyrr enn Presturinn kémur og kastar þrisvar mold á það med reku.

Fyrst segir hann:

Af jördu ertú kominn.

Þar næst:

Ad jördu skaltú aptur verda.

Og í þridja sinn:

Af jördu skaltú upp aptur rísa.

Sídan fylla líkmennirnir gröfina med mold, en Presturinn velur til þá líksálma, er syngjast skulu vid greftrunina. Sé líkid grafid í kirkjugardinum, þá standa þeir, sem syngja, hjá gröfinni á medan, en sé það í kirkjunni, þá þar, sem þeimur sagt.

Egi líkprédikun ad haldast, velur Presturinn til þá Sálma er syngjast skulu bædi fyrir hana og eptir. Hann útleggur stuttlega þénanlegann Texta úr Ritningunni, þeim sorgandi til huggunar, en ödrum Guds börnum til áminningar og undirvísunar. Hann skal, eptir

þad hann hefir skipt greinum og ádur enn hann fer ad útleggia Textann, upplesa þad af lífs-sögu ens dána fyrir Søfnudinum, sem helst þurfa þykir. Hafi hann nockud géfid til kirkna, skóla, fátækra eda annarar gudlegrar brúkunar, þá skal þad í hana innfærast, Gudi til dýrdar og ødrum til gódra eptirdæma. Bidji nockurr Prestinn um sierlegann Líkstexta, þá leyfist þad, ef hann þienar þar til. Prestarnir skulu í þessum Líkprédikunum einkum tala: um syndina, sem hafi verid orsok til daudans; um gódann undirbúning daudans; um Krists endurlausn frá daudanum; um upprisuna frá daudum; um himnaríki, sáluhjálpina og eilíft líf eptir daudann. Þeir skulu taka sér vara fyrir heidíngslegri hrósun ens dauda, í þeirra Líkprédikunum svo þeir hvorki hæli honum um of, sinu kalli til nidrunar og samvitsku til saurgunar, né heldur segi neitt ósæmilegt um hañ, ødrum til hneixlunar og náúngum hans til blygdunar; en þad satt er og øllum er vitanlégt, mega þeir med hóffsemi og gódri skickun útmála. Líkprédikun má ecki vara yfir eina kluckustund; en í nærmum

siúkr

síúkdómum er prédikad helsingi skémur, og sé þad í kirkjugardinum, er gjörd stutt áminning í stadinn fyrir Líkprédikun, og endud med Drottinnlegri bæn.

Seinast er súngid í kirkjugardi, sé þar jardad, eda á kirkjugólfi 2 seinustu versin af Sálminum No. 231 í Messusaungs-bókinni:
Sofi hañ (hún) nú hér í fridi, ꝛc.

Séu fleiri lík ad jarda í einu, sem prédikast á yfir, þá kastar Presturinn mold á hvers fyri sig, en prédikar yfir þeim í einu lagi, þó svo, ad hvers Lífssaga er lesin fyrir sig. Þeir, sem ecki eru hreinnrar trúar og sannrar medkenníngar med vorri kirkju, eru ad sönnu grafnir í kirkjugardinum, hjá odrum kristnum, þó er ecki kastad mold á þá né prédikad yfir þeim. Ecki heldur má Presturinn kasta mold á þá eda prédika eptir, sem eru afteknir, ellegar hafa fyrirfarid sér, ecki heldur, sem eru óleystir úr bañi, eda dæmdir óærlegir, fyrr enn þeir eru forlíktir vid Yfirvaldid og málspartinn. Enginn,

sem

sem fellur í einvígi má jardast í kirkju edur í kirkjugardi, ecki heldur þeir, sem sig sjálfir med vilja firra lífi.

Finnist nockurr bráð-daudur úti á vídavángi edur annarsstadar, svo menn vita ecki hvernig hann er daudur, þá má hann ecki jardast ádur enn Prestrinn hefir þar um advarad Yfirvaldid og géfid því þad til vitundar og ályktan er sídan skéd. Hvert og einnig á ad skiljast um þau born, sem koma fyrir utan hjónaband, en finnast daud strax eptir fædínguna.

Lík-prédikanir yfir Prestum og þeirra Másingum, gjörir vidkomandi Prófastur. Sama ber og ad gæta um Hjóna-vígslur og Barnaskírn, þegar þad vidber.



